A n d l e g i r

# Psálmar og Qvædi

þess gudhrædda Kénnimanns

og Þjódskálds

# Hallgríms Péturssonar.

---

8da Utgáfa, eptir þeirri 5tu fullkomnustu, sem útkom á Hólum 1773.

---

Seljast óinnbundnir 72 ß. reidu Silfurs.

---

Videyar Klaustri, 1834.

Prentadir á Forlag O. M. Stephensens, Vice-Jústits-Sekretéra í Íslands konúngl. Landsyfirrétti af Bókþryckjara Helga Helgasyni.

# Inntak
## Ættar- og Æfi-søgu
### sáluga Prestsins
# Hallgríms Péturssonar
ritad af sáluga Stiptprófasti
### Mag. Hálfdáni Einarssyni.

Sveinbjørn Prestur Þórdarson og Þórdísar Finnbogadóttur, var medal fyrirtaks Presta í Hóla Stipti í sinni tíd. Þegar hann var Djákn, fékk Jón Biskup Vilhjálmsson honum sitt fullkomid umbod í Þíngeyar Sýslu, sem bréf þar um gjørt fimtudaginn í Páskaviku 1431 sýnir. Árid 1463 var hann ordinn

*Officialis* og sama Embætti hafði hann 1483, en deydi 1490, eptir það hann hafði haldið Múla Stað í 22 ár. Sra. Sveinbjörn átti mörg börn (Annálar segja 50), meðal hverra telst Sigurdur (faðir Helgu, er barnamóðir var Jóns Biskups Arasonar) og Hallgrímur, sem faðir var 1) Sra. Þorláks á Stadarbacka, faður Gudbrands Biskups. 2) Sra. Einars á Utskálum, hvers synir vóru: *a*) Gudmundur Skólameistari á Hólum, síðan Prestur á Stadastad og Prófastur í Snæfellsness Sýslu og *b*) Sra. Bergsveinn á Utskálum. 3) Sra. Gamalíels, faður Sra. Bjarna, fyrst Skólameistara á Hólum og síðan Prests að Grenjadarstað; Sra. Gissurar og Þorkells Hóla Ráðsmanns. 4) Þorkells, er faðir var *a*) Sra. Odds á Hofi í Vopnafirði, föður Bjarna á Bustarfelli Sýslumanns í Múla Þingi og *b*) Olafs, föður Olafs Skólameistara á Hólum og síðan Prests að Grímstúngum, hvar hann misti Embættið. 5) Sra. Gissurar á Stadarbacka, föður Sra. Péturs í Vestmannaeyum, hvers synir vóru þeir Sra. Gissur, Sra. Arngrímur og Gísli,

er myrdtur var í Eyunum 1692. 6) Gudmundar, er fadir var *a*) Hallgríms í Grøf á Høfdaströnd, fødur Péturs, fødur Sra. Hallgríms — og *b*) Þorbjargar, qvinnu Sra. Jóns Sveinssonar í Holti í Ønundarfirdi, Prófasts í Vestur Ísafjardar Sýslu og hálfbródur *Mag.* Brynjólfs Biskups í Skálholti. 7) Gudnýar, er var módir Sra. Þorláks Ívarssonar í Heydølum. Módir Sra. Hallgríms er nefnd Solveig, en systkyn hans vóru *a*) Páll, hans synir Hallur og Gudmundur, fadir *Mad.* Gudrúnar á Hraunum í Fljótum. *b*) Gudrídur, af hverri komnir eru Prófastarnir Sra. H. Eldjárnsson á Grenjadarstad, Sra. E. Jónsson á Hrafnagili og margir fleiri.

Pétur Hallgrímsson var, sakir ættar, tekinn ad Hólum af Gudbrandi Biskupi og var þar Hríngjari; honum fylgdi sonur hans Hallgrímur, fæddur 1614 eda þar um bil; hefir hann lært þar ad lesa og skrifa. Sá margfródi Løgmadur Páll Vídalín skrifar (*in Recensu Scriptorum & Poëtarum Seculi XVI & XVII.*) hann hafi nockurn tíma í Skóla verid og lagt þar fyrsta grundvøll bóklegra

menta. Tjáist ad Hallgrímur hafi mist Skólann, en fyrir einhverra náúnga sinna tilhlutun siglt til Glückstadar og komist sídan til Kaupmannahafnar, hvar hann hafi þjónad hjá Járnsmid nockrum, en ad *Mag.* Brynjólfur, sídar Biskup, hafi fengid hann þadan lausann, annadhvert 1631, þegar hann í annad sinn sigldi hédan, eptir hans 2gja ára hérvern, edur — hvad líklegra vyrdist — ári sídar *), ádur hann inngéck *Conrectoratum* í Hróarskéldu

*) Reisu-psálm, er hér vid bætist og svo byrjar: „Jeg byrja reisu mín, Jesú! í nafni þín," finn eg í 3ur Psálma-querum *Msc.* med þessari fyriskrift: „Reisu-psálmur Hallgríms Péturssonar, qvedinn í Kaupmannahöfn árid 1632, þá hann vildi reisa þadan til Islands." Sé nú þetta rétt, hefir hann frá Járnsmidnum losast líklega árid 1632; en þar hann hafdi i fødurlandi sinu lært ad lesa og skrifa, samt í Hóla Skóla numid nockud í Látinu, svo hefir *Mag.* Brynjólfi sýnst Hallgrími gagnvænlegast ad hann byrjadi aptur med lærdóm sinn, einkum þar hann hefir fundid hjá honum gódar náms gáfur; því þad sýnist sjærri líkindum, ad med

og flutt svo mál hans, að hann var inntekinn í Vor-Frúar Skóla í Kaupmannahøfn; tók Hallgrímur þar þvílíkum framførum, að árið 1636 var hann kominn í svo nefnda Meistara Lectsín. Fyrir guðrækilega umsorgun og ørlæti Kristjáns Konúngs IV., komu 38 persónur til Kaupmannahafnar frá Tyrkjum, af fólki því, er hernumið var og héðan af landi flutt 1627; en þar fólk þetta skildi lítið eða ekkert í dønsku, þurfti það með því væri einhverr íslendskur fenginn, sem styrkti það í þess kristinndómi, var þess vegna Hallgrímur fenginn til að lesa og tala fyrir því Guðs orð. Meðal þessa útleysta fólks var Guðríður Símonsdóttir (er søgð gipt hafi verið Eyólfi nockrum og haldið áður til í Stackagérði í Vestmannaeyum), til hverrar hann fékk þann ástar-þocka, að vorið 1637, þegar þetta ánauðuga fólk skyldi reisa frá Danmørku, yfirgaf Hallgrímur Skólann og fór með Guðríði út híngað; komu þau út í Kéblavík og var

ellu ólærður handverks drengur hefði heldur til menta enn annars handverks settur veri.

Hallgrímur þá púlsmadur hjá Dønskum um sumarid; en eptir þeirra burtsiglíngu hafdi hann hvergi hæli. Gudrídur ól barn í Ytri Njardvík hjá Grími Bergssyni, en þá tald- ist svo til, ad madur hennar var daudur ádur enn hún tók vid barninu, svo brotid reiknadist fridlulisi. Snérist þá svo fyrir Hallgrími ad hann vard áhángandi Arna á Ytrahólmi á Akranesi, syni Gísla Þórdarsonar Løgmanns, svo hann skaut skjóli yfir hann þad eptir var sumarsins og reyndist honum sídan hinn mesti hjálpar- madur.

Skømmu eptir þetta mun Hallgrím- ur hafa giptst Gudrídi og sídan í mestu fátækt uppihaldid sér einhversstadar á Sudurnesjum — í koti nockru, Baulufæti þá kølludu, hefi eg sjed skrifad, hvar um þó eckert víst álykta — annadhvert á vegum Arna edur í Hvalsness- hverfi, undir skjóli bóndans þar, Þorleifs Jónssonar, til þess hann, eptir undirlagi *Mag.* Brynjólfs Biskups — því bágt var um þær mundir ad fá Presta til Hvalsness Sókna, þar sá rómur hefir álegid, ad Torfi Erlends- son, þá Héradsdómari í Gullbríngu Sýslu

og adrir stórbockar í Hvalsness Sóknum, hefdu ecki látid Presta sína ofdátt — kannské og fyrir áeggjun og tilløgur Arna eda Þorleifs, fór til Skálholts og vígdist 1644 til Hvalsness Sókna, var og árid eptir innstefndur í *Synodi* - Réttinn á Alþíngi og undirskrifar *Protocollinn*, eins líka Hvalsness *Visitatiu* 1646, bjó hann þá á Hvalsnesi og mun þar búid hafa svo lengi, sem hann var þar Prestur, hvad eg meina verid hafa 6 edur 7 ár; því 1650 deydi Sra. Olafur Bødvarsson Prestur í Saurbæ á Hvalfjardarstrønd, er þann Stad hafdi haldid frá 1623, en Sra. Hallgrími var veittur Stadurinn 8da Apr. 1651, af Matthías Søffrínssyni, er Umbodsmadur var Høfudsmannsins Henriks Bjelkes og tók hann vid Stadnum í Fardøgum sama ár af Eckju Sra. Olafs, Gudrídi Rafnsdóttur; stendur og í Saurbæar kirkju *Visitatiu*, gjørdri af *Mag.* Brynjólfi 1661 þann 9da Sept., ad Sra. Hallgrímur hafi Stadinn haldid á 11ta ár; en Eckja Sra. Olafs mun hafa notid nádar-ársins, ef ecki eptir Kóngsbr. um Presta-Eckna nádar*-ár af 3ja

Maji 1650, þá eptir *Ordinantiunnar* hljóðun og á henni grunduðu *Synodali Mag.* Brynjólfs af 1639. Eptir það nú Sra. Hallgrímur var kominn að Saurbæ, vegnaði honum þar sæmilega til þess 1662 þann 15da Aug., þá um nóttina uppbrunnu øll Prestakallsins innanbæar hús og mikið af búshlutum; komst allt fólk af, utan aðkomandi førukarl og sagður forn í skapi, Olafur Pálsson, sonarsonur Sra. Bødvars Eyólfssonar í Saurbæ. Margir góðir menn urðu þá til að hjálpa Sra. Hallgrími, svo Staðurinn varð uppbygður sama haust. Fáum árum eptir, nefnilega 1665 eða 1666 varð hann líkþrár, en fór þó til Alþíngis þetta síðara ár og urðu margir til að gjøra honum gott; en árið 1667 þreyngdi svo að honum holdsveikin, að hann kaus sér fyrir Kapellán Sra. Torfa Jónsson frá Reykholti og gaf upp við hann hálfann Staðinn, en bjó sjálfur á øðrum helmíngi Staðarins. Sra. Torfi deyði um sumarmál 1668, en eptir hann kom Sra. Hannes Bjørnsson, sem áður hafði Prestur verið í Ferjubacka þíngum; bjó hann, ásamt

Sra. Hallgrími í Saurbæ hid fyrsta árid, en tók vid Stad og kirkju 1669. Fór fram afhendíngin þann 5ta Maji, en var stadfest af Biskupi þann 8da s. m. Med Stadnum afhendti Sra. Hallgrímur jardirnar: Kattarnes, Stadarhøfda og Ós; partinn, en hélot eptir Ferstiklu, Hrafnabjørgum og Stadartánga. Sama ár flutti Sra. Hallgrímur sig ad Kalastødum, hvar hann bjó 2 ár og sídan ad Ferstiklu, hvar hann bjó til daudadags. Nú þó Sra. Hallgrímur væri ordinn veikur og kominn frá Saurbæ, var hann þó um þessar mundir og lengi frameptir á fótum og nockurnveginn ferdafær, því bædi Anno 1668 reisti hann til Alþíngis og var þá í *Synodo* og 1669 er hann einninn á Alþíngi og undirskrifar med ødrum 22ur Stiptisins Prestum, audmjúka bæn þeirra til *Mag.* Brynjólfs ad halda vid Biskups Embættid framvegis. Hin sídustu missiri vard hann karar; madur og nærri blindur, en bar þó sinn þúnga veikleika med þolinmædi og orkti í honum marga andríka og hjartnæma Psálma. Ad lyktum, þá hann var sextugur ad aldri, endudust hans

stríds dagar fyrir sáluhjálplegann afgáng, sem skédi eptir Veturnætur, edur þann 27da Okt. 1674; var hann jardadur fyrir framan midjar kirkjudyr í Saurbæ þann 31ta s. m., en nú er sagt leg hans sé ad næstu leiti innan kirkju, þar hún sídan hefir verid lengd fram *).

Sra. Hallgrímur var ad ytra áliti stór og ei lidlega vaxinn, døckur á hár og brún, enginn raddmadur, en hversdaglega skémtinn og gladsinna; án vidhafnar tilbreytni lidugur og ordheppinn í qvedskap; andríkur

*) Yfir þetta nafnfræga Sálmaskáld er árid 1821 lagdur ad Saurbæ á Hvalfjardarstrønd, prýdilega úthøggvinn Líksteinn af þjódhaga Smidnum Jakobi Snorrasyni á Húsafelli, úr þeirri ágætu Steina-tegund, hverri Ferdafagg þeirra Eggerts og Bjarna lýsir í §. 133, ad finnist i Húsafells fjalli. Líksteinsins áhøggna Letur er þetta:

*Lét. Stein. þenna. Lands - höfdíngi.*
*Sárast. saknadur. — hverr. sanuri. trú.*
*Af. alúd. unni. — Ættmenn. rista.*
*Eptir. sinn. dag. ad. auldnum. moldum.*

og orðhagur Prédikari; velskiljandi Pýðsku, Dønsku, Látínu og sitt móðurmál.

Børn Sra. Hallgríms' og Guðríðar dóu flestøll úng; eitt þeirra hét Steinunn, sem varð hálfs fjórða árs, hverja sagt er hann hafi mikillega tregað vegna náms og gáfna, er strax létu sig í ljósi hjá henni. Annað Eyólfur, er giptist Þóru, dóttur Guðmundar Narfasonar á Hálsi í Kjós og Guðrúnar elztu Ormsdóttur frá Eyum. Þeirra børn a) Magnús, þjónaði Prentverki í Skálholti, sigldi og giptist utanlands, og b) Guðrún, er giptist Þorleifi syni Jóns neckurs Indriðasonar. Guðmundur er og talinn sonur

---

*Háleits. Sálma-skálds.*
*HALLGRIMS. fræga.*
*Saurbæar. Prests. PETURSSONAR.*

---

*Lifi. Beggja. Minníng. í. Landi. blessuð!*
*MDCCCXXI.*
*M. St:*

Sra. Hallgríms, mun hafa dáid úngur og ógvæntur,. þar ei er gétid hans afkomenda. Gudrídur var, eptir dauda Sra. Hallgríms, hjá syni sínum Eyólfi, er bjó á Ferstiklu eptir fødur sinn, til þess hann dó 1679, á sínu 42ru aldurs ári, en eptir dauda hans fór hún ad Saurbæ til Sra. Hannesar og deydi þar 1682, ári yngri enn hálf níræd, grafin 20. Dec., hvar eptir hún synist fædd 1598 og gipt vera Sra. Hallgrími þá hana skorti vetur á fertugann.



Eptirfylgir med fám ordum ad minnast á þau Skrif, sem eptir þenna Guds mann Sra. Hallgrím liggja og honum almennilega eignud eru: J sundurlausri rædu hefir hann samanskrifad: *Diarium christianum* edur daglega ydkun af øllum Drottins dagsverkum, med samburdi Guds tíu Bodorda og minningu nafnsins Jesú. Lét hann Bækling þenna frá sér útgánga 1660. Einnig: Sjø gudrækilegar umþenkíngar edur eintal kristins manns vid sjálfann sig hvern dag í vikunni qvøld og morgna og hefir hann báda þessa bæklínga *dedicerad* Eggert Bjørnssyni á Skardi á

Skardsströnd, Sýslumanni í Bardastrandar Sýslu og eru þeir nockrumsinnum prentadir. Ut af *Diario* hefir qvedid Psálma sá velgáfadi Kénnimann Sra. Jón Sigurdarson, en Vikuþaunkunum hefir í Psálma snúid Sra. Eiríkur Hallsson á Höfda. Hjá mér eru Vikubænir Sra. Hallgrími eignadar, er vel mættu fylgja þessum bæklíngum, ef menn fyrir víst vissu þær væru verk Sra. Hallgríms og óafbakadar. Þessi Guds madur hefir einnig *commenterad* yfir nockrar Vísur úr vorum Fornsögum, einkum Sögu Olafs Konúngs Tryggvasonar, en þó einhverjum þyki þad hans verk ei hid fullkomnasta, þá er adgætandi, auk þess vér erum allir menn og vorum ófullkomlegleika fylgir jafnan einhverr annmarki, ad vera má Sra. Hallgrímur hafi ei géfid sér stundir, eda ei hafs þær, til ad halda áfram med sama vandaverk og skiljast svo vid þad, ad grandskygnustu menn gætu engin missmídi á sjed *).

---

*) Páll Lögmadur Vídalín, vel tilfallinn Dómari í greindu efni, skrifar þannig hér um *l. c.: Commentarium etiam reliquit in nonnulla veterum Poëmata, quæ Historiæ Olai Tryggonis f. inserta sunt, in quo laudabilem etiam operam præstitisse*

Í bundinni rædu hefir Sra. Hallgrímur miklu fleira gjørt og sérhvad af því, med þeirri snild og ágæti útfært, ad hann fyrir laungu forþénad hefir eitt hid ypparsta sæti medal þessa Lands Høfud-skálda; þar hann, med føgrum og haggvæmum ordum í lidugasta qvedskap, án fordildar og affarasnids, framsetur sína velgrundudu þánka um hvílíkt efni, sem optast snertir hjartnæmustu atridi vorrar trúar, kristilegt framferdi manna og framfarir þeirra í andlegum efnum. Eitt hid ypparsta og uppbyggilegasta verk, sem í ljódum hefir samid verid og í þessu landi útgengid, eru hans Fimmtíu Psálmar út af Pínu og Dauda Drottins vors Jesú Krists, med Textans útskíríngu. Og — svo sem þeir høndla um hid huggunar-ríkasta efni og innibinda í sér merg og kjarna vors kristinndóms, svo hefir hann mest ástundad ad vanda þá og víst nockurra ára tíma til þess brúkad — sumir segja 10 og vænast hér til vitnisburdar Sra. Hannesar Bjørnssonar, hver-

---

*videtur, pleraque enim feliciter eruit, haud scio an omnia, glaciem certe fregit maxime difficultatis, stravitque ad cætera viam & dolendum, quod tam pauca idgenus poëmata tractaverit.*

jum hér um mátti nockurnveginn kunnugt vera, adrir færra. — Þetta sitt ágæta verk fullkomnadi hann 1660, sem sýnir Formáli og *Approbatio* Sra. Jóns Jónssonar á Melum, dagsett 7da Marts sama ár. Það sýnir og *Dedicatio* til Kristínar Jónsdóttur í Einarsnesi og Helgu Arnadóttur í Hýtardal, dagsett 5ta Maji nefnt ár; mér þykir og líkleg sú tilgáta, ad hann hafi ei lengi látið undandragast ad sýna Psálmana súmum velgjørda=manni *Mag.* Brynjólfi Biskupi, heldur jafnvel fyrstum manna og undir eins *offererad* þá Dóttur hans, eins og hann í Marts á s. á., gaf þá og tilsendi Ragnhildi Arnadóttur í Kaldadarnesi, hvert *Autographum* Prófasturinn Sra. Vigfús í Hýtardal skrifar sig í høndum haft hafa med Formála Jóns Prófasts. Sú 1ta *Editio* þessara Psálma, útkom á Hólum í Hjaltadal 1666, hverki góð né fullkomin, þar medal annars, vøntudu 2 vers í þann 15da Psálm og hid 3ja í þann 8da. Sú besta *Editio* meinast hin 4da í Skálholti 1690. Þessir Psálmar hafa ad vísu (til 1773) 15 sinnum prentadir verid *) og það med *citatis biblicis*

*) Þessara Psálma 22ur útgáfa var prentuð síðarst í Videy 1832.

1704 og hefir *Editor Mag.* Bjørn Biskup Þorleifsson viljad lagfæra þá í tveim stødum (nefnil. þad 18da vers þess 14da Psálms og hid 12ta. v. í þeim 16da Psálmi) og þó *Mag.* Bjørn Biskup hafi gjørt þessa umbreytíngu í bestu meiníngu, þá lagdist þad ei svo út fyrir honum og hefir henni því ei fylgt verid í enum sídari *Editionibus*. Miklu framar hafa nockrir merkilegir menn annadhvert reynt til ad snúa þeim í framandi túngumál, eda med Prédikunum út af þeim viljad þeirra inntak ljósara gjøra fyrir almúga; hver fyrirtekt ad vísu lofleg er, þó Psálmarnir sjálfir framsetji skiljanlega, þó í særri ordum, Þjódskáldsins þánka. Á látínsk vers hafa gjørt tilraun ad snúa nockrum þessum Psálmum *Mag.* Jón Biskup Vídalín, eitt hid besta Látínu-skáld hér á landi verid hefir, bródur hans Þórdur og Jón Þorkéllsson, nockur ár *Rector* í Skálholts Skóla *). Gudmundur,

*) Árid 1778 útkom í Kaupmannahøfn látínsk útlegging þessara Passíu-Sálma, undir sømu løgum, sem hinna frumqvednu, gjørd af Kolbeini Presti Þorsteinssyni til Middals í Árnessýslu, ad øllu leiti á kostnad, eins og sú Utgáfa øll, þáverandi Amtmanns, sídan Stipt-

sonur Sra. Gudmundar Jóns (lærda) sonar, gáfumadur og skáld sæmilegt — er þjenti lengi hjá Hennar Majesteti Sophíu Amalíu og vard Fógeti Hennar í Lágalandi (Laaland), allt til Hennar dauda 1685, en bjó þar eptir í Péttmerski stutta stund, sídan í Glückstad, og lifdi víst til ársins 1688 — byrjadi ad útleggja þessa Passíu-Psálma á Þýdsku, en hvert hann hefir tilendst ad fullkomna þad áform sitt, er mér ad vísu óljóst. Ut af Passíu-Psálmum þessum hafa samantekid 50 Húslestra þeir æruverdugu gáfumenn: Sra. Gudmundur Isleifsson, Prófastur í Bardastrandar Sýslu og seinast Prestur á Ingjaldsholi: Sra. Jón Sigmundsson hvers ádur er getid; Sra. Vigfús Jónsson á Stød, er deydi 1761; Sra. Jón Jónsson, sídast Prestur til Stadarhóls og Hvols Safnada, hvers verk þryckt

---

amtmanns Olafs Stephánssonar, sem vard gefins útbýtt hér og erlendis vida.

*M. St.*

Hjorleifur Prófastur Þórdarson, sídast Prestur til Valþjófsstadar í Nordur-Múla Sýslu, hefir snúid Psálmum þessum á látinskt *hexametrisk* vers, prentud i Kaupmannahøfn.

er á Hólum í Hjaltadal 1766 *). Það er og merkilegt, að þessir Passíu-Psálmar eru ei einasta — og hefði nær því sagt — í hverju húsi her á landi yðkaðir, heldur og hefir þeirra verðuga hrósi á lopt haldið međal framandi þjóða, sá nafnfrægi *Historiographus Regius* Þormóður Torfason *in Serie R. & D. D. L. I. Cap. II.*, er þó sonur var Torfa Sýslumanns Erlendssonar, mótstöðumanns Sra. Hallgríms og Kapteinn Magnús Arason hafði þá gjarnan á sér og fundust þeir á honum dauðum, þegar hann drucknaði við Hrappsey á Breiðafirði 19ða Jan. 1728, og — hvað meira er — að Magnús vyrðti svo minníngu Sra. Hallgríms, að hann ásetti sér að innkaupa Líksteín yfir hann, með látínskri *Inscription* **) og setja fyrir neðan

*) Vigfús Prófastur Erlendsson, síðarst Prestur að Setbergi í Eyrar-sveit, hefir samantekið 50 Húslestra út af þessum Passíu-Psálmum, nefnda Píslar Þánkar, prentaða á Hólum 1773 og 1779.

**) Þessi *Inscription* hljóðar þannig, eptir því, sem mér hana meddeildi í Kaupmannahöfn 1754 *Stud. Antiqv.* J. Olafsson.

*D. T. O. M. S.*

*Monumentum. Viri. in. perennem. pat-*

hana þau 5 síðustu vers þess 25ta Psálms, snúrið af honum á látínsk Ljóðmæli. Hérað auk hefir Sra. Hallgrímur orkt 1656 Psálma út af fyrri Samúelis-bók og af þeirri síðari til Abners dauða, eða til þess 3ja vers í þeim 2rum Psálmi, hvert verk þeir mjög velgáfuðu menn: Sigurður Gíslason og Sra. Jón Eyólfsson eldri á Gilsbakka færðu vel til enda. Þeir eru prentaðir (á Hólum) 1747. Líka svo hefir Sra. Hallgrímur qveðið Psálma út af Historíu Jónasar Spámanns og qvæði af Bíleam, hvert-tveggja prentað með Vísnabókinni 1748. Af Rímna-flockum eptir Sra. Hallgrím eru: 1.) af Lykla-Pétri og Magelóna. 2.)

---

*riæ. suæ.* **Islandiæ.** *gloriam. nati. in. perenne. ecclesiæ. Christi. quæ. vivit. in.* **Islandia.** *aut. victura. est. emo lumentum. Sacerdotio. functi. &. eodem. suo. Sacerdotio. sancte. defuncti. Dni.* **HALLGRIMI. PETRI. F.** *Ecclesiarum. primo.* **Hvalsnessensis.** *&. hinc.* **Saurbœensis.** *in.* Hvalfjarðarstrond. *pastoris. dum. vixit. vigilantissimi. atque. in. eo. ipso. officio. summo. cum. honore. mortui. posuit*

*M.* **Arason.**

af Flóres og Leó (Þar Bjarni Jónsson, Skáldi, hætti vid í hinni 16du Rímu, þar svo byrjar: „Fleidólfs bát eg hryndi á mar, heldur enn lengur standi.") 3.) af Króka-Refi. Auk þess, sem nú er upptalid, hefir hann marga Psálma, Qvædi og gamanvísur eptir sig látid, sem ad nockrn leiti finnast í þessu qveri og ad nockru leiti liggur enn þá hjá mér og ødrum, sem vissra orsaka vegna, ecki ad þessu sinni þryckjast kann.

Hvad þessari Utgáfu vidvíkur, þá er hún á vidlíkann hátt løgud, sem hin sídasta af 1770, nema hvad undanfellt hefi þær stuttu Bænar andvarpanir, sem þar finnast á bls. 173 — 179, þar ei einasta er til vonar, ad þær þryckist hid fyrsta, ásamt Paunkum (svo kølludum) *Auctoris*, heldur og sýnast, nær *Finales consonantiæ* frátakast, líkar jafnt sundurlausri, sem bundinni rædu; líka og þar fyrir, ad rúm fengist fyrir Vidbætirnum, er inniheldur nær allt híngad til óþryckt, en Sra. Hallgrími eignad ei af færri enn 3ur *Exemplaribus*, af hverjum eckert sýnist þess annars *Apographum*. Ad innsetja allar

*variantes lectiones* hefi eg opt þenkt, en sleppi því um sinn, þar það er gagnslitið, en gjør-
ir undireins qverið stærra og dýrara. Psálm-
inn: **Leið þú mig Guð! og lát mig ei**, hefi eg fundið í 2ur *Exemplaribus* einasta með 3ur versum, en af hinum, samt 2ur enn óþryktum versum, samanstendur annar Psálm-
ur Sra. **Hallgrími** eignaður. Í Akdar-
háttar versi 9da, er nú undanfellt: **næm**, eptir *Exemplaribus* þeirra sælu Guðs manna: Føður míns, einu Sra. **Eyólfs á Vøllum** og Sra. **Guðmundar Erlendssonar í Felli**, þar þetta orðkorn sýnist úti mega látast í tilliti til meiníngar og bragarháttar. Í Flærdar-
sennu (svo kalladri) versinu 2 sýnist heldur ega í tilliti til meiníngarinnar, vera: kreppir **inn**, heldur enn **að**, eptir sál. Bechs Sýslumanns *Exemplari*. Ur Psálminum: Sælar þær sál-
ir eru, hefi eg burttekið 3 vers, eptir til-
vísun *Exempls*. Sra. **Hallgrími** tilheyr-
andi og sett þau bak við nefndann Psálm, því þau eru undir øðru lagi enn hann. Psálmurinn: „**Hjartað kátt, høfum þó gángi styrdt,**" mun vísulega vera Sra. **Jóns Píslarvotts**

eins og hinn: „Jesú Frelsari og Fridar-herra," Sigurdar Pálssonar; ecki heldur munu Samstædurnar: „Hyrt mig ei í heiptar brædi," né versin: „Eitt má óvalt heita" etc., fyrir víst eignandi Sra. Hall-grími, verdur þetta því undanfellt í þessari Utgáfu, í hverri finnst eitt og annad smáveg-is lagfært, eptir þeim *Exemplaribus* fengid hefi sídan *penultima Editio* útgéck og gódir menn hafa mér tilvísad, medal hverra helztu er Prófasturinn Sra. Vigfús Jónsson í Hýtar-dal, hverjum eg, eptir skyldu, aflegg hér med mitt opinbert þacklæti, eins og hinum ødrum, þó um sinn ei séu á nafn nefndir.

---

Punda Guds vel féck vandad
Vitur í Psálma-ritum
Medferd Hallgrímur Hyrdir
Herraus sauda ótraudur,
Son Péturs, sem ábata
Sízt rírdi Kristi dýrdar,
Olafur, í dúk sveita
Ei fól gjøf himna Jesurs.

2. Bordlegd heldur hugdi,
Hún minna skyldi' ei vinna
Ard um Isa jordu,
Enn náð hafdi þáda.
Því er sál hins sæla
Setst í fognud bestann;
En vér eptir finnum
Agætst merkin verka.

3. Eitt sinn, opt þó mætti
Adur líta fjølnýtu
Stef hins ljóda ljúfa,
Løgud ment vera prentud,
Biskup Gísli þann geiska
Gudfrædis ecki mædist

Landi láta tendrast;
Letrad fátt vard betra.

4. Hér er hugvits rírum
Hægt tilbendt ad mentast;
Hér er hug óverum
Hermt frá andar grandi;
Hér er hugar-sárum
Huggan trú vel búin;
Hér er hugar-skjærum
Heitid dýrdar veiting.

5. Ættmanns hródra háttum
Hródur verdt er bjódist;
Fár hefir fegur skrifad
Fordum ljód vorrar þjódar;
Nockrir nærri hrucku
Nýtur ber af ítum,
Mangi máské lengi
Megi jafnast vid Nafna.

6. Breidid mót eyrun bædi,
Blídur Íslands lýdur!
Breidid ad hendur bádar!
Býdur Gud sitt ord tídum;
Breidid út hjörtun hradir,
Hlýdid Psálma smídum!
Breidid varir vidur,
Vída saunginn prýdid!

7. Lysi oss þad ljósid,
Ljós máttum best kjósa;
Kjósum veg, sem vísar,
Vís er oss þá prísinn,
Prís í himna húsi,
Hús þad rækjum fúsir;
Fúsa loks ad leysast,
Leysi Gud frá hneisu!

---

*Encausto formas veteres pinxere tabellis.*
*Nostras hic vates carmine conspicitur.*
*Ispe suæ pictor mentis (nil- ora moramur).*
*Vivus erat scriptis entheus ille senex.*

ita posuit Ipsius
ex Sorore pronepos & cognominis
*H. ELDJARNI F.*

---

## EPITAPHIUM.

Hér liggur Skáld, er skyldug
Skáld stæra forprís skjæraun,
Skáldmæli um Krist, þá qvaldist,
Kjærust vann Skáld þad næra.

Ei Skáldum Ísa foldar
Æru Skáldin svo færa,
Sem Skáldi því gladir gjalda,
G:ær Skálds hrós frábærast.
2. Eitt ljós Snælands ætta,
Ættmanns vóru hættir,
Hætt þá særdu sóttir,
Sótt vann trúar þróttur.
Próttsæll dó í Drottni
Drottins píslarvottur;
Vott þess firdar fréttu,
Frétt med sannleiks réttri.
3. Lifir Skáld lopti ofar,
Lifir Skálds aund dygd þrifin,
Lifir Skálds nafn í lofi,
Lifir Skálds gröf hrós yfir.
Lifi Skálds minníng ljúfa!
Lifi Skálds stærsti bikar!
Lifi Skálds ljóda - gjafir!
Lifi Skálds merkis skrifin!

# Fyrsti Parturinn
innihaldandi
## nockra Psálma og Qvædi
út af heilagri Ritníngu.

### Psálmur um sköpun veraldar.
Af 1tu Mós. b. 1ta Kap.

Lag: Ovinnanleg borg er vor Gud.

Í uppháfi fyri sitt eilíft ord, almáttugur Gud skapti, himin og líka hér med jörd, af hreinum guddóms krapti, fagurt ljós, firmament, flód og þurrlendid hent, gros, jurtir, grænkud tré, gaf þeim og frjófseme, med ylm og aldin safti.

2. Sól, túngl og stjernur setti hann, sjálfur á festíng skjæra, líka svo fuglinn léttfærann, um loptin kann sig hræra; í flódi fiska-kyn, fénad og dýrin hin, sképnur skridandi um fold, skapti seinast af mold, mann og hans qvinnu kjæra.

3. Himininn klár og hýr þá var, hreinann géfandi ljóma, jordin án mædu ávext bar, med allskyns aldin-blóma, skèpnurnar allar eins, ei kénndu nockurs meins, madurinn hafdi' um heim, herradóm yfir þeim, í sælu, réttlæti og sóma.

4. Svo er nú Drottins ordid eitt, sem ellu vid makt heldur, án þess ad gjert er ecki neitt, almætti hans því veldur; þad ordid eilíft er, allt gott færir med sér, hverr sér þar heldur vid, hreppir eilífann frid, gledst þar af hugur hrelldur.

5. Jesús er eilíft ordid þad, einka Lausnarinn gódi, fyrir hvern allt ad er skapad, afsviptir sorgar módi; hann ellu heldur vid, hann sannann géfur frid, hann slítur hrigdar bönd, hann bætir meinin vönd; fegnum þeim fridar sjódi.

6. Jesús er gledi eilíf ein, ellum þeim á hann treysta, hann er sú besta bótin hrein, bönd synda kann afleysta, vor bótin best til sanns, bæn heyrir syndugs manns, hann bætir böl og þrá, burtsviptir hrigdum frá, géfandi nádar neista.

7. O! hvad opt verd eg ordlaus hér, eymdir mínar því valda; líknar ord, Jesú! legg þú mér, lát mig ei synda gjalda; gled

þú mitt sorgfullt sinn, sætasti Jesú minn! láttú mig þjóna þér, með þýðri lofgjörð hér, nú og um aldir alda!

Inntak úr historíu af Balaam.
4du Mós. b. 23ja og 24da Kap.

Með lag, sem Súsønnu Qvæði.

Þá Israels lýður einka fríður af Egyptó, út réð gánga, eyðimerk lánga yfirdró, á Móabs vellum þreyttur þó, þá um síðir landtjøldum sló.

2. Móabíta og Madíaníta mønnum þá, stýrði katskur, kjænn og vaskur Kóngur sá, Balak hét, sem birta má, bægja vill þeim landinu frá.

3. Ei sér treysti hann með hreysti að halda stríð, ángri mæddist, af því hræddist Israels lýð; við sína menn hann sagði' um hríð: senn mun búin ófriðar tíð.

4. Israels múgur mannvals drjúgur Móabs láð, allt mun eyða, auðæfum sneiða og auka' ofs háð, eins og fé, sem ei er gáð, upp vill ræta jurtir og sáð.

5. Um þann tíð hjá Arams lýð var einn sá mann, bókin efnir beint og nefnir Balaam þann, spádóms ment og konstir kann, Kóngurinn vill að fundinn sé hann.

6. Sídan beiddi og svo tilreiddi sendimenn, ad Balaam finndi og fljótt med skyndi í fjærlægd senn, honum segid ord mín enn: ómaks-launin géld eg þér tvenn.

7. Af Egyptalandi fólk flýandi flockum tveim, ógna lid med sorga síd mig sækir heim, bid eg þú komir ad bølva þeim, bædi færdú vyrdíng' og seim.

8. Móabs ædstir Herrar hærstir hlýddu Gram, stórar háfur, gérsemis gáfur greida nam, brádlega hittu Balaam, báru sídan erindin fram.

9. Balaam þýdur beiddi blídur: bídid hér! á morgun svarid fyrr enn farid fáid þér, þegar vís eg ordin er alls, sem Drottinn kunngjørir mér.

10. Þessa nóttu þegar í óttu, um þennann hag, Gud spyr hradt, því segi' eg satt, med svoddan slag: hvada menn med hefndar plag, híngad komu til þín í dag?

11. Balaam sagdi, senn ad bragdi sendi mér, Balak menn og bidur mig enn ad bjarga sér, af Egyptalandi ógna her, innfallinn í ríkid hans er.

12. Það eg fregna, hann þykist ei megna þeim á mót, fá vill mig ad frelsa sig

og fremja blót, svo bölvan yfir þá falli fljót og fólkið hreppi afdrifin ljót.

13. Hér um skírir hann, sem stýrir haudri og heim, þó þér bjóði Budlúng ríðbi, brendann seim, lát þá sjálfa hverfa heim, hvergi skaltú fara med þeim.

14. Við Móabs menn að morgni senn hann mælti í stað, ydur búið, burtu snúið, Balaam qvað, gjöri eg ei það sem Budlúng bað, bannað hefir Drottinn mér það.

15. Þessir gánga leið svo lánga, að ljóðin tjá, Balaams svörum, sínum förum sögðu frá, kynlega við það Balak brá, bjó til aðra sendimenn þá.

16. Ðolíng fyrri eins og fyrri uppásló, af sínum vinum vildari hinum valdi þó, til Balaams seggja dróttin dró, dýrar gáfur Kóngurinn bjó.

17. Spámann fundu fróðir í lundu og fluttu þar, erindin sín með orðin fín, sem ásett var, skíra gull og gérsemar, gaf þeim aptur Balaam svar:

18. Þeim ydur sendi af sinni hendi segið þér, þó húsin full með glóðraudt gull hann gjæfi mér, mun eg ei gjöra hið minnsta hér, meir enn Drottins befalníng er.

19. Sömu nótt þá seggja drótt í svefni var, Balaam beiddi, Gud honum greiddi gløggt andsvar, til Móabs lands þú med þeim far, minnstú hvad eg skipa þér þar.

20. Ösnu býr og brádlega snýr med brøgnum þá. Engill hreinn af himni einn, sem hér skal tjá, midri leid þeim mætti á, mátti hann ecki Balaam sjá.

21. Asnan hneigir útaf vegi, er Engil sjer, Balaam brigdist hardt og stygdist, hún var þver, himnabúinn fridur fer, fram á leid þar girdíng ein er.

22. Sinn var gardur hár og hardur á hverja hlid; Engill merkur stór og sterkur stód í mid, fóturinn kreistist vegginn vid, vard ad gánga þanninn á snid.

23. Enn fór lengra á einstig þreyngra Engill skjær, asnan veginn engvanneginn arkad fær, Balaam hana bistur slær, á bædi knén því fellur hún nær.

24. Ösnu munni einn er kunni upplauk þá: himins og láda hærstur dáda Herrann sá, fékk hún mál og fljótt nam tjá, fyrir hvad gjørdir þú mig ad slá?

25. Balaam rjódur reidi módur rétt svo tér, ertú sleginn af því veginn ecki

fer, hefdi eg spjót í hendi mér, hefna skyldi dauðinn á þér.

26. Eg þín asna lima lasna lúin og þreytt, frá barndóm þínum bar þig á mínu baki greidt, hvenær gjørdi eg eins þér eitt? aldrei fyrri, sagdi hann, neitt.

27. Um þá stundu opnast mundu hans augun þá, af Drottins rádi, rétt svo tjádi Ritníng frá, blessadann Engil Balaam sá, med brugdnusverdi veginum hjá.

28. Mjeg sig hneigdi mjúkt og beygdi maðurinn brátt; Engill traustur, tryggur, hraustur taladi hátt: hvar fyrir slóstu þrisvar þrátt, þína ósnu af reiðinnar mátt?

29. Ef hún eigi viki úr vegi, ad vísu hér, henni hægt eg hefdi vægt, en hefnt á þér, vegur þinn ei þóknast mér. Þar á móti Balaam tér:

30. Eg ei þeckti og þad mig bleckti, ad þú varst nær, vík eg frá, ef væri sá þinn vilji kjær; aptur svarar Engill skjær: ordlof þú til reisunnar fær.

31. Varast skaltú umfram allt, qvad Engill greidt, ad mæla par fyri Pengil þar, þó þess sé beidt, taladú ecki annad neitt, utan hvad eg skicka þér eitt.

32. Balaam frá eg ferðast þá og finn-ur fljótt, Móabs gram, sá gleðjast nam í geðinu hljóðt, bað hann vildi búast skjótt, og bölvun leggja á Ísraels drótt.

33. Á fjalls hæðum ei sjærstæðum elt-urin há, bygðu sjö og fyrna fé þar fórna á, til var reynt um tíma þrjá, takast ekki bölvanin má.

34. Við offrið hvert géck Balaam burt frá brögnum snar, með sama hætti hon-um mætti Herrann þar, mátti hann ei mæla par, móti því, sem tilskickað var.

35. Balaak reiddist beint og beiddist brádt í stað, hverki þessa hata né blessa Hilmir qvað, spámann komst svo orði að: ecki leyfir Drottinn mér það.

36. Spádóm blíðann furðu fríðann féck hann tjáð, það er rétt með rekum sett í Ritníng skráð, Kóngi lagði hann kjænsku ráð, kom því seinna refsíngin bráð.

37. Ferðast heim af fundi heim, sem frá er téð: Ísrael harðt á heiðna snart þá herja réð, eyddu fólki en eignast féð, einn-inn féll þar Balaam með.

## Historia af Jónasi Spámanni.

### Fyrri Psálmurinn.

Tón: Nú bid eg, Gud! þú nádir mig.

Til Jónas Spámanns taladi Gud: tak þig strax upp, sem eg þér baud, brádlega ferd þín byrjud sé, í borg þá stóru Niníve, þú skalt færa þeim fregnir þær, fordjørfun strax sé búin nær, hróp þeirra synda heyri eg brátt, hefnd og refsíng þeim kémur brátt.

2. Þar eptir Jónas þenkti víst, þángad vildi hann ferdast síst, Drottni hugdist ad flýa frá, fordast svo mætti skickun þá, leigdi sér far og gjald til gaf, géck strax á skip og lagdi í haf, ætladi svo í annad land, um Herrans bod ei sinnti grand.

3. Sem þeir nú landi sigldu frá, sjórinn tók mjøg ad ýfast þá, ofur stormvindur í einum svip, yfirdreif bædi menn og skip, farminum hradt þeir hrundu út, hverr bad sinn Gud med trega og sút, Jónas í lyptíng lá og svaf, lítid sig allt um þetta gaf.

4. Skipherrann um þad undrast vann, ofann géck þá og vakti hann, sagdi: hvar fyrir sefur þú? sár lífs-naud ad oss geingur nú, rís upp þegar og þinn Gud bid,

ef það máské hann veiti lið, úrræða lausir allir vér, í þessum stormi tepumst hér.

5. Af hjarta báðu og hétu þeir, hætt-ur storm-vindur óx því meir, ásamt þeim kom, það einhvers vold, yfir þá leiddi hefndar-gjeld, hlutfalli varpa hratt í stað, hjá Jónas sídast lendti það, óttast mjøg þegar svoddan sjá, svo við hann all-ir ræddu þá.

6. Seig oss hvað helzt þú hefir gjert, frá hverri þjóð þú kominn ert, eða hver til þess eru rök, oss hendir slíkt fyrir þína sök? Eg er, qvað hann, ebreskur mann, og svo trúi á Drottinn þann, hverr himin skapti, heim og sjó, hvers befalníng' eg gløymdi þó.

7. Sem hann hið sanna hermdi frá, hræddir úr máta spurðu þá: gjørðu nú sjálfur gjørla' á skil, gjøra hvað egum við þig til? Varpið mér, sagð' hann, sjóinn í, svo verðið þér úr háska frí, eg veit að minna vegna hér, vindurinn þessi kominn er.

8 Mótróður þúngann þreyttu þeir, þá vóx stormurinn lángtum meir; grátandi báðu af geislum móð: Guð reikni oss ei þess manns blóð! Svo var Jónas' í sjó-inn sekt, samstundis veðrið mæddist snøggt.

Mennirnir óttast mjeg vid þad, miskunar sérhverr Drottinn bad.

9. Drottinn séndi einn hvalfisk hradt, hann kom þángad, sem Jónas datt, uppsvelgdi manninn í sinn qvid, ei stód þar sídan lengi vid; hann bad og grét med beiskri þrá, bænheyrdi Gud andvarpun þá. Þrjá daga luktur lá hann þar, líka svo nætur eins margar.

10. Fyrir Guds ord og almátt hans, aptur fiskurinn rann til lands, óskeddudum med ellu þó, uppá þurrt landid Jóna spjó. Mikil er, Drottinn! miskun þín, minnstú hér einninn líka mín, svo eg frelsadur sýngi þér, sanna lofgjörd, sem skyldugt er!

## Sídari Psálmurinn.

Tón: Náttúran øll og edli manns.

Annad sinn Drottinn eptir þad, aptur vid Jónas sagdi: í Niníve þann stóra stad, strax skaltu fara' ad bragdi, ordséndíng ber, sem birti eg þér, borgar mønnum þar inni: hann ferdast þá, sem fljótast má, festi þad bod í minni.

2. Þriggja dagferda Stadurinn stór, stendur ad Niníve væri, eina dagleid svo

útaf fór, alvarlega sem bæri, kallandi hradt, eg segi þad satt, svo vill Drottinn tilhaga, borg ydar há, umturnast á, innan fjørutíu daga.

3. Brádlega trúdu borgar-menn, bodskap Drottins þá fengu, úngir og gamlir allir senn, íklæddir seckjum gengu, Kóngurinn þá, er svoddan sá, sinn búníng af sér lagdi, í øsku sat og grátid gat, gaf skickun slíka og sagdi:

4. Ei skulu menn og mállaus dýr, matar né fædis neyta, hverr, sem hér innan borgar býr, bidji med ydrun heita, afleggid brátt, á allann hátt, íllsku og synd margfalda, máské Drottinn minnist vor enn, svo megum lífi halda.

5. En, sem Gud Drottinn alla sá, yfirbót Niníve manna, miskunar hrærdist Herrann þá, hann elskar trúna sanna, ángra sig lét, þad ádur hét, íllsku þeirra ad hefna, veitti þeim grid, gaf líkn og frid, gædskunnar sinnar vegna.

6. Jónas féck sjed sú fordjørfun, sem fyrirspád hann hafdi, yfir þá koma ecki mun, ógæsan lengi tafdi, honum þad mest, misþócknadist, mælti med hriggu bragdi,

eg vissi það og þar kom að, sem þánk-inn mér áður sagði.

7. Þitt sinni Drottinn þekki eg bert, því vildi' eg undan flýa, mounnum jafnan mildur ert, sem mót þér syndir drýgja, yð-rist þeir nú, þeim þyrmir þú, þó látir hefnd tilsegja, spádóms orð það, fyrst fann ei stað, fýsir mig helzt að deya.

8. Andsvar af Drottni aptur fékk: að sinnar reiði gætti. Strax síðan burt úr Staðnum gékk, sturlaður með þeim hætti; hreisis-korn þar, því hitinn var, yfir hefði sér hann bygði, og vildi sá með sanni' að sjá, hvað sinn spádómur dygði.

9. Drottinn lét vaxa ljósann lund, lángt sínar greinir breiddi, sá rann þar upp í samri stund, sæt blómstur þó framleiddi, við þetta gras gladdist Jónas, gédfróa sér það taldi, þá sólin hrein sárheitt að skein, sig í þess skugga faldi.

10. Guð Drottinn lét þá lundinn þann, lítinn orm stínga kunna, uppvisnaði með öllu hann, ofan féll strax til grunna, aust-anvind greidt, sólskin sárheitt, senda réð Herrann mildi; Jónas þreyttest og þjáðist mest, þá sagðist deya vildi.

11. Þykist þú, Jónas! reidast rétt? rædi Gud, med þeim hætti, þennann lund hafdir þú ei sett, þín hend hann eckert bætti, á einni nótt, hann upprann skjótt, adra þó strax vísnadi, mjög þanninn hér úr máta þér, mislíkar svoddann skadi.

12. Skylda eg ecki ollu meir, afvenda reidi minni? tólfsinnum tíu þúsund þeir, þar eru í Stadnum inni, sem engin skil, skynjudu til ad skipta um vinstri' og hægri; nú sjádú hér! nærsta er mér, nádin enn reidin þægri.

---

## Nockrar Saungvísur
af þeim sérleguslu
# Krists Kraptaverkum.

---

*I.)* Um Brúdkaupid í Kana. Jóh. 2.

Lagid er, sem vid Ekkju=ró.

Í Galíleu ládi, ljóst í Kana Stad, med gégnd og gódu rádi gjördist brúdkaup þad, Módir Drottins dvaldist þar, Jesús og svo sveinar hans, sjálfur bodinn var.

2. Þá nam dryckur þverra, þetta María sjer, hún géck til vors Herra, hógvær

þannig tér: Son minn kjær! þar vantar vín. Hvad hef eg med þig? Kristur qvad, komin er stund ei mín.

3. Vid þénara þýdust sagdi: þad, sem býdur hann, gjørid brádt ad bragdi. Birt' eg adburd þann: steinkér sex þar stódu rétt, tóku mælira tvo edur þrjá, til hreinsunar sett.

4. Belid trúi' eg batni, býdur Jesús enn: farid og fljótt af vatni, fyllid kérin senn! barmafull þeir bera þau inn, kjæmeistaranum færa fyrst, Frelsarinn baud um sinn.

5. Vatn ad víni ordid, víst hann smackar þá, géck svo beint fyri bordid, brúdgumann kallar á, hann vissi ecki hvadan þad var; edruvísi' enn er nú skéd, oss tilhaga bar.

6. Vant er vínid besta, ad veita allra fyrst, þar til gédid gésta, gledst med heidur og lyst, léttara sídan bjóda ber; en þú hefir þad hid góda geymt, og géfid seinast hér.

7. Jesú jardteikn fyrsta, Jóhannes segir þad, hjóna hjartad tvista, hann í þessum Stad, gladdi'og sýndi sína dýrd. Honum sé bædi heidur og þøck, af huga' og munni skírd!

*II.)* Um Konúngsmanninn af Kapernaum.

Jóh. 4.

Tón: Gædsku Guds vér prísum.

Kóngs mann frá Kapernaum, kom einn til Jesú þar, þá fyrir dögum fáum, Frelsarinn genginn var, beint inn í Kana borg, og sagdi: son sinn væri, sjúkur og dauda nærri, því bar hann þúnga sorg.

2. Traudlega trúad fáid, taladi Jesús þá, nema þér nockud sjáid, nístárleg jardteikn há. Aptur þá ansar hinn: háskinn er harla brádur, Herra! kom þú nú ádur, enn sálast sonur minn.

3. Hug-gædi Herrann mæddi, hans naudsyn gjerla sjer, vid födurinn frá eg svo rœddi: far þú! son þinn lifer; madurinn merkti þad; trúdi því eina ordi, á þad sig reida þordi, gék svo gladur af stad.

4. Hans þjónar honum mættu, heimleidis vegi á, húsbóndans hjartad kjættu, hug-gladir mæltu þá: sonur þinn lifir ljóst! Hann spyr: nær sorgin sjatnad, og sóttin hefdi batnad? þeir ansa med engann þjóst:

5. Senn um sjöunda tíma, svo bar þad til í gjær, koldunnar sárum svíma, sviptist hann ellum nær. Þá fornam fadirinn,

í sama mund svoddan skédi, sem Jesús honum tédi: sjá! lifir sonur þinn!

6. Hér vid hann vard mjeg gladur, og vel í trúnni hress, hverr hans heimilis madur, honum fylgdi til þess, krapt Herrans kénndu bert. Þad Jesú jardteikn annad, Jóhannes hefir sannad, í Galíleu gérdt.

*III.*) Um þann, sem þrjátíu og átta ár lá sjúkur. Jóh. 5.

Med lag, sem Pislar Minning.

Heileg var þá haldin ein, hátíd Gydíngauna, Sonur Guds sem grædir mein, gánga réd sjálfur med, til Jerúsalem, svo er skéd, ad sid Ísraels manna.

2. Í borginni var brunnur sá, Bethesda ad heiti, fordyr vóru fimm þar á, fékst þeim skjót heilsubót, sem mæddu allskyns meinin ljót, og margir trúi' eg þess neyti.

3. Engill Drottins eina tíd, upp réd vatnid hræra, svo hverr helzt af sjúkum lýd, sem adbar fyrstann þar, ef sig þvodi, alheill var, eins og barnid skjæra.

4. Í fordyrunum, sem frá er greint, fjöldi sjúkra lýda, var og beid svo vissi beint, nær vatnid skjært yrdi hrært, því lækna vildi kífid sært, af laungum séttar qvída.

5 Medal þeirra sjúkdóms-sár, sagt er madur væri, þrjátíu og átta ár, aumur naud þúnga leid, eptir lækníng blídri beid, belid trú' eg hann særi.

6. Þegar Jesús þenna sá, þar ad gleggt nam hyggja, ad lengi h.:fdi þúnga þrá þol ad hann, mæla vann Herraun vid þann veika mann: viltú lækníng' þyggja?

7. Svara nam hinn sjúki brádt, sárum haldinn qvída: einn verd eg því eptir þrátt, enginn hér bjargar mér, annar jafnan fyrri fer, frekt hlýt eg ad bída.

8 Herrann þegar heyrdi þad, um hann í brjósti kénndi, gacktu hédann heill í stad! hinn þess naut, mínkar þraut, þína sæng þú ber á braut; í burtu madurinn vendi.

9. Sem nú Júdar sáu þad, hann sæng á herdar lagdi, honum gáfu þeir hestugt svar: hátíd sú, ein er nú, bodordin því brýtur þú? beint hann aptur sagdi:

10. Sá, sem hefir mig heilann gjørt, hédan baud eg færi, sjálfur vid mig sagdi bert: Sjádú hér! tak med þér þína sæng, því frjáls þú fer; þeir fréttu: hverr hann væri?

11. Madurinn qvadst ei þeckja þann, né þeim þar framar gégna; því Herr-

ann burtu víkja vann, þá var hans bætt, meinid hætt, féck hann þess ei framar gjætt, fólks mergdarinnar vegna.

12. Í Musterinu madurinn sá, mætti vorum Herra: sóttlaus ertú, sagdi hann þá, syndga ei nú framar þú, ad þig hendi' ei ánaud sú, né annad hálfu verra.

*IV.)* Um storminn og þann óda mann.

Mark. 6.

Tón: Gædsku Guds vér prísum.

Ljúfur med Lærisveinum, Lausnarinn sté á skip, hvirfilvind óvart einum, yfirsló þegar í svip, ókyrrdist haudur og haf, undir áfellum láu, enga mannhjálp því sáu, en Herrann sjálfur svaf.

2. Í þeim lífs-háska hræddir, hann fóru' ad vekja brátt, af mód og ecka mæddir, mæltu svo allir hátt: hjálpa ofs Herra kjær, lát þig ei lítt um varda, ad lægja storminn harda, svo ecki sockvum vær!

3. Hann vaknar víst og rædir, vid þá alla senn: hvad er þad ydur hrædir, helzt of veik-trúa menn? og settist upp vid þad: þá baud, ad vindurinn þegdi, þjótandi vatn sig legdi; blæ-logn vard strax í stad.

4 Undrast allir vid þetta, er adburd líta þann, hverr annann hér um frétta: hvílíkur er þessi mann? strax þá hann talar til, hefud Képnanna honum, hlýda, svo framar vonum, hans einu ordi í vil.

5. Lendíng í logni fengu, vid landid Gadará, skjótt er frá skipinu gengu, skédi tilburdur sá, adkom þar ódur mann, af íllum endum hrakinn, ólmur, vitstola, nakinn, greinir svo gleggt um hann.

6. Ur járni og bendum bædi, brotist opt hafdi sá, med grimd og ógna ædi, svo enginn ferdast má, um þann almenníngs stig, dvalist á dockvum heidum, í daudra mann leidum, lemjandi sjálfann sig.

7. Fram fyrir Jesú fætur, falla gjördi brádt; andinn mjög ílla lætur, æpandi kallar hátt: hvad hefi' eg þó med þig, sanni Guds Sonurinn kjæri, svo, fyrr'enn tíminn væri, kjæmir ad qvelja mig?

8. Þá sagdi Grædarinn gódi: grein mér þitt heiti þó. Andinn mælti af módi: mitt nafn er: Legíó. Þad hafa hyggnir menn, sex þúsund samantiknad, sex hundrud þar med reiknad, sextíu' og sex til enn.

9. Djöflar af deprum trega, dæmdir í heljar víst, báðu mjög mikillega, mildast-ann Jesúm Krist: fyrst þaðan færi út, að hann ræki þá ecki, í undirdjúpanna hlecki, með kaldri qvöl og sút.

10 Frelsarans leyfi fengu, að fara í svínin þár, sem um þær grundir gengu, girnd sú djöflanna var; þau vóru tvö þús-und; ell strax með ógn og qvíða, út í vatn-ið hýða, og suckú á samri stund.

11. Svín-hirðar fullir skaggar, settu á flótta heim, báru þá fregn til borgar, um bagann, sem varð fyri þeim; hinir, sem hlýddu á, undrast og ótta fengu, almennt úr Staðnum gengu, svoddan tilburð að sjá.

12. Hann, sem var áður óður, og enga Kynsemð bar, sat nú siðferðis góður, sann-heill hjá Jesú þar; landsmenn þá litu hann, hinir, sem hjá vóru staddir, í huga' og sinni gladdir, sögðu þeim allann sann.

13. Herrann blind-heimskir báðu: burt að víkja um sinn; sálar gagnsins ei gáðu, þeim grandist fjárskaðinn; svo villtir vóru þeir, hjálpar-von sæla hrepptu, henni vil-jandi slepptu, en mettu svínin meir.

14. Hann, hverr ed læknast hafdi, hér, sem var ádur téd, Lausnarann leyfis krafdi, ad líka færi med; en Jesús sló því af; fyr heldur heim til þinna, hjálprædid skalt þeim kynna, sem Gud þér sjálfur gaf.

V.) Um kraptaverk Krists á braudum milli 5000 manns. Jóh. 6.

Med lag: Einn Herra eg bezt ætti.

Yfir um vatnid eina, sem er í Galíleá, Jesús med sína sveina, sjálfur ferdadist þá, Tiberías nockud nærri (nafn þetta Stadurinn bar), Páskum víst var ei fjærri, ad venju Gydínga þar.

2. Fylgdi þeim múgur manna, mikill á þeirri tíd, gódvild hans sáu sanna, vid sjúkaun og aumann lýd; uppá fjalls-hædir einar, Endurlausnarinn géck, líka hans Lærisveinar, litla stund hvíld þar féck.

3. Upp leit hann ljést ad bragdi, lýds fjelda mikinn sjer, vid Philippum frá eg sagdi: fólkid matlystugt er; til kaups hvar máttu meina, menn fái braudum náð? svo vildi sveininn reyna, þó sjálfur vissi nóg ráð.

4. Þá Philippus tók ad telja, tvehundrud peninga verd, fram þó menn fengi ad

selja, fullnægja mun ei gérd. Andreas á þad heyrir, einn bródir Símonar, vildi ráð veita fleiri, vidstaddur gaf til svar:

5. Ungmenni eitt eg féundi, Andreas mæla réd, fimm byggbraud hefir í hendi, hér og tvo fiska med, hvad skal þad þó fyri þessa? þá talar Jesús hátt: segid, þeir sái sér sessa, saman í ridlum brádt.

6. Herrann réd braudin blessa, braut og til himins leit, fram báru fædu þessa, fyri svo marga sveit; allir þeir urdu saddir, eins af fiskunum med, og vel í gédinu gladdir, Guds verk svo fengu sjed.

7. Leifunum saman safnid, Sonur Guds þannig tér, og engu af þeim hafnid, svo eckert spillist hér. Er þad ei undur ad heyra, allt þetta svo til bar, afgángs var ellu meira, en efnid í fyrstu var?

8. Tólf karfir fullar fengu (frá eg svo Skriftin tér), og þær leifar afgengu, svo eckert spilltist hér; fimm þúsund fæddi' hin hreina, Forsjónin mildigjern, karlmenn uppstalda eina, fyrir utan konur og born.

9. Um qvøldid lét Lærisveina, landinu halda frá, hann' var eptir alleina, ástarbæn gjordi þá. Mótvidri megnt þá þjádi,

mjeg dymmt af nóttu þó; Jesús þar gleggt að gáði, gékk á þeim djúpa sjó.

10. Nær um fjórðu eikt nætur, nálgaðist Jesús þá; þeir hafa' á þessu gætur, þóktust forinju sjá; upp kalla ótta mæddir, en Jesús ansar kjær: verið allir óhræddir, eg er hér sjálfur nær.

11. Pétur svaraði og sagði: sértú það, Herra minn! bjóð þú eg komi að bragði, beint nú á fundinn þinn. Far þú! qvað Frelsarinn mildi; forlét hinn skipið þá, og gékk, sem greiðast vildi, glaðlega sjónum á.

12. Báran réð brádt að stockva, bilaði Pétur traust, hann tók þá senn að sockva, sagði með hárri raust: hjálpa mér Herr-ann blíði! hann Jesús að sér dró og spyr: því tæpt hann trýði? til skipsins gengu þó.

13. Orð sitt og bús-ráð bæði, blessi oss. Jesús hreinn, svo líss og sálar fæði, sedji þá hvern og einn. Sjá til eg seckvi eigi, í synda dauðann hér, heldur að hjálpast megi, haldtú við trúna mér!

*VI.)* Um Þann, sem blindur var fæddur.
Jóh. 9.

Lagið: Faðir á himna hæð.

Jesús frá Júda lýð, úr Jerúsalem þá tíð, út gékk sá ell mein græðir, um það Jóhannes ræðir.

2. Sat maður sjónlaus þar, sá blindur fæddur var, harðtværri Herrans vegi, á helgum Sabbats degi.

3. Lærisveinar hann sjá, svo spurðu Herrann þá: hvert egin mun ílls ka' hans valda, eða foreldra gjalda?

4. Hverki (qvað Herrann sjallt), hann sín né þeirra galdt; Guðs verk ega augljóst og á honum að prísast.

5. Verk Guðs mér vinna ber, víst meðan dagurinn er, yðju maun enga fremur, yfir þá nóttin kémur.

6. Eg er ljós heimsins hreint, Herrann taladi beint, meðau umgengni mína, hjá mönnum læt eg skína.

7. Herrann þá hrækti á jörð, heilnæm var lækning gjörð, saur hrærdi saman að bragdi, svo við hans augu lagdi.

8. Hann baud þeim blinda þá: í bruuni Silóá, þvo sér skjótlega skyldi, ef skíra sjón edlast vildi.

9. Hann géck og gjördi svo. greidt nam sín augu þvo, heilskygn sem þá heim aptur, Herrans því olli kraptur.

10. Náttúran borin blind, bleckt er af margri synd; minn Jesús mig upplýsi, mér á hjálpar veg vísi!

*VII.)* Um Lazarum af dauda uppvakinn. Jóh. 11.

Lagid: Uppá sjallid Jesús venti.

Jóhannes segir med svoddann hætti: sjúkur madur eitt sinn lá, Lazarus, þad sorgum sætti, sá var í Bethaníá, systur tvær er innt hann ætti, ennur nefuist María.

2. Hún var þad, sem Herrans fætur, hentuglega smyrja réd, hári sínu svannin mætur, sídan aptur þurkar med, ordi lífsins gaf ad gætur, í gudspjallinu svo er tjed.

3. Martha einig eñur heitir, ordi Drottins héldt sér ad, Lausnaranum, sem læknsíng veitir, létu segja þegar í stad, sá þú elskar, sóttin þreytir; svaradi Jesús uppá þad:

4. Ecki' er svoddan sóttin eina, send honum til dauda fyrst, heldur ad Drottins dýrdin hreina, dásamlega auglýstist, ell þau systkyn',eg má greina, elskud vóru þó af Krist.

5. Dagana tvo þar tefja rédi, tilsett var þad Herrans ráð, ad vilja Guds sú skickan skédi, hann skamtar tíma' af sinni náð; fylgdar-monnum Frelsarinn tédi: ferum nú á Gydínga láð.

6. Postular svara med gégndar gyldi, gjerla senn á þessa lund: Gydínga fólk þig grýta vildi, þá géckstu þar um eina stund; hvar fórir girnist Meistarinn mildi, meir ad koma' á þeirra fund?

7. Tímar eru tólf i degi, taladi spekin guddómlig birtu njóta madur megi, mun sá gánga réttann stig, hinn, sem ljósid hefir eigi, hrasar opt og meidir sig.

8 Lazarus vor vinur sefur, vekja fer eg aptur hann, þeir segja: batnad honum hefir, hvíld og værd ef finna kann, þenna skilníng þánkinn géfur, þeim um svefn náttúrlegann.

9. Lausnarinn þeim ljóst nam gégna: Lazarus daudur er til sanns, en eg fagna ydar vegna, ad ei var eg þar í bygdum lands, vær skulum þetta framar fregna, ferum nú og vitjum hans.

10. Thómas Postuli tók ad segja, Tvíburi sá nefndur var, Lærisveina hug vill hnegja, hann gaf fyrir alla svar: látum

oss fara' og líka deya, ljóst med honum einnig þar.

11. Kom laf guddóms krapti hegum, Kristur til Bethaníá, Lazarus fyrir fjórum dogum, framlidinn í grefinni lá, úr borg og nánum bygdar-logum, bar ad marga Sydínga þá.

12. Þessir gættu gódrar skyldu, gengu í sorgar-húsid inn, géd-svelunar máli mildu, mæltu (svo eg ritad finn), hrelldar systur hugga vildu, harmandi eptir bródur sinn.

13. Martha heyrdi, Meistarinn kjæri, mildur kjæmi um þetta skeid og í nánd ad vísu væri, vildi gánga heim á leid, móti honum frá' eg hún færi, fyrst, en María eptir beid.

14. Angrud Jesú andsvar greidir: ef þú hefdir verid hér, bródir minn (því naudin neydir), nú lifdi, sá daudur er, en eg veit hvad um þú beidir, allt mun Drottinn géfa þér.

15. Aptur Jesús ansa nádi, upp skal rísa bródir þinn, vissulega, vísid tjádi, veit eg af því, Herra minn! hann mun verda lífs á ládi, þá ljómar efsti dagurinn.

16. Upprisan og einnig lífid, er eg, sagdi Jesús þá; efalausir um þad blífid, allir, sem mig trúid á, þó sumdid hafid heljar kífid, hverr mér treystir, lifir sá.

17. Sá hér lifir enn med Anda, og á mig treystir heimi í, hættulegt má hel ei granda, hann skal verda dauda frí, svipt-ur ellum sálar vanda, segdu mér, ef trú-ir því?

18. Trúi eg þú sért, qvad svanninn grætti, Sonur Guds med helgum sid, og Kristur sá, sem koma ætti, ad qvitta af syndum mannkynid. Samtal þeirra ad sinni hætti, svo skildist hún Herrann vid.

19. Martha heindir herdum módi, heimleidis med skyndi fer, vid Maríu gjørdi mæla' í hljódi: Meistarinn er kominn hér, bídur þín sá Grædarinn gódi, og gjørir bodskap eptir þér.

20. Uppstód María' og med skyndi, út géck frá þeim múga manns, svo hún dýrst-ann Drottinn finndi, dundi vatnid hvarma-ranns. Þá var Jesús þýdur í lyndi, þar, sem Martha kom til hans.

21. Fólkid sjer, ad fljét úr máta, frá þeim víkur géfni líns, allra þeirra ein var gáta, sem efnid greinir hródrar míns:

eflaust út hún gékk að] gráta, hjá grefinni hans bróður síns.

22. Til Herrans kom með hrigðar t. lið, hjartað mæddi sorgin stinn, ángur í bijósti fann hún falið, féll á knè og ræddi' um sinn: hefðir þú hjá oss, Drottinn dvalið, dauður væri' ei bróðir minn.

23. Þegar hann sá að sorgar-pláta, sárt um hennar brjóstið lá, fólkið allt í annann máta, ángrað leit þar standa hjá, Sonur Guðs tók sjálfur að gráta, í sínum anda gramdist þá.

24. Sín á milli margur ræddi: má nú sjá hans elsku-géð, sá, sem blindann gjörla græddi, gat hann ecki við því sjeð, að dauðinn svo yfir einn mann æddi? almúginn þar mæla réð.

25. Lazarus hvar lagður væri, Lausnarinn svo spurði að; en þeir svara svo, sem bærl: sjá-þú, Herra! þenna stað. Miskun trúi' eg hjartað hræri, hrigðist Jesús enn við það.

26. Til grafarinnar Herrann hreini, hér nærst sjálfur gánga vann; hún var byrgð með stórum steini, strax bauð þeim af taka þann; svo þeir gjörðu, sem eg greini; sagði Martha þá við hann.

27. Líkid finn eg fúlna' um sídir, fjóra daga hér þad lá. Ordum þessum Herrann hlýdir, henni aptur géngdi þá: sagdi' eg ecki, ef þú trýdir, ad þú mundir Guds dýrd sjá?

28 Til himins leit þá Lausnarinn mildi, lesud sé, Fadir! gædskan sú, hvers eg af þér óska vildi, um þad mig bænheyrir þú, eg tala svo fólkid trúa skyldi, til þeirra mig sendir nú.

29. Lausnarinn kallar ljósum hljómi; Lazare! þú kom hér út. Hinn daudi hlýddi Drottins rómi, deyrum reyrdur líkbandshnút; leysid h. nn qvad Herrann frómi, svo hédan gángi frertur sút.

30. Júdar margir trúa tóku, táknid slíkt er sáu þeir, ljúfum Jesú lotníng jóku, lofstýr þessi aldrei deyr, Phariſæarnir svika klóku, sig forherdtu æ því meir.

31. Því eg treysti og þad er mín trúa, þú ert, Jesú! lífid mitt, þá hédan burt frá heim skal snúa, held eg mér vid ordid þitt; sálunni vyrdstu sælu' ad búa, svo hún verdi af naudum qvitt.

## Stutt innihald

## Pínu og Dauda

## Drottins vors Jesú Krists.

Lagid: Hvar mundi vera hjartad mitt.

Mér er af hjarta minnisstædt, miskunar-verkid þad, Jesús var staddur í hrigdum hætt, harmandi þrísvar bad, Gydínga lid þó gengi' ad hrædt, greip hann og batt í stad, sálin hans var af sorgum grætt, sár pínan géck þar ad.

2. Hann hefir dregid, hrakt og hrjád, hardsvírud Júda drótt, med lygum, spotti, hróp' og hád, hrækjaudi á hann skjótt, var honum hverki værd né nád, veitt um þá dymmu nótt: allt hann fordæmdi andlegt Rád, ei géck sú rædan hljódt.

3. Heidnum Dómara' í hendur féck Herrann, sú grimma þjód, almúginn fram þar allur géck, ærti med samfelldt hljód: sær hann á kross og qvala-beck, komi' yfir oss hans blód, mordíngja líf-gjef meir var þeck, mjøg hætt þá qvølin stód.

4. O! hvad grátlegt, aumkunar-verdt, eitt var, sem þar til bar; vid hardann

stólpann strengdur þvert, stód vor Lausnarinn þar, hærsta Guds Sonar holdid bert, húdstrýkt med svipum var, ædar, skinn, herund og svo skérdt, óskaddad faŭst ei par.

5. Þyrni-kórónan svida-sár, sundur hans ennid sleit, blódid uppfyllti augun klár og allaun sjónar-reit; Frelsarinn bædi folur og blár, forsmán hverjum hann leit, last-ord, slög, spélni, spott og dár, sparadi' ei þræla-sveit.

6. Tré simtán fóta lángt var ljóst, lagt á hans herdar hradt, breidt fjegra álna þúngt med þjóst, þad herma bækur satt, uppgéfin var med ærmædt brjóst, undir því þrísvar datt, um sídir fram þá ferdin dróst, á fjallid Golgatha bratt.

7. Særdur í kulda kladlaus þó, Kristur sat lánga tíd, á medan ell til bedullinu bjó, bana-verkfærin stríd, or þyrstum munni einn ad dró, edik gall-blandad níd, oddbrotna nagla öldin sló, í hend og fót um síd.

8. Krossfestann hæddu höfdíngjar, og hverr, sem þar géck hjá, harmqvæli þúng og hádúng bar, Herrann um tíma þrjá, sídan burtslitin sálin var, syndlausu holdi frá, hjartad sárbeittur broddur skar, blód og vatn rann út þá.

9. Lastord og bríxl framlidinn fékk, falsara sagdn hann, flockur Prestanna fyrir því gékk, fundu Landsdómarann, bádu ad geymd sé grefin þeck, gánga svo ella kann, Lærisveinarnir fylltir fleck, flytji burt líkamann.

10. Hermenn vopnada hann lét sir:r, halda mjeg sterkann verd, þar vakti inn til þridja dags, bjódin sú íllsku herd. Drottinn reis upp til dýrdar hags, frá daudum þegar úr jerd og sannrar Guds dýrdar samfélags. Sé honum þackargjerd!

11. Gleym ecki þessu sál mín sæl! svoddan vel merkja skalt, Sonurinn fyrir sekann þræl, saklaus leid þetta allt, slíkri hans elsku hrósa' og hæl, af huga' og munni snjallt; sigurverk Kristi sýng og mæl, sætt fagnandi ávalt.

12. Ljúfasti Jesú! lof sé þér, sem leidst þann sára deyd, hvar med þú hefir hjálpad mér, úr hættri qvol og neyd; lát þú mig jafnan lifa, sem ber, lasta bend af mér greid, elsku fadm þinn, þess óska' eg hér, yfir sál' mína breid!

---

Ut af Uppriſu hiſtoriunni.

Lagid: Gædſkurikaſii Grædari n inn!

Hjartad fagnar og hugur minn, Herraun Jéſús er uppriſinn, qvel þó á kroſsi ætti; árla Sunnudags er þad ſkéd, ádur enn ſólin lýſa réd, af Guds dýrdar almætti, þýdur, fridur, Engill kémur krapt. inn fremur, klárt eg greini, af grefinni veltir þeim ſtóra ſteini.

2. Jardſkjálfti mikill ſkédi þar, ſkjæraſta ljóma Engill bar, vardmenn þá ſvoddan ſán, ótta miklum yfir þá ſló, abl og ſtyrkleika frá þeim dró, líka ſem daudir lán, þeg.r, vegar, ljóſid ſkapta, líſſins krapta, lokſins fengu, heim í borgina hriggvir gengu.

3. Hefud-preſtana hittu ſenn, hermdu ell þeſsi tídinden, hinir þeim hétu gáſum. Segid ad Læriſveinarner, ſóktu líkamann burt med ſér, þegar vér þreyttir ſváſum: hradir, gladir, gjaldid þyggja, þar ad hyggja, ſídan ſegdu, líka ſem Júdar þeim rádin legdu.

4. Adur enn dagurinn upprann klár, útgengu af ſtadnum qvinnur þrjár, María Magdalena, Módir Jakobs hins minna

var, með þeim líka Salóme þar, þær hugðust Kristi þéna, hriggvar, dyggvar, Lausnarans vildu, að ljúfri skyldu, likið smyrja, hverr réð aðra þá hljóðt að-spyrja:

5. Hverr mun burt velta hörðum stein? Hindrar sá oss á marga grein; þegar, sem litu þángað, opin stóð gröf, en Engill var, alhvítu klæddur líni þar, hræðsla réð hjartað fánga. Hljóðar, móðar, hriggvar qvinnur, sagði svinnur, syrgið eigi! upprisinn Jesúm eg yður segi.

6. Qvinnurnar glaðar gengu heim, Græðarinn Jesús mætti þeim, segjandi verið sælar! þær féllu síðan fram til sanns, á fætur kystu Lausnarans; hann réð hýrlega' að mæla: eg bið, að þið, mínum blíðum, bræðrum þýðum, brádt það inníð, í Galíleu þér fyrst mig finnið.

7. Magdalena á meðan fer, mjeg fljótt þángað, sem Pétur er, og Jóhannes með honum, sagði: líkamann sælastann, sjá hvergi eg né finna kann, burt-tekinn væri' hann vonum; báðir, þjáðir, undrast þetta, er það frétta og án tafar, út þángað gengu øll til grafar.

8. Fyrstur Jóhannes framkom þar, fornam að gröfin opin var, Pétur þá greidt

inngengur, sáu þar legd, lín-klædin mjúk, líka og Jesú sveita dúk, sorundrun af því fengu, allskjótt og fljótt, aptur snúa og því tiúa ellu' ad sennu, burt muni líkid bor- id af mennum.

9. Æpandi María úti stód, inn í gref- ina horfdi fljód, Englum tveim gaf ad gæt- ur; vard hún nú hrædd og vidleit þá, vaktarann gardsins hugdist sjá; hann spyr strax: hvad hún grætur? hún qvad: helzt þad, minn Herra þýdur, hjartans blídur, hér finnst eigi, efnid sorgar eg þad segi.

10. Hafir þú borid hann burt med þér, bid eg þú, Herra! segir mér, svo eg hann þángad sæki. Madurinnn svarar: María! Meistari! sagdi' hún aptur þá, ei leyfdi á sér taki; ell hrigd og stygd, snýst í gledi, skjótt þad skédi, er Kristum kénndi, heim til Postula hana sendi.

11. Hún kom strax og þeim kunngjerde: Kristur af dauda risinn sé, atburdi alla sagdi; hinar konurnar hermdu med: þær hefdu líka Jesúm sjed, lífs og í ljúfu bragdi. Þetta, rétta, villu héldu, hug sinn hrelldu, Herrans sveinar, sjónhverfíngar þad segdu einar.

12. Til Emaus gengu einir tveir, um Herrans pínu tala þeir, það skédi á þessum degi; en svo til bar, sem segi'eg frá, sjálfur Jesús nálægdist þá, þó að hann þeckti eigi. Hann spyr, hugkorr: hvaða hjalið, hrigdar talið hafið, brædur! Kleóphas ansar með kleckri rædu:

13. Ertú einn svo ókénndur mann, í Jerúsalem, að gjerníng þann, sem er fyri skommu skédur, veitstú ecki? en hann spyr að: honum Kleóphas sagði það: Jesús, sem oss var meðtæ, hærstur, ædstur, af spádóms-orðum og gædsku gjerdum fyri Guði' og mennium, á krossi deyddur, það sjálfir sennum.

14. En nú í morgun árla víst, áður enn féck af degi lýst, qvinnur frá oss útgengu, lifanda sögðust líta hann, líklegt það engum vyrdast kann, felmt af því allir fengu Heimska, gleymska, qvað þá báða, Kóngur dáða, kénndi síðan, Kristur svo hefði hlotið að líða.

15. Alla Ritníng útleggja réð, opnaði þeirra hugskot með, Skriftina glegg svo skilja. Kauptúnið allir nálgast nú, nær því endud var leidin sú, gánga létst lengra vilja, beiddu, neyddu, Krist að bíða, qváðu

líða, á qvöldið næsta, inn með þeim geng-
ur mildin hæsta.

16. Settist til borðs og brauðið þar,
blessaði, sem hans siður var, og síðan að
þeim rétti, báðir í senn hann þeckti þá,
þeirra sjónum hvarf burtu frá, harmi úr
huga létti, hraðir, glaðir, Postulum hin-
um, Herrans vinum, hér frá sögðu, eng-
ann trúnað þeir á það lögðu.

17. Á sömu stund það svo til bar, sjálf-
ur Jesús var kominn þar, og miðt í miðið
stendur, þeim óskar friðar þessu næst, þá
var dyrunum aptur læst, sjá lét á sínar
hendur. En þeir, því meir, urðu fegn-
ir, óttaslegnir og því trúa, grát réði öll-
um í gleði snúa.

18. Ecki var Thómás þá með þeim, en
þegar seinna hann kom heim, þeir sögðu allt
hið sanna; aldrei trú' eg, hann ansa réð,
utan að nagla-ferin sjeð, fái með fingri
kanna, liðu, biðu, átta dagar, dýrð svo
hagar, Drottinn sætur, að luktum dyrum
kom mildur, mætur.

19. Hjá þeim stóð Herrann hýr í mið,
hér næst Thómas svo ræddi við, og vill
hann verði glaður: í nagla-ferin lát fing-
ur þinn, fljótt legg mér hend í síðu inn, vert

ecki vantrúadur. Drottinn, Guð minn! sagdi dyggur, trúartryggur, tvíburinn, fríður, aptur Jesús þá ansar blíður:

20. Sannlega, Thómas! trúdir þú, tilsýnd mín þessu olli nú, og eg enn framar segi: sæll er sá, hverr mig sjer ei hér, samt þó af hjarta treystir mér, huggun svo hljóta megi. Fleiri, meiri, jardteikn hrein fyri sínum sveinum sídar gérdi, ell þó ad greind hér ecki verdi.

21. Við Genezarets vatnið brádt, vóru þeir þá ad fiskidrátt, enn sig opinberadi; Pétur adspurdur þrisvar þar, því játadi, sem vonlegt var, ad hann Jesúm elskadi. Býdur, þýdur, líssins braudi sína saudi, Símoni fæddi; um hans dauda og útfor ræddi.

22. Fjerutíu daga Drottinn réd, dveljast hér Lærisveinum med, eptir upprísu dýra, til himna sídan hédan sté, hjá hønd Fedurs almáttugre, situr vor hjálpin hýra. Amen! Amen! allar tídir lofi lýdir Lausnarann góda, honum skal jafnan heidurinn bjóda.

# Annar Parturinn

innihelldur nockra

## gudrækilegá og andrika Psálma.

## Fyrsti Flockur,

sem hefir i sér

tvo Nýárs Psálma,

Qvølld og Morgun Loffaungva

og

einn Sjóferda Psálm.

### Nýárs-Psálmur,

qvedinn 1652.

Lagid: Laufsarinn Jesús lidinn kunni.

Arid hýra nú hid nýa, nádar gódur sendi landi voru Gud. Prautir láti frá oss flýa, fargi sorgum, endi grand og eydi naud. Alla fylli gledi-gædum, gæd'ska' og miskun Drottins blid, í fastri ást og frit' af hædum, sjodugir stadum, oss hann blessi ár og síd.

2. Jesú prísað nafn eg nefni, nýtt ár þetta komið heim, vígi' er best, styrki verk og stofnuð efni, síðji, græði, auma geymi mildin mest; barn umskorna, dýrum dreyra, dreifi yfir hjertun mætt, synda-grand og sárið fleira, fjær að keira, vyrð-ist dýrðin gæðsku gæða.

3. Nýtt ár þetta gledilegt greiði, Guð á hæðum vorum kjæra kénnidóm', saudi sæði, lýðinn leiði, að lifi' í hófi, gjeri' og læri verkin fróm; hjörðin verði hlýðug ráð-um, hollum ellum þeirra mest: vari slugs að friðum dáðum, frið' og náðum, út svo rætist voudskan verst.

4. Yfir-ljúfa-menn á minnist, mildi-valdur Drottinn máttar Herra hár, siða-prúðir jannleik kynnist, Sonunum þjóni, létti þrátt og bræðin sár; ell í stillíng leg-in lagi, ljúfir, gjæfir, fróma við, lasta síst þó vegi vægi, hnegi hagi, að góðir lýðir finni frið.

5. Raunir hjóna mjúkust mýki, miskun ferska Græðarans lýða fyrr og síð, þolgéð helgað vaki; víki, výlið, belið, neyðin, qvíði, hverfi stríð, bornin einnig blíður náði, og blessun vissa láti fá, Faðirinn

dáda' í fridar rádi, leidi á ládi, med lífi og gæfu stóra' og smá.

6 Ydur gledi-árid hýra, ellum heillum gefi vafid Jesús kjær; menn og qvinnur klára, skíra, Kristi áft þér ljúfa' hafid fyrr og nær, undir hendi hvílid sælir, heillafullri Drottins hér; engann ánguis-kuld kjælir, tál né tælir, þann af honum hulinn er.

7. Oss nú blessi Grædarinn gódur, og gáfur ljúfar sínar hreinar einnig med, lárid, ledur, gjadi gródur, glatt sé lept, ei p'ni neinar plágur féd, neytum ætíd lítillátir, lofid gétum Drottins nád, í Gudi blítum kjætumst kátir, mætast mát er, holl þau allir reyni rád.

8. Kasti versiu kostum lasta, Kristur bestur, hærstur, mestur, fólki frá: víst svo traustid festum fasta, fyrst og sídst þeim glæsta gésti ætíd á, ást þýdasta brjóst ei bresti, bistur þjóstur horfinn sé, gestum lasta-gusti fresti, losta lestir, flestir nærsta falli' í hlé.

9. Unni sannur oss og blessi, ellum heillum fylli sæll Emanúel. J qvída, neyd og krossi hressi, þá qvilla-fullum, vill ó-dæll hér vinna vél; svinnir menn og mynd-

ug qvendi, máttugann Drottinn lofid tídt, honum einum oss afhendi, Amen! sendi, Ydur Jesús árid blídt!

Annar Nýárs-Sálmur.

Lagid: Peck sé þér göd gjörd.

Arid nýtt nú á, í nafni Jesú sæta, byrjast blídt; þú þá, þess vel skyldir gæta, segjast vídt sú má, sælu fregnin mæta, sem bøl kann bæta.

2. Gud og mann módir, mey í heiminn fæddi, vorn blídann bródir, sem bisi øll meinin græddi, heimsins hann þjódir, helgri blessun gæddi, þó ádur eymd mæddi.

3 Fólki frid hreinann, féck af dýrdar mætti, og Gud vid einann, allt mannkynid sætti, sælu sid beinann, syndi og hjartad kjætti, brot synda bætti.

4. Jesús hann heitir, hjálp og frelsen lýda, sælu sann-veitir, og sviptir ellum qvída, um logmáls bann breytir, blessun gésur frída, med miskun blída.

5. Nafn þad sætt sanna, frelsi og gledi færir, hermum hættanna, haglega forfærir, alla ætt manna, endurlífgar, nærir, sorg þá ei særir.

6. Arid nýtt nafn þitt, nádar Herrann gódi! gési' oss blidt, gagn sitt, í gledum feidi bjódi, náqvæmt, þýdt, vid naud qvitt, svo notkist manni' og fljódi, lán og lífs gródi.

7. Himin, lád, haf, flód, hverja skëpnu' og eina, foldar sád, fjársjód og frjófgun landsins hreina, blessi nád Guds gód og grædíng veiti beina, án móds og meina.

8. Kirkjustëtt kjæra, Kénnimenn í landi, lát oss rétt læra, lisnad sinn hverr vandi, svo uppsett skjæra, saunleiks skin ljómandi, stillt jafnan standi.

9. Skickun lands-laga, lýds og stjórnar-ráda, yfirmanns aga, til ædstu heilla báda, vyrdist hans haga, hendin líknar-bráda, er einn allt má náda.

10. Hjónin, hjú, bern blíd, bæi' og lýd um grundir, hend Jesú fræg, fríd, fridi' á allar lundir; vor sé trú vernd þýd, vængjum Drottins undir, lífs lángar stundir.

11. Í háska' og hrigd qvöldum, Herrann Jesús vægi, í ótta' og blygd eldum, ástin Drottins hægi, í strídi' og stygd dveldum, styrk veiti svo nægi, og allt vel lagi.

12. Við hreckja hád-syndum, hlíf oss, Jesú blíði! frá huga bráð-blindum, brætra heipt og níði, glæpa grá-lyndum, gudleys-ingja lýði, róg, ráni, stríði.

13. Himins hnoss snjalla, helgast meyar fæði! oss geymi alla, frá óvina vélræði! kunni' á kross falla, svo krenkja hjartað næti, Guðs náð það græði!

Morgun-Psálmur.

Lagið: Einn Guð Skapari allra sá.

A morgna þegar árla uppstá, eins á qveldin þá hvílast á, géf eg mitt líf og líka önd, ljúfi Jesú! í þína hönd.

2. Sálin hvílist og huggast mín, Herra Jesú! í benjum þín; bið eg: saklausa blóðið þitt, blessi og helgi lífið mitt.

3. Kristi! sem þoldir qvöl og pín, kerptir mér frið með blóði þín, í vöku' og svefni vert mér hjá, vernda mig öllum háska frá.

4. Guðs Engla skari skýli mér, svo skaði mig ecki djöflarner, í mínum krossi' og meðlæte, minn Drottinn Jesús hjá mér sé.

5. Hvert heldur lifi hér eða dey, hjartað mitt við því qvíðir ei, glaður því mína géf eg önd, Guð sannleikssins! í þína hönd.

## Qvøld=Psálmur.

Lagið: Nú hefst nóttin og hylur dag.

Líkfsami Guð og Herra hár, hvers vald og makt um eilífð stár, vér biðjum í Jesú nafni nú, náðar heyrn þinni til vor snú.

2. Ljésið dagsins enn dregst oss frá, dymmu náttmirkri yfir brá, líkaminn hvíldar leita fer, léttir þjáningar svefninn er.

3. Þackargjørð blíða børn þín nú, bjóða þér øll með sannri trú, þócknist þér, Faðir! fórn sú víst, fyri vorn Herra Jesúm Krist.

4. Lof sé þér Guð! fyri litinn dag, líknin þín góð vorn aumann hag, verndað hefir frá hrigð og neyð, háskasemd lífs og bráðum deyð.

5. Forlát þú oss nú, Faðir kjær! fjølda synda, sem gjørdum vær, leynd og opinber afbrot vor, afpláni nú þín gæðskan stór.

6. Erfiði vort og vinnulag, vér sem nú høfum gjert í dag, eptir sérhvers manns embætte, í þínu nafni blessað sé.

7. Géf oss nú, Drottinn! góða nótt, geym og vernda frá qvol og sótt, frá bráðum dauða' og beiskri pín,, bevari' oss alla náðin þín.

8. Freistíngum djöfuls frá oss snú, forinjur vondar burtrek þú, óværdar drauma ógnir þær, aldrei lát þú oss koma nær.

9. Lát þú oss dagsins ljómann hinn, líta ad morgni, Drottinn minn! svo med fognudi þjónum þér; þess nú af hjarta óskum vér.

10. Gótz, heidur, lífid, ærú og ond, ó Drottinn Gud! í þína hond, befelum vér med traustri trú, til vor nád þína jafnan snú.

11. Guds Fedurs mildi, gadska og nád, Guds Sonar Jesú hjálpar rád, Guds heilags Anda hlífdin traust, hjá oss stadnæmist endalaust.

12. Heilog Guds þrenníng hlífi oss nú, og haldi fast í réttri trú, ad hljótum sídan himna vist, hjálparann fyri Jesúm Krist.

13. Amen! þess allir óskum vér, Amen! vor Drottinn! lof sé þér, Amen! sé þad, sem eg nú bad, Amen! Jesús bænheyri þ. d!

## Annar Morgun-Psálmur.

Lagid: Mikilli farsæld mætir sá.

Lofi þig, Drottinn! himininn hár, og heilog Engla sveit, allar þjódir um allar krár, allstadar lands um reit; því sannleikann þinn og miskun mest, mildi og tignin klár,

yfir oss öllum ler stadfest, eilífa tíd' og ár;
svo er og líka, sála mín! senn og fullkomin
skyldu þín, lof Drottins bædi hátt og hljódt,
á hverri stund' ad tjá; aldrei lát þér þad
gleymast gott, géfins, sem lét þig fá, hann
hefir uppá nýtt í nótt, naudum þér bjarg-
ad frá.

2. Lofadur sértú, lifandi Gud! fyrir lid-
na nætur-stund, og þad veroldin uppljóm-
ud, er nú af dagsins fund; sól nú í heidi
skæru skír, skinid sitt veitir hlýtt, fuglar
loptsins, fiskar og dýr, fagna þeim geisla
blídt; skóg-trén, grösin og liljur lands,
lifna og glediast víst til sanns; þetta til
dýrdar, Drottinn! þér, daglega þjónar
allt; æ hvad skyldara mun þá mér, ad mikla
þitt nafn ávalt, Guds ad líking, sem gjörd-
ur er, og géfid lífid snjallt.

3. Lof, heldur þér og þackargjörd, þren-
íngin edla blíd, viljugur skal eg vanda' á
jörd, varandi lífs um tíd; þú hefir jafnan
hjálp mér veitt, úr háska og daudans pín,
frá mirkrunum til ljóssins leidt; losud sé
gædskan þín! óvina minna abl og slægd,
afmád hefir þín guddóms frægd, enn þótt
þeir byggi efnid vandt, med allri svika þrá,
ad mér þú, Drottinn gættir grandt, grimd

þeirra bægdir frá, rángferkugra, sem rád-um kannt, raska, svo hvergi ná.

4. Sem mig í nótt fyrir líku og lid, létst njéta máttar þíns, eins nú í dag um nád eg bid, í nafni Frelsara míns; hindra þú umsját andskotans, sem elskar lýgi' og mord, svo verdi síst ad vilja hans, verk mín, þánkar né ord. Géfdú mér, Drott-inn! hjartad hreint, hugsa og stunda ljóst og leynt, laga-bod þín, sem létst oss fá, og lífs-ins braut eg skil; í dag og hvern tíd héd-an í frá, halda þau gjarnan vil, því David segir sæla þá, sem þar hafa lysting til.

5. Blessa þú, Gud! mitt qvinnu kér, og kjæru bern á láð', blessadú allt hvad hefi' eg hér, hlotid af þinni nád; blessa vyrdþú minn búskaps hag, byrgdir og matar-faung, blessa útvegi' og vinnu lag, svo verdi ei' hegd-an raung; blessunar æsti brunnurinn, bless-adú mig í sérhvert sinn, sé eg á ferd um sjó eda jørd, sit, geng edur kyrr stend, hønd þín yfir mér haldi verd, háska ellum frá-vend, géf svo med þýdri þackargjørd, þín nád sé vidurkénnd.

6. Í forsjón þína' og fødurhend, fel eg nú, Drottinn! hér, líkama minn med lífi og ønd, lán allt og heilsu-kjør; mitt svo eg akti

starf eg slétt, stjórnadú minni lund, hér með einnig mig haldi rétt, á hrigdar og gledi stund. Kristnihald mitt, kjærleik' og trú, með krapti þínum, ó Jesú! auka jafnan og efla vyrdist, uppá það sál mín fróm, dýrdarleg fái fyri þér birtst, þá ferdú' ad halda dóm; kom, Herra Jesú! kom, sem fyrst, klárt gjør allt synda gróm.

7. Daudans þegar eg nálgast nótt, nádugur vert mér hjá, med bærilegri banasótt, benda vyrdstú mér þá; í fadmi sælum ad sofna þín, sæti Fadir! eg kýs, óttalaus er þá endin mín, og eilíf gledi vís; sídan í lambsins ljóma klár, losi hún þig um eilíf ár, þú, sem ad allt med ordi ber, einn Gud og þrenníng há, samhuga allir sýngjum þér, sigurvers himnum á; valdid þitt, dýrd og æran er, Amen! Hallelújá!

Annar Qvøld=Psálmur.

Lagid: O Gud! sem geymir Israel.

O Jesú! þér sé þeck og lof, fyrir þína ást og nádar-gjøf, vel hefir þú minn veikann hag, verndad og geymt um þennann dag.

2. Slifni engin mig hendti hér, hlífd Drottins míns þad veitti mér, Satan féck

ei' 'ad orka neins, sem end' og lífi var til meins.

3. Jeg vil fyrir þad Jesú kjær, játa þér vegsemd fjær og nær, af hjartans munni, hug' og raust; haldist þín vyrdíng endalaust.

4. Eilífann bid eg almátt þinn, ástkjæri Jesú, Herra minn! fyrirgéf øll mín afbrot ljót, í dag, sem framdi eg þér á mót.

5. Dags-vinnan mín, sem drýgda eg hér, Drottinn minn gódur! þóknist þér, ebli þín blessan allt mitt ráд, auk mér von trú og kjærleiks dád.

6. Geymdu mig, Drottinn Gud! í nótt, frá grimmum voda, qvøl og sótt, svo óvin gjøri mér engin grønd, yfir mér sé þín hjálpar-hønd.

7. Luckuna, heilsu, lán og féd, líf og sálina einninn med, umsjón þinni eg allt þad géf, óhrædour sídan ligg og sef.

8. J Drottins nafni eg hvílist hér, hafdu, ó Jesú! gát á mér, eg fel mig þinni elsku enn, og alla þína kristna menn.

9. Lof sé Fødurnum lesid og tjád, lof sé vors Herra Jesú nád, lof helgum Anda allann tíd, Amen! lof sé þér þrenníng blíd.

## Dagleg Andvarpan.

Lagid: Hvert, sem ad reisir hæga bygd.

Heilla ljúfasti Herra minn! hjartans útvaldra yndi! uppveki mig nú Andinn þinn, endurnæríng svo finndi; eg er manneskjan alsaurug, afplána þad lifandi Gud, géf mér gladværdar lyndi.

2. Afetníng minn og ydjulag, eg þenkti ad lagfæra, þér til dýrdar ad þjóna í dag, þad veitstú nádin skjæra; en hvernin hefi' eg aum mannkind, áreitad þig med margri synd, þad vyrdstu ad lagfæra.

3. Lífdaga minna lýtin øll, lækna þú, Drottinn blídi! og mig hvítfága eins og mjøll, engu svo meini qvídi; æ! mig ángrar af allri rót, ad eg gjørdi þér syndga mót, heilla Fadirinn frídi!

4. Lángar mig nú af lífi og sál', lausn hjá þér, Drottinn! finna; þér er nú, Fadir! meir enn mál, meinanna bót ávinna; sætasti brunnur svølunar, signad herbergi vellystar, lát mig þér lofgjørd inna.

5. Grædi nú øll mín synda sár, signadar Jesú undir, himneska Fødurs høndin klár, hún sé yfir og undir; óqvídin er þá

endin mín, í blíðum náðar faðmi þín, líðl svo líssins stundir.

6. Réttlætis fagur qvistur klár, Kóngur dýrðar sæti, Engla fegurð um eilíf ár, útvaldra sálar kæti, allra trúaðra elska' og von, er Jesús Guðs og Maríu Son; gef þess eg jafnan gæti!

7. Innræt þú, Drottinn! orðið þitt, í mitt hjarta og sinni, það sé lífdaga ljósið mitt, lifnað svo bæta kynni; eptir því lát minn greiðast gáng, í gæðskn þinnar og náðar fáng, þar svo þér þackir inni.

8. Miskunar þinnar mjúku náð, mikla eg æsi mína, mildasti Jesú! meyar sáð, minnstú á barn-kind þína; faðma mig að þér, Faðir minn! fyrir eingétinn Soninn þinn, lát ecki líðsemd dvína.

9. Set eg nú allt mitt traust og trú, til þín, minn Jesú góði! að mig af ástsemd elskir þú, og ádreifir þínu blóði; æ meðan varir æfin mín, útbreiða vil eg lofgjörð þín, bæði hátt og í hljóði.

10. Andvarpan þessa, ætsti Guð! álíttu'í miskun þinni! hjástoð veittú í hverri nauð, hygg að grátbeiðni minni; láttú mig ætíð lifa þér, lika deya, þá burtu fer. Lof þitt aldreji linni!

## Sjóferda-Psálmur.

Lagid: Náttúran öll og edli manns.

Drottinn líknsamur Herra hreinn, hjálparinn allra manna! þú sem ad rædur ellu einn, ástsemdar mildin sanna, bænheyr þú mig, þess beidi' eg þig, í blessudu Jesú nafni, med ljúfri náð og legg á ráð, um lífs og sálar efni.

2. Þín náð það hefir svo til sett, að sérhverr skyldi læra. embætti sitt að yrka rétt, og með handbjörg sig næra, um land og sjó, en lidsemd þó, lofadir þeim ad veita, sem treysta þér og sídan sér, sinnar atvinnu leita.

3. Nú vil eg eptir ordi því, í trausti nádar þinnar, á hafsins bylgjur fara frí, fædu leitandi minnar; stjádu mig nú, sæti Jesú! svo enginn háski grandi, til og frá hér hjálpa þú mér, hættulaust aptur ad landi.

4. Og sem þú gjordir ádur fyrr', óstyrkum Lærisveinum, þegar stormvindur þegi kyrr, þagnadi fyri þér einum, svo álít mig, nær ýfir sig, aldan og vedrid bleika, hasta þar á, en hugga þá hjartad mitt trúarveika.

5. Vardveittu mig og veg minn greid, vernd þín yfir mér standi, frá beiskri sorg og brádum deyd, bædi á sjó og landi; Jesús

minn trúr, eymd allri úr, einn kanntú mig að leysa, vertú mér nærst, þá hér sem hærst, hassins bylgjurnar geysa.

6. Stórann brim-sjó og sterkann vind, stedvi þín mildin sæla, íllra stórsiska ógna mind, ei lát mig kunna fæla; vængja-skjól þitt, fyri vardhald mitt, vil eg mér gjarna kjósa, svo megi' eg frí af fári því, frelsun þinni best hrósa.

7. Því vil eg leystur lofa þig, líssins um tídir mínar, þar heileg Guðs börn halda sig, heidrandi nádir þínar; þack-offur eitt, í veikleik' veitt, vyrdstú af mér að þyggja, eilíf náð þín, á armi sín, unni mér jafnan liggja.

8. Jeg geng til skips í Jesú nafn', Jesús minn hjá mér blífi, helgra Guðs engla heilagt safn, hrædslu og sorg burt drífi, mig sel og þá, sem mér eru hjá, míns Jesú sjálfs í hendur; verum til frids, væntandi lids, vernd hans yfir oss stendur.

9. Í Guðs nafni og ótta enn, eptir hans nádar ordi, veidarfærunum vil eg senn, varpa frá skipsins bordi; þetta mitt verk, misskunin merk, minn Herra Jesús blessi! veiti hann mér, hvad vild hans er, von mín og bón er þessi.

10. Jesús oss veri øllum hjá, auga hans til vor sjái, háska og ógnum hrindi frá, svo hætta' ei granda nái; vort hjartans hús, helgi Jesús, hann oss í fridi leidi, óskum þess nú, allir med trú; Amen! sé þad eg beidi.

---

# Annar Flockur

innihelbur

Heilræda- Vidvørunar- og Bænar-

## Psálma,

kristilegu liferni vidvíkjandi.

---

## Gyllini A B C

af þýdsku útlagt.

Lagid: Nú kom heidinna hjálpar ráð.

A einn Gud set þú allt þitt traust, adstod mannlegri trúir laust, fast standa Drottins fyrirheit, finnst valla trygd um veraldar-reit.

2. Best þinnar æru geym og gæt, gérsemi sú er harla mæt, ef hún þér sleppur eitt sinn frá, engin er von til henni ad ná.

3. Christnum sómir ei saurugt hjal, sérhverr sinn munn vel geyma skal, með þegn sig enginn fortalað féck, fjölyrðtum jafnan ílla géck.

4. Deil aldrei við þinn yfir-mann, elska skaltú og virða hann, þann minni-háttar hæð þú síst, hefnd fær drambsemi jafnan víst.

5. Ef þú nægð af auðæfum átt, engann veginn þig stæra mátt; þenk: að lán Drottins er það allt, af því reikningsskap standa skalt.

6. Frómleika, dáð og dygðir með, dýrara haldt' en gull og féð. Þá heimsins auðlegð horfin er, hvert sinn gott mannorð fylgir þér.

7. Géf ölmusu, ef áttu auð, og aumka þann, sem líður nauð, Guð, í hvers höndum heill þín er, hann mun líkt aptur gjalda þér.

8. Hafi þér einn til góða gért, góðminnugur þess jafnan vert; þackarlaus velgjörð (það er reynt), þúngt fellur manni ljóst og leynt.

9. Iðinn vertú á úngdóms tíð, erfiði lær, þar kémur um síð, uppskéra mun það ellin kyrr, sem æskan niður sádi fyrr.

10. Kjært þó einn láti í eyru þér, ofmjøg honum ei trúa ber, munnurinn stundum mælir dátt, meinar þó (kannske) hjartad flátt.

11. Lukkan hvert heldur mót' eda med, minustu ad hafa stødugt géd, sjaldan er upphaf endíng' líkt, opt géfur raunin vitni um slíkt.

12. Med reidum huga hendla'ei neitt, hvad til góds enda viltu leidt; margur í brædi verk þad vann, sem vard þó mest ad ydrast hann.

13. Nem þú og lær hvad nytsamt er, nær einhverr gott vill kénna þér; hyrda fáir um heimskann mann, hinn fær vyrdíng', sem meira kann.

24. Ókénnt málefni aldrei mátt, úrskurda fljótt né dæma brátt, klagandans heyrdu søgn um sinn, sídann gjæt ad hvad talar hinn.

15. Prakt og hofmód þér hrind þú frá, hefnd færdi mørgum løstur sá, lítillátann landsmanna sid, lát þér nægjast ad blífa vid.

16. Qvilludum hug, sem sturlar styngd, stærri skaltú ei auka hrigd, goldid má verda aptur eins, sem ødrum gjørir þrátt til meins.

17. Raupa, sem sízt af sjálfum þér, þó sýnist nockud gjørt sem ber; egid lof jafnan lyktar verst, lífernid fróınt sér hrósar best.

18. Sjá þig vel um, því verold er flá, vondum selskap þig sneidir hjá; gudhrædd-um haldt þig gjarnan ad, gott nafn þér víst útvegar þad.

19. Tem þig ad elska æru' og spekt, þó allir þig ei lofi frekt. Svo ollum lyndi, enginn mann, ord sín og gjørdir stylla kann.

20. Uppá heims aud og allt hvad er, aldrei þig reid, þad hverfur þér; sá má því haldast hygginn best, sem himneskt gjædi stundar mest.

21. Ven þig aldrei med agg og róg, ad samandraga fjárins plóg; þad ferst med sorg, sem fæst med synd, víd fridsamt braud þér un og lynd.

22. Xerxes Konúngur fordum frekt, forlét sig uppá vald og mekt, féck þó minkun og sorg til sanns, sérhverr varist þó dæmin hans.

23. Yfir allt framm þú óttist Gud, elska og vird hans heileg bod; odrum rádhollur einninn sért, eins sem þú vilt ad þér sé gért.

24. Zebaoth Gud oll veit þín verk, vert því lastvar, hans makt er sterk, fljótara

stilliſt hótuð [hefnd, en hin, sem er með framqvæmd efnd.

25. Þig lær sjálfann að þeckja rétt, þreyngst' ei heldur í neina stétt; hvað þú áformar að því gá, endirinn hvernig verða má.

26. Ætíð minnst' á þinn dauða-dag, dóm síðastann og sálar-hag; bið jafnan Guð að gefa þér náð, góð og heilnæm að stunda ráð.

Hvað vera egi athæfi kristins manns.

Lagið: Skaparinn stjarna, Herra hreinn!

Ef þú vilt góða friðsemd fá, fjölmælgi alla varast þá, gladt hjarta yfir góðu býr, gjarnan vert jafnan lyndis-hýr.

2. Í trúnni geym stillt og stöðugt geð, stunda þar hreinann kjærleik með, esflaus sé bænin yfirbót, undandráttarlaus, klár og fljót.

3. Yðrandi fyrir þín afbrot sért, er við fátæka jafnan vert, í góðum verkum yðinn best, íllt að forðast viljugur mest.

4. Fúslega góðri hirting' hlýð, hermúng með þolinmæði líð, í látæði þinu ljúfleik sýn, líka sé hæversk skickan þín.

5. Mjúkleik í kénníng' merkja lát, mæl vid adra med spekt og gát, vitna þ. d eina satt reynt sé, um sérhvad dæm med réttvíse.

6. Því fáordari finnstú hér, fjölmennid, sem þú meira sjer, því heilrádari þig hverjum tjá, honum sem meira liggur á.

## Heilræda Psálmur.

Med sinu lagi.

Viljir þú gédjast Gudi vel, og gódum mennum hér, hreintrúad hafdu hjartans þel, og heidra hans nafn, sem ber; ord Drottins lær med allri gát, ydka mest heita bæn, þackargjord fagra fylgja lát, fórn sú er einka væn, hugsun vondri þér hrittu frá, henni géf aldrei rúm. þér hjá, illgresis fræid upp sé rætt, ádur enn frjófgun nær, ské má, þad sé vid háska hætt, ef hreckja-rótin grær.

2. Ædri menn þér í heidri haldt hvern eptir sinni stétt, ljúflyndi vid þinn líka ska't, láta í frammi rétt; glettstú aldrei vid gamlann mann, gráhærdum vyrding ber, forsmá ei heldur fátækann, sem frómur og meinlaus er; módga ei þann, sem mædir stygd, medaumkun sýn þeim lídur hrigd, djarflega eckl

edrum lá, ávyrdíng hans né brest, þú veitst ei hvad þig hendamá, hafgát á þér, sem best.

3. Fordastú þá, sem fara med smán, falsyrdin, hád og spé, láulensi, slis og lucku rán, laun þeirra trú' eg sé, hótfindnin íll er engum þeck, athuga jafnan þad, ské má þú hafir ský edur fleck, ef skyldi þar grenslast ad, hlátur og késkni hæfir sizt, heimskunnar merki þad er víst, klám, níd og hróp þú hata mest, hugsa um málsháttt þann: frómlegum sidum samtal verst, sannlega spilla kann.

Um góda Samvitsku.

Lagid: Dagur i austri öllum.

Hvad verdur fegra fundid, enn fridur og rósamt géd, ángur úr huga hrundid, hjartad gladvært þar med? innbyrdis elskan hreina, med æru' í hverjum stad, heims eptirlætid eina, eflaust dæmi eg þad.

2. Gladur vilda' eg þú værir, og vondu hjá þig sneid, margt þó til bels þér bæri, bakmálug túngan leid; ef þinnar æru gæ... ir, aldrei þú qvída þarft, sídar þá sonnu mætir, sjálf lýgin dofnar snart.

3. Lán heims þig lát ei villa, luckunni spart þú tak, antigna engum illa, allra sízt þó á bak; opt einn að ödrum finnur, það ydkar hann sjálfur mest; hverr má svo hittast svinnur, að hafi ei nockurn brest?

4. Heilbrygdi, hjartans kjæti, hér með samvitskan góð, ástvina eptirlæti, fyri utan trega og móð, frómt líf og farsæll daudi, fylgjast með réttu að, af hverjum heimsins audi, helzt vilda eg kjósa það.

Um Luckunnar óstødugleika.

Lagið: Hvar mundi vera hjartað mitt.

Allt heimsins glisið, fordild fríd, fegurdar prjál og skraut, fallvallt meinslisið fyrr og síð, flestöllum reynast hlaut, allt eins og fis í hvaðsri hríd, hverfur snarlega á braut, luckunnar blisið litla tíð, logandi óvart þraut.

2. Blómleg æskunnar edlis art, sem aldins jurtir beint, snemma upprunnar blika bjart, burtvisna að qvøldi seint; þeir gledi brunnar þorna snart; það hefi eg sjed og reynt, vatns-rásir grunnar herfa hardt, hverfur svo tíminn leynt.

3. Líkhams heilbrygdin hrósar sér, haldin af ellum kjær, henn..r þó trygdin afsleppr er, óvissum tíma nær, sóttar andstygdin brádt ad ber, búksterkum nidarslær, bleik dauda sigdinn sárbeitt skér, sólfegur blómstrin skjær.

4. Holdsins frídleikur, fegurd klár, og fraktin líkamans, sem limid eikur laufgad stár, lísid gledur til sanns, allt eins og reykur ell forgár, ásýndin hvarma-ranns, þar liggur bleikur, blódlaus nár, burt er fordildin hans.

4. Mannsins líf hraust, er allra innst, í ædum hjartans býr, mjög þó ótraust og fallvalt finnst, fljótlega um sér snýr, vidstödulaust þá varir minnst, sem vindur í burtu flýr, ad láni hlautst, því laungum vinnst, litla stund æfin rír.

6. Heims audur sýnist holdsins' art, hardla fagur til sanns, medan vidkliniist kroppinn skart, kjætist géd fáviss manns, optlega týnist ysrid snart, ýmist til sjós eda lands, bersneggur pinist hugur hardt, hvar er þá gengid hans?

7. Margur hverr reisti' um frónid kjær, féck þess ei verid án; annar med hreysti kjárplóg sær, fer hinn med vél og rán, eitt

el, einn neisti', ein bylgja', einn blær, burt-sneiddi allt þad lán, en sá því treysti' er engu nær, utan því meiri smán.

8. Veroldin blíd ad láni lér, lystugt glerinnar hnoss, ásýndum þýd á baki ber, beiskann hermúngar kross. Luckan dásrída líkust er, vid límskann Júdas's koss, best væri' í tíd ad sjá ad sér, svo hún ei blecki oss.

9. Veld, léni, makt og virdíngar, vel margur sér dró ad, hefdíngja dragt og skrúda skar, skrautlega útsnickad, af skal þad lagt og ecki par, aktar daudinn um þad, frá allri frakt án ordlofs bar, út hvern úr sínum stad.

10. Hvad er heims blómi' og gjervallt glis, sem girnist holdid á? reykur, hégómi, felski, fis, fjúkandi lauf og strá, ad mínum dómi slægd og slis, slær ýmist til eda frá, skadsemdar ljómi, bálad blis, blindar skjótt þaun þad sá.

11. Rót allra meina med sér ber, mann-ordsins girndin snaud, heljar slód beina búkurinn fer, burt frá makt, hefd og aud; þad eitt alleina óvalt er, ad óttast Drottinn Gud; viltu slíkt reyna, hygg ad hér, hvad hann þér sjálfur baud.

12 Láttú því fara heimsins hátt, holds metnad dreifs og brjál, egnd daudans snara er vid gátt, ad þér mun dregid tál, medan þú hjara hér enn mátt, hugsadu' um þína sál', þar tak á vara, þrýtur brádt, þjód-brautin lífsins hál.

Um heimsins vondt háttalag.

Lagid: O Jesú! edla blómi.

Hætta er stór í heimi, hjálpi oss Drottinn kjær! frá Satans svikum geymi, svo ecki glötunst vær, reynd blída, grand gradi, greind lýda vandrædi, leynd vída land mædi, á lopt sér aptur slær.

2. Djöfuls nú veröld veidir, véla-nót mergum skjæd, í villu og vantrú leidir, vondskan sú þúsund-ræd; ár slíkur, ser, flakir, flár svíkur, hverr vakir? hár, ríkur, sjer sakir, sídar Gud af hæd.

3. Otal íllgjördir þróast, ei tjáir leyna því, trygd og trúskapur sóast, takast upp vélrád ný, flestöllum fast spilla, fest gellum last, villa, verst köllum kast qvilla, komid heiminn í.

4. Straff sýnist stórt fyrir hendi, stofnad mjög til þess er, von á ressíngar vendi,

í vert því hættan fer, veld synda, gyld granda, gjeld kinda, fylld standa, old blinda vild vanda, versta ljóst ei sjer.

5. O Jesú ástkærasti! ydrunar géf oss tíd, hyrt ei þitt fólk med hasti, heyr mig nú, gædskan blíd! eyd hættu, rád réttu, reidi sættu, hrjád gledtu, neyd bættu, nád settu, nauda þjádum lýd!

## Veraldar þekking um heimsins brygdlyndi.

Lagid: Öll lucka gleri líkust er.

Gud bid eg nú ad géfa mér ráð, og greida minn veg til besta, hann einn mun veita hjálp og dáð, hvad sem mig kann ad bresta, þó þerfin sé bædi þúng og bráð, og þyki opt bótum fresta, á Drottins miskun, mildi og nád, mitt skal eg traustid festa.

2. Manuleg adstod er misjafnt trygg, margir fá slíkt ad reyna, trúskapar lundin laus og styggð, leid gengur þegi beina, veltur á ýmsa hlid um hrygg, hamíngju láni eina, þá í naud bjarga helzt eg hygg, hægt muni verda ad greina.

3. Loksins fæ eg nú fullreynt þad, hvad fallvolt er heimsins blída, bindur sig ei vid

stund né stad, stilling enga kann lída, margann ber sama brunni ad, blind geng- ur luckan fríða, enginn fær sjálfur áqvard- ad, eptir hverju skal bída.

4. Þeir, sem mér vóru vinir fyrr, vel þá géck einusinni, þegjandi sneida þvers um dyr, þeim er eg lidinn úr minni; ef all- ir sigla sama byr, selskap er von mann finni, hinn má vel bída í hofnum kyrr, sem héldt mótvidrid inni.

5. Þar, sem eg hugdi hælis mér, í horm- úng minni' ad leita, ad engu' athvarfi ordid er, ull sókt í hús til geita; rót sú opt ávext rammann ber, sem ræktud er med sveita; heppinn þykist sá, sjálfum sér, af sundinu kann ad fleyta.

6. Gott er ad gledjast gódum med, gam- ans og lids ad njóta, brádt kann þó sel- skaps bróderned, burt sem vatns-straumur fljóta; þá heilsan brestur, heill og féd, hornaugum vinirnir skjóta, egid gagn hvíl- ir eftt á bed, en ástin leggst til fóta.

7. Margskonar ángist margann skér, misjafnt vill opt ábjáta, af audmjúku gédi' og þánka þér, það vil eg, Drottinn! játa; verdskuldan mín eg veit það er, verst slíks

í engann máta, nú bið eg þig nauðstedd-um mér, náð og vægð frammi láta.

8. Einmana stend eg uppi því, engum hef til að segja, ýmsum hörmúngum hald-inn í, hverja stund má eg þreja; á Drott-inn skal mín nauðsyn ný, nú og jafnan sér fleygja; lát mig af ellu fári frí, í friði, minn Jesú! deya.

### Bæn í heimsins andstreymi.

Lagið: Lifandi Guð! þú lít þar á.

Drottinn! lát mig í heimi hér, haga mér kristilega, svo eg rétt jafnan þjóni þér, og þócknist alla vega; hræsni. ágirnd og ó-hlýðne, aldrei í mínum huga sé, forða mér tjóni' og trega.

2. Guðlausra manna glæpa sið, géf þú eg varast kunni, haldtú mér sannleiks veg-inn við, vél heims mig engin ginni; hefst-ug rángláttra refsíng bráð, rétt fái aldrei til mín náð, minnst mín í miskun þinni.

3. Frá hjartans blindni og harðýrge, Herrann Jesús mig geymi, af allri hreins-uð saurgun sé, sál mín í þessum heimi; hug-skot og eyrun opna þú, ebl með mér hlýðni, von og trú, óst þín mér aldrei gleymi.

4. Þess eins af hug' og hjarta' eg bið, Herra minn dýrðar sæli! hreinann lærdóm mér h ldrú við, holds skynsemd mig ei tæli, hverki mannanna vald né vild, vinátta blíð né heiptin gyld, frá þínum sannleik fæli.

## Bæn móti andlegum óvinum.

Lagið: Ovinnanleg borg er vor Guð.

Leið þú mig, Guð! og lát mig ei, leiðast af sjálfs míns þótta, meðan í heimi hér eg þrej', hald þú mér við þinn ótta, hvert eg geng út eða inn, annastú, Jesú minn! líf mitt, samvitsku, sál', sjón, heyrn, orð, verk og mál, flærð djöfuls rek á flótta.

2. Ljúflega eg þér legg á hönd, líf og heilbrigði mína, líkhamann tak og einnig önd, undir trúfesti þína; þú átt, já, eigðu hér, allt vald og ráð á mér, öll er umhyggja mín, af mér komin til þín, svo læt eg sorgir dvína.

3. Hvað skal manneskjan megna þó, móti Skapara sínum, Adams fall þetta undirbjó, með allskyns sút og pínum; Jesús allt bætir böl, burtrekur sorg og kvöl, honum á hönd mig fel, hann leysir þrautir vel, hægir það huga mínum.

4. Mín sál! hvað viltú mæla þá, móti skickun þíns Herra? arf-syndin gamla sykur þrá, og enn er forþént verra, af því eg allt-of-frekt, á jók þá fornu sekt; svo munu' í heimi hér, holds þrjótsku kraptarner, hljóta að hjaðnā' og þverra.

5. Endurlausnari! lof sé þér, lausn fyrir sndu minnar, leystur frá dauða ljóst eg er, lausu fyrir pínu þinnar; leystú, Lausnarinn kjær! lastanna flækjur þær, sem sál mín situr í, sorg hef' eg, Herra'! af því, lát mig lausn synda finna.

6. Leystú mig, Jesú! lestum frá, lít mitt áður enn dvínar, lausnin blessaða leys mig þá, ljóst fyrir undir þínar; leys mig, Lausnarinn trúr! og lina mótgángs skúr, þegar þér þykir mál, þér fel eg líf og sál, orð og athafnir mínar.

7. Sáluhjálparinn sæll Jesú! sál mín þér ætíð fagnar, sálunni miskun sýndir þú, sálin þér lofgjörð magnar; sál minni sýn þú lið, sála mín þess þarf við, sálin er sjúk og móð, sál' unn þitt blessað blóð, er sálunni sætast gagnar.

8. Hjálpari minn og Herra hýr! hjálpa nú þræli þínum, hjálpræðis blessuð heillin dýr! hjálpa þú veikleik' mínum; hjálpar-

laus hjari' eg hér, ef hjálpar þú eigi mér, hjálpa mót hoídi' og heim, hjálpa mót óvin þeim, sem veldur vítis pínum.

9. Lífgjafari minn og líknin fín, lífinu vyrdstú vægja! lífs-fadir ertú lífi mín, lífs meinum gjör þú hægja! líf og sál lofi þig, lífs medan sparar mig, líf mitt lifi í þér; lifdú, Jesús! í mér, lífi lát lestu' ei bægja.

10. Fel eg mig nú í fadminn þinn, Frelsarinn Jesú sæti! þó ad mér þreyngi ánaudin, eymdir heims og mótlæti; verdi þinn vilji' á mér, vil eg þad líða hér, lidsemd mér leggur þú, lát mig um síðir nú, lifa med lífsins mæti.

## Idrunar og bænar andvarpan.

Lagid: O Jesú edla blómi!

Auvej! minn Drottinn dýri! dapur eg kém til þín, andi þinn æ mér stýri, ángrud er sálin mín, græd hana, Gud einn! géd-pína ad linist, blód Sonar grid greini, grátin kjætist sýn.

2. Synd mín er fandi fleiri, særir þad hjartans grunn, nád þín er miklu meiri, mér er hún ordinn kunn, svo fridi sí-þjád-

ann, sá gódi æ blídur, sú glædi sé gæda, sídu af raudum brunn.

3. Mannleg hjálp mest vill þrjóta, mikil þá naudsyn er, því flý eg til þinna sóta, þyrmi nú Drottinn mér, heyr bænir hýr mínar, hér týn ei reir klénum, gjør lina mér meinum, mest eg treysti þér.

4. Drag mig úr djúpi nauda, Drottinn! eg bid af rót, Sonar þíns sárann dauda, synd láttú vinna bót; sál nádi sól fridar, sæl greidi heil rádin, qvøl eydist, kul grædi Kristí ástin fljót.

5. Týndann úr telu sauda, tak þú mig enn í sátt, afstýr þú ángri nauda, einninn gjør lyndid kátt; greid brautir, Gud mætur! græd sútir, frid játa, klid þrauta þad brjóti, þinn svo kanni mátt.

6. Eg fel í umsjón þína, einasti minn Jesú! önd, líf og æru mína, ellu því stjórna þú; lof, heidur, ljúft greidist, lífgrædir af þjódum, haf, Fadir! hlíf góda, hér oss fyrir nú.

# Pridji Flockur

i hverjum finnast nockrir

Ydrunar-, Huggunar- og Packlætis-

Psálmar.

### Bæn ydrandi og trúads manns.

Lagid: Til þín, heilagi Herra Gud!

Sýng þú lof Drottni, sála mín! sem er þinn Gud og Herra, víst því hann gjerdi vel til þín, velgjerda minnstú þeirra, gaf þér eingétinn Soninn sinn, sem fyrir þig var líflátinn, hvert ástverk er ellu stærra.

2. Lær þú ad stunda líka fremst, lofsýngja þínum Gudi, eins og Davíd ad ordi kémst, í sínu Psálms atqvædi: mín önd og allt hvad med mér er, minn Drottinn! heidur vandi þér, fyrir þín géfin gædi!

3 Mig ánarar þad í minni sál, ad mót syndgadi' eg Drottni; ein synd verdskuldar eilíst bál, eptir lögmálsins vitni; hverr kañ ad reikna syndir sín? sjá! fleiri eru afbrot mín, sandi á sjáfar-botni.

4 Alít mig, Drottinn! aumann þræl, augum miskunar þinnar, álít og heyr mitt

eymda væl, álít vein sálar minnar; í Jesú nafni aumka mig, í Jesú nafni bið eg þig, Drottinn Guð dýrdarinnar!

5. Í hans helgustu sárum sjá, synda forlikun mína, hvað þúngt þín reiði á honum lá, hverskyns qvalir og pína, djeful, helvíti og dauða vann, með dýrdlegum sigri uppreis hann, endurleysti svo sína.

6. Auma syndara hér í heim, hann til ydrunar kallar, svo stadfestandi sjálfur þeim, sínar velgjørdir allar, í sakramenti altaris, ef rétt-trúadir neytum þess, svo sem Postulinn spjallar.

7. Viðurkénnandi vor afbrot, verdnga stærstu nauða, utan vér hefum eilíf not, af Jesú pínu' og dauða, berum oss vort að bæta ráð, biðjum Drottinn um sína náð, vor gæti veikra sauða.

8. Eg má það játa aum mannkind, eins sem Kóng Davíð rædir, mér fyrigéfur hañ mína synd, meinsemdir allar grædir; Jesú útrunnið blessað blóð, bót og lækníng er hardla góð, þeim synda-þúnginn mædir.

9. Hjálpa þú mér, ó Herra Guð! hjálpa þú sálu minni, hjálpa þú mér í himna-frið, hjálpa þú skepnu þinni, hjálpaðú mér frá

heljar neyd, hjálpa þú mér fyri Jesú deyd, hjálp þ:n mér huggun vinni.

10. Vægt hefir mér þín verndar hend, veitt hirting fedurlega, þad hrís reikna eg vægann vend, vidlíkast barna-aga; krapt-ur þíns anda kénni mér, kjærleika þinn ad stunda hér, og minnast þess mína daga.

11. Ad gæti eg heldur vid syndum sjed, svo mig ei verra hendi; bæn, trú og þolin-mædi med, minni ydrun þér sendi, vitandi ad þessi veraldar leid, verda muni mér ordugt skeid, nema leidir mig líknar hendi.

12. O minn Jesú! þín eilíf náð, end-urlífgi sál mína, eg befel mig og allt mitt ráð, í miskunar vernd þína, lát oss svo enda lífid hér, ad lof, dýrd og heidur fær-um þér, vor Gud! um eilífdina.

## Um Guds Forsjón.

Lagid: Herra! þér skal heidur og lotning greida.

Hugur slagar, hættur ýmsum benda, hold-id bagar margann vel ad lenda, gégn þeim agar, gæt hvad hagar, gleymska aflagar, æfidagar enda.

2. Mørg er hryndja mótlætis um aldur, mædu-vidja þúng, sem daudinn kaldur; vor

skal ydja, veikra nidja ad vaka' og bidja, oss vill styrdja' Alvaldur.

3. Einn er Drottinn, ósinnandi' hans vegir, allt ber vottinn, líka hitt, sem þegir, elskan, óttinn, eydslan, gnóttin, dagur, nóttin, heilsan, sóttin, segir.

4. Gud ótraudur gótz er huga mínum, gagnid, audur, hreysti' í ellum pínum, luckan snaudum, lausn úr naudum, lífid daudum, uppreisn saudum sínum.

5. Allar sképnur eins úti sem inni, einn Gud sedur, þó þær séu' ógrynni, hvergi' er slíkur, hvad vidvíkur, hønd forríkur sá upplýkur sinni.

6. Ei skal qvída eymdum lýda fremur, enn þó svída verdi, hríd þá lemur; heldur strída, bidja' og bída betri tída, blessud blída kémur.

7. Þøckum Drottni, þvíad hann er gódur, aldrei þrotni sá kjærleikans hródur; auma' álítur, braud þeim brýtur, bjørg framflýtur, sá ei þrýtur sjódur.

8. Máttur Drottins megnar alla vega, miskun hans hún varir eilíflega, sinna gætir, sína kjætir, synd upprætir, trúudum bætir trega.

9. Dýrd sé Gudi, Fedur og Syni samin, sannheilögum Anda allteins framin, þrennum, einum, Herra hreinum, hjálp hvers reynum, ædst lof greinum, Amen!

## Tuttugasti og þridji Psálmur Davíds vidlíks innihalds.

Lagid: Gædsturikasti Græðari minn!

Drottinn minn hirdir held eg þig, hér fyrir brestur ekkért mig, mín gledi síst því sjatni, leidir mig gædska Guds med saun, gras-haga úti lystugann og framm ad ferska vatni; sá mest, má best hugann hræra, endurnæra og rétt leida, vegna nafns síns veginn greida.

2 Og þó ad eg í daudans dal, döprum ráfi og mirkra sal, ólukkan ei mig hrædir, víst því er med mér vernd þín hýr, vendurinn þinn og stafur skír, heita mín huggun bædi; trúr, hýr tilbýr, sitt því ordid sett matbordid sálu minni, móti þeim mig hrella kynni.

3. Mitt hefud smyr þín mildin klár, med vidsmjerinu síd og ár og fullt á fyrir mig skenkir. Gædska þín Gud og miskun mest, mun mér fylgja lífdagana best,

minn hugur þar á þenkir. Eja! Eja! í húsi þínu elsku-sínu eg mun blífa, veittú mér hjá þér víst eilífa.

Bókstafa þýðíng í Jesú nafni.

Lagid: Fadir vor! sem á himnum ert.

Ilmur er Jesús edla-skjær, oss vid Gud Fødur sætta fær; andvarpan sanna syndugs manns, svo gjerir fagra bænin hans, eins og þá sólin uppljómar, allann himin og stjernurnar.

2. Eilíft líf Jesús oss tilbýr, allri hørmúng í gledi snýr, grimd og ógn daudans eyddi hér, andlát vort hægur svefn því er, heljar brodd skjædann Herrann braut, hans makt og vald med øllu þraut.

3. Sannleikur Jesús eflaust er, oss rétta lífs-braut kénnir hér, heims-spekin enga huggun ljær, Herrans ord nád og blessan fær, allir, sem treysta uppá þad, eilífann finna hvíldar-stad.

4. Vegur er Jesús viss og beinn, vel má hann gánga hverr sem einn, fyrir hreina trú og helgann sid, hann leidir oss í dýrdar frid, hrædast þarf sá ei heljar deyd, sem heldur sér vid þessa leid.

5. Sigurvinníngin sætust hér, á synd og dauða Jesús er, djøful fángaði, enn frelsti oss, fyrir þá qvol hann leið á kross, Ilm, Eilífð, Sannleik, Veg, Sigur skjær, svo nafn Jesús útleggjum vær.

## Endurminníng Krists pínu.

Lagið: Ovinnanleg borg er vor Guð.

Hvað hjartans kjærann hafði mig, Herrann minn Jesú góði! í dauðann gaf hann sjálfann sig, og sínu úthellti blóði, Kóngurinn Engla einu, eilífur Drottinn hreinn, á sig tók mína mind, meinlaus fyrir utan synd, og keypti frá qvala flóði.

2. Aumur í sátækt fæddist hér, fyirlitinn af heimi, lagður í jötu asna er, ollum hafnandi seimi, í útlegð hraktist hann, hærstur Guð og svo mann, allskyns armæðu þraut, með ángri líða hlaut, saklaus frá synda eymi.

3. Blessuðu sveittist blóði sín, barðist við dauðann stránga, harmqvali oll og allskyns pín, yfir hans sálu gánga, fals-koss, fjotur og bond, færður í Júda hond, hogg, slog og hráka leið, hæðni, álygð og neyð, og dóms ályktun ránga.

4. Krossfestur, deyddur Drottinn var, dreira-runninn í pínum, hans blessad hjarta hardt þá skar, hvast spjót med broddi sínum, blód og vatn sárt med sút, sem þar nam renna út, heilagi Herra kjær, hreinsar mig vel og þvær, af sekt og syndum mínum.

5. Hvad kom þar til, minn mildi Gud! mædu þá vildir lída, og á þig taka alls-kyns naud, med ángri' og sárum qvída? gódsemdar gædskan þín, gjørdi þad vegna mín, frá køldum qvala veg, keyptur svo yrdi eg, og mætti miskun bída.

6. O Herra Jesú! hverr er eg þess, hladinn med mørgum syndum, ad forlétstú himna ljósann sess, og leitadir ad mér týndum? ljúfur svo leystir mig, létstú kross-festa þig, uppgafstú øndu þín, er þad lífgjefin mín, sviptir burt sorgar mindum.

7. En hvad skal gjalda aptur þér, ecki neitt gott hafandi? sála mín líf og allt hvad er, í þínu valdi standi; ángrad hjarta og géd, ydran syndanna med; ætíd þér offra vil, annad hest' eg ei til, medtak þad velvyrdandi.

8. Hvad þú áleggur lída skal, Lausnarinn ástar kjæri! hjartad, sinni, hugsan og tal,

hlýdid svo allt þér væri; hjálpa mér, Herra minn! ad heilagann vilja þinn, eg elski af allri ønd, eilíf þín nádar hønd, á fridarins braut mig færi.

9. Hjálp mér ad géta haldid rétt, af hjarta, sál og sinni, hvad, sem þú fyrir hefir sett, huggun veit øndu minni, þá daudinn á dyrnar slær, Drottinn! stattú mér nær, ord sídust, Son Guds! þín, séu þá einnig mín, sælu ad sálin finni.

10. Amen! í Jesú egid nafn, Amen! af huga hreinum; forda mér, Gud! vid glæpa safn, geym mína sál frá meinum; svo vil eg satt med trú, sýngja þér, minn Jesú! Sanctus og sannann prís, í sællri Paradís, Amen! lof Drottni einum.

## Huggan í krossi og mótgángi.

Lagid: Náttúran øll og edli manns.

Þú, kristin sála! þjád og mædd, þreytt undir krossins byrdi, vanmegnast ecki, vert óhrædd, vilji Drottins þó yrdi; þrej, þol og líd, bid, vona og bíd, bølid fær gódann enda, þá neyd er hærst, Herrann er nærst, hann mun þér fegnud senda.

2. Þú líður kross og qveinar hátt, qvíðir máské við dauða, holdsins vandi er þetta þrátt, þegar það kénnir nauða; heldur ætíð við andann stríð, allir megum það játa; styrk muntú þá þurfa að fá, ef það skal undan láta.

3. Þannig lætur oss Drottinn dýr, deya frá þessum heimi, fagurlega sitt fólk tilbýr, fallvöltum auð svo gleymi, hyrtir mjög hægt, hér með sær lægt, hjartað metnaðar-gjarna, grætir um stund, gleður þó lund, Guð þannig sinna barna.

4. Þú sjer að móðirin mildi-gjørn, mjúklát við sitt afsqvæmi, agar þó opt sín elsku-børn, ei svo í skaða kjæmi; eptir hirtíng, auðmýktar slíng, að sér þýðlega vefur, af þurkar klár, øll þeirra tár, ástar koss margann gèfur.

5. Allteins fer Drottinn að við oss, orð hans ljóst þar um hljóða, hyrtíng áleggur hrigð og kross, hann vill oss allt hið góða; í hørmúng midt, mildir géð sitt, miskunar Faðirinn blíður, elskar þá best, hann agar mest, er þeim nærst, sem þýngst líður.

9. Heyr hvað Esajas hermir ljóst, heiløgum fylltur Anda: en þó fást megi móður brjóst, miskunar-laust til handa, afsqvæmi

sín, svo ei þess pín, elsku daust hjartad kénndi, aldrei skal þér, þó gleymt af mér, þitt nafn í minni' er hendi.

7. Sæt ad hversu Guds bernin blíd, báru sinn kross og lidu, hlutu ad þola stundlegt stríd, stødugt í trúnni bidu; Job, Móises, vér minnumst þess, mjøg þjádir lengi vóru, Davíd og sann, sá Drottins mann, djúpin hrigdanna stóru.

8. Hver var meir vyrdt enn María, módir Jesú vors Herra, hlaut þó krossfestiann Son sinn sjá, sár hans ei féck ad þerra; harma sverd beitt, réd hja: tad heitt, hennar þá sundur grafa; Drottni mest kjær sú mildg mær, mun þó víst verid hafa.

9. Já, Gud vildi sinn Son til sanns, svoddan med skarti prída, þad mun þér blídri brúdur hans, best allra segurst hlída; hvad loflegt er í heimi hér, honum samlíkjast mega, og Jesú hjá, himninum á, heimvon farsæla ega.

10. Kannské ad þar um qvartir þú, kéuni' eg vel holdid veika, þér vyrdist sem þín von og trú, vilji hvarfla og skeika; þrátt stendur naumt, þolgjædid aumt, þjáníng ef lengi dvelur; bænin er køld, misgjørd margføld, mjøg svoddan hjartad qvelur.

11. Ei er trúin þitt egið verk, enn þótt hún veikleg standi, né þolinmæði í þrautum sterk, það gèfur helgur Andi, hvað hann upptók, hann gaf og jók, hjálpsamlega framqvæmir, vanmegnun þá, sem er þar á, aldrei hans náð fordæmir.

12. Bænin ef vyrðist veik og stirð, varastú þó að tregast, fyrir augum Drottins vel er vyrð; vor Jesús fagurlegast, þýðir það allt, þér sýnist kaldt, ef hún fer í hans nafni, offur það best, ásjer hann mest, ei trúi' eg Guð því hafni.

13. Lángt þó finnist að líða þér, lítil stund má þó heita, óendanleg sú eilífð er, oss þar mun Drottinn veita, unað semd þá, sem aldrei má, upphugsa mannlegt hjarta, lifum með fró, frið, sælu og ró, fagrir sem ljósið bjarta.

14. Hygg að! því barni mest er mjúkt, móður hjarta ágæta, vanmegna, sem hún sjer og sjúkt, sýnir því hjúkrun mæta; eins er Guðs hend, ángrádri end, æ er hann nálægastur, ástríkur best, og blíður mest, við born sín veik trúfastur.

15. Brákaðann reir ei brýtur hann, blæs ei út her rjúkanda, glataðann sauð með flýti fann, frávilltum lét ei granda;

á herdum sér heimleidis ber, hverr má oss þadan draga? veika sál best, bevara mest, bædi nætur og daga.

16. Í Jesú nafni bid og bíd, brúdguminn fullsnart kémur, hans er ásýndin hýr og blíd, hvad viltú girnast fremur? þín harma tár, öll þerrar klár, þýd Drottins hendin skjæra, hér vid þig skalt hugga á-valt, heilnæmt er slíkt ad læra.

17. Gudi sé lof! sem glada von, gaf oss í raunum vendum, lét hann sinn ljúfa líknar Son, leysa' oss af daudans bendum; hans andinn kjær er ætíd nær öllum, sem þjáníng lída, vér skulum því þreyngíngum í, þreja, vona og bída.

18. Ai er þá stadin öll vor sorg, ángistar horfin mæda, í himnaríkis helgri borg, hvar Englar Drottins ræda, og sýngja sætt Sanctus ágætt, segjandi' af hjarta: Amen! lof, heidur, prís, sæmd, sómi vís, sé Drottni' um eilífd framin!

Andvarpan kristilegrar kirkju.

Lagid: Gædskurikasti Grædari minn!

Ef þú spyr ad: því kristnin klár, qveinar daglega' og fellir tár, andvarpar opt og styn-

ur? Þú skalt vita, hún þráast leynt, þykir brúdgumiun koma seint, hennar hjartkjæri vinur; þreyir, segir: Jesú Kriste! kom, sem fyrst, svo qvølum linni, endurnær mig á elsku þinni!

2. Hún bidur opt med hrigd og þrá: hjartans brúdgumi! lát þig sjá, ó Drottinn! dvel ei leugi, sætasti Jesú; minnstú mín, mér þykir lángt ad bída þín, nærsta því neydin þreyngir; einn hreini, elskhuginn kjæri! kom hér nær, eg kalla' af mædi, lát þú mig edlast þín ástar gædi.

3. O Gud gæfi' eg ætti' um sinn, upp til þín koma, Jesú minn' ad sídan skiljum eigi, hjartad mitt tak þú til þín fyrst, trú og nád svo mér ávaxtist, ad eg hér þolgód þreji; heitir, veitir, Herrann merkur, hreinn og sterkur, heilagann Anda, sá mig huggar í háska' og vanda.

4. Sem hjerturinn þá hann þyrstur er, þreyttur til vatnsins flýtir sér, svo honum svalad yrdi, svo lángar oss hér úr heimsins pín, Herra minn Jesú! upp til þín, kramda af krossins byrdi; grædtú, bættú, ángrid strída, qvøl og qvída kristni þinnar, leid hana heim til hvíldar sinnar.

5. Ó Jesú! merk: þín ángrud hjerd, andvarpar, stynur þúngt á jord, stedd nú í fári stærsta; hjálpa þú henni, Herra trúr! háska ellum og vanda úr, hún er harmþrúngin nærsta; lengist, þrengist, vid óvin trylldann, offa fylldann, ætíd strídir; lát hana, Drottinn! sigra' um sídir.

6. Jesú! mig lángar eptir þér, ætíd hvernig, sem gengur hér, kom til mín, Jesú kjæri! medan mér ønd í brjósti býr, bíd eg þú komir, Jesú hýr! þér vil eg vera nærri; sértú, vertú, Jesús hæstur hjá mér nærstur, í hverskyns pínu, skýl þú mér jafnan í skjóli þínu!

## Um Guds adstod í krossinum.

Lagid: Ovinnanleg borg er vor Gud.

Eg vænti, Drottinn! eptir þér, í minni hørmúng lángri, og bíd til þess þú bjargar mér, af beiskri hugarins ángri, er strídir á mig fast, og hvern dag margfaldast, krossinn mig kremur hardt, kom þú! hjálpadu snart, svo linni stridu strángri.

2. Veit eg þú, Drottinn! manst til mín, þá mótgángs tíminn stendur, feginn í allri freistni og pín, fel eg mig þér á hendur,

nafn mitt vel þeckir þú, þess em eg full-viss nú, það er og skrifað inn, í handar lófann þinn, sigur er mér því sendur.

3. Minn andi, Drottinn! í þér gledst, til orðs þíns jafnan leita, af huggun mjúkri sálin sedst, sannleikans fyrirheita: komið kross-þjáðir hér (Kristur sjálfur svo tér), alla eg yður mest, endurnæra vil best, erfiði er má þreyta.

4. Endurlausnarinn allra trúr, aumir hveirs lækníng fundu, þessum mig leiði þrautum úr, á þægri hjálpar stundu, þó holdinu þyki lángt, þjáníngar okið stráng, samt vertú, sál mín! hraust, set á Drottinn þitt traust, hans mildi-verkin mundu.

5. Lífir minn Guð, sem líf mér gaf, líf mitt er í hans valdi, lífs-qvölum svipti lísi af, lífs-bjerg minni viðhaldi! lifandi lífsins Guð! líf mitt frelsa af nauð, lífs svo eg lifi hér, að líf eilíft meður þér, fái eg um allar aldir.

## Þackargjörð fyrir apturfengna heilsu.
(qveðin 1663.)

Lagið: Jesú Kristi! þig kalla' eg á.

Seg þú lof Drottni, sál mín! nú, sætt með hjartans fegnuði, daglega jafnan

þacka þú. þínum lifanda Gudi, hverr þér líf krapt og heilsu gaf, hjálp, nád og miskun veitti, nær þjáníng þreytti, leysti þig ellu ángri af, eymd þinni' í farsæld breytti.

2. Eg var hladinn med hrigd og þrá, holdid mjeg sóttin píndi, hend Drottins lagdist hardt mig á, hirtíng mjeg þúnga sýndi; hverja stund daudans von því var, veiktist lífs megnid þjáda og naut ei náda, aldeilis dugdi ecki par, adstod mannlegra ráda.

3. Þá eg lá svo í háska hér, med harmsqrælum sóttarinnar, gættir þú, Jesú minn! ad mér, miskunar naut eg þinnar, hend þín blessud og hlífd ótreg, hættar freistíngar lægdi, og vel mér vægdi, svo nádar umsjón ástúdleg, áráfum djefuls bægdi.

4. Miskunar hjarta-þelid þitt, þá í brjóst um mig kénndi, grædddir allt sóttarmeinid mitt, med þiuni læknis-hendi, heilbrigdi gafst og hraustleik mér, úr hættu daudans 'leystir, og vel vid reistir; sæll og heppinn ad sönnu er, sá þinni gjædsku treystir.

5. Mikil er nád og miskun þín, minn Jesú hjarta-kjæri! þú vyrdtist svo ad minnast min, þó maklegur þess ei væri. Lofsud

veri þín líknin góð, lofað sé orð þitt mæta, sem böl kann bæta, lofi himnar og heimsins þjóð, helgasta nafn þitt sæta.

6. Nú skal eg héðanaf sérhvert sinn, með sál, hug, raust og munni, lífgjafara og læknir minn, lofa af hjartans grunni; blessuð veri þín blessuð hönd, blessuð sé þín aðhjúkrun, við mig sár-sjúkann, hirtíngar strafssins harðann vönd, hefir þú gjört mér mjúkann.

7. Heiti' eg nú, Drottinn! hér á mót, með hjálp og aðstoð þinni, af hjartans grunni gjöra bót, á gleymsku' og þrjótsku minni, öllu framar að þjóna þér, og þínum vilja' að gégna, það mest eg megna, géfðú þar krapt og mátt til mér, miskunar þinnar vegna.

8. Geym mig frá öllum glæpa stig, góði Jesú, minn Herra! svo ei til reiði reiti þig, né rati annað verra; vyrðstú mér jafnan vernd og hlíf, vægð og linkind að sýna, nær sorgir pína, eins þá seinast mitt endar líf, annastú sálu mína!

## Um Guðs varðveitslu og forsjón.

Lagið: Eins og sitt barn.

Herra Jesú! mín hlífð ert þú, þó heimurinn vilji' ei láta, einka von mín, er eð

til þín, þú þoldir pín, þér vil eg hlýdni játa.

2. Afhaldid heims og audlegd seims, aldrei mér látid hefir, til frids þó er, minn Gud! í þér, eg uni hér vid þad, sem þú mér géfur.

3. Líf mitt og önd þér ljúft á hönd legg eg nú, Fadirinn blídi! þín hjálpin trú mér hlífi nú, Herrann Jesú! hörmúng þó á mig strídi.

4. Luckan mín öll á ládi snjöll, leikur í valdi þínu, hvad vilji' er þinn um haginn miñ í hvert eitt sinn, hjartanu gédjast mínu.

5. Gædskan þín víst mér gleymir sízt, gladur því vil eg þreja, bidlundar bid, eg býst þá vid, blessun og frid best muntú yfir mér segja.

6. Ríkdómsins hér ei óska mér, örbirgd ei lát mig pína, mitt daglegt braud mér géf þú, Gud! en andar aud, aldrei láttú mig týna.

7. Jesús med dáb, Jesús med náb, Jesús í lifi' og dauda, Jesús mín hlíf, Jesús mitt líf, vid Jesúm eg blíf, Jesús er bótin nauda.

8. Mín sál við þig mun h..lda sig, mørg þó að syndin særi, þitt blessað blóð er borg-un góð, það bætir móð, bróðir minn, Guð! ástkjæri!

9. Vereld! vereld! þitt vols og veld, vel máttú eðrum léna, afsegi' eg þér að unna hér, hef heitið mér, hæ. stum Guði að þéna.

10. Ráð mér, Guð minn! á jerð um sinn, ellum svo lestum hafni, unn mér þíns liðs og ástar siðs, þá er eg til friðs í Jesú Kristí nafni.

## Þakklætis- og Bænar-vers.

Lagið: Heyrðu, Faðir! hátt eg kalla.

Hærsta lof af hjartans grunni, hér sýng eg með raust og munni, Jesú þeim mér ætíð unni, og aðstoð veitti á barndóms tíð.

2. Alla tíma að mér gætti, ekkért svo mig skaða mætti, ell mín Jesús blíð[illegible] bætti, barndóms hót á æsku-tíð.

3. Lifi' eg enn og lof þér segi, Lausnari minn! á nótt og degi, náqvæm Jesú náð sig hnegi, nú til mín á alders-tíð.

3. Líkams burðir þegar þrjóta, þinnar vildi' eg gæðsku njóta, láttú mig, Jesú! hressíng hljóta, ef hjara skal eg á elli tíð.

5. Góðvild, trygð og orð þitt eina, allra sé mín bótin meina, styrki mig, Jesú! hönd þín hreina á hverri og einni mótgángs tíð.

6. Ráð þú huga, hjarta' og sinni, holdi líka' og sálu minni, að eg, Jesú! elsku þinni, fyrir enga sleppi gleði-tíð.

7. Ill ráð heims mig engin villi, andi Guðs mitt gérið stilli, Jesú! þinni haldi' eg hylli, héðan-fallaa lífsins tíð.

8 Minnst' á mig í miskun þinni, þá mál er komið að hérvist linni, sjá til, Jesú! sælu sinni, sálin mín á dauðans tíð.

9. Vek upp hold af svefni sínum, sem þú lofar í orðum þínum, vægi, Jesú! málum mínum, miskun þín á dómsins tíð.

10. Reiknaðu mig, fyri blóð þitt blíða, blessaðann meðal þinna lýða, leyf mér, Jesú! að lesa þér fríða, lofgjörð um eilífa tíð.

## Harmagrátur þess mótlætta og af Guði huggaða.

Lagið: Hvað skal oss ángra' í heimi hér.

**A** einum Guði er allt mitt traust, engu skal eg því kvíða, ángur míns hjarta efalaust, á sjer hans mildin blíða; en þó herm-

úngar efuin vond, á mig ſterkt gjöri' ad leita, almáttug Drottins hægri hond, hún kann því ellu' ad breyta.

2. Innra mín sála ángur ber, optlega má það finna, qvíðandi púngum hefndum hér, til hverra' eg gjördi vinna, samvitſkan hræðiſt ſynda grond, ſorgir því hugann mæða, almáttug Drottins hægri hond, hún kann það beſt ad græða.

3. Ytra er hold af harmi þjáð, hardlega kroſsinn þreyngir, þolinmæðinnar þverrar dáð, þeſs meir, ſem tímann lengir, hvergi má fáſt um leg né lend, lækníng vid eymdar qvilla, nema míns Drottins hægri hond, hún kann allt böl ad ſtilla.

4. Nálega er ſú engin tíd, ad mér' ei ſturlun færi, ytra barátta, innra ſtríd, ond og líkama ſærir; hvert kann vid ſlíku reiſa rond? rádlauſt er holdid veika, láti þó Drottins hægri hond, hjartad mitt aldrei ſkeika.

5. Mannanna ſtod og ſtyrkur bregdſt, ſtofnar það opt til nauda, æfin med ſorgum áfram dregſt, endar lokſins med dauda, þá hljóta ſkiljaſt hold og ond, og hérviſt líſsins dvína; almáttug Drottins hægri hond, hún geymi ſálu mína.

6. Í mínum Guði' eg huggun hef, hverju, sem öðru sætir, mig á hans vald og vilja gef, veit eg það hann mín gætir, þó synda, eymda' og sorgar bend, sárt vilji hjartað meiða, almáttug Drottins hægri hend, hún mun þau af mér greiða.

7. Trúr er minn Guð, sem treysti' eg á, trúr er Jesús minn Herra, hans blessuð forsjón best mun sjá, nær böl og eymd mín skal þverra, sem kylgjur hafs við sjáfar strönd, sín takmörk ei forláta, eins skamtar Drottins hægri hönd, hverri sorg tíð og máta.

8. Vil eg nú gjarnan vera til friðs, vil eg því engu kvíða, vil eg af Drottni vænta liðs, vil eg svo þreja' og bíða; minn Herra Jesús meinin vönd, mýkir og allan trega, hans almáttuga hægri hönd, hjálpi mér eilíflega!

## Psálmur til Jesú Krists.

Lagið: Heyrðu, Faðir! hátt eg kalla.

Heilagur Andi Guðs míns góða, gefi svo mína túngu fróða, hún kunni þér til lofs að ljóða, líknsamasti Jesú minn!

2. Eptir þér mig láttu lánga, á lífsins vegi kéun mér gánga, svo eg megi

þann fegnuð fánga, að fylgja þér eptir, Jesú minn!

3. Þú ert vor vegur í himna hæðir, helgast oss þitt orðið fræðir, gleggt við oss í Ritníng ræðir, ráðhollasti Jesú minn!

4. Lifandi vatns hinn besti brunnur, brautin lífs og sannleiks munnur, af sjálfs þíns orði sért' mér kunnur, signaður Herra Jesú minn!

5. Guð ertú' af Guði sönnum, géfinn til lausnar tepuðum mönnum, daglega þína dygð vér kennum, dásamasti Jesú minn!

6. Ljós ertú' af ljósi skæru, í ljósi þínu mjög frábæru, ljósið sjáum vér lífs með æru, lofaður sértú Jesú minn!

7. Sá, sem að þér trúir og treystir, trygðin dýr, sem lýði leystir, með þínum Anda hann hughreystir, þýður og blíður Jesú minn!

8. Sá hinn sami, þó sofni' úr heimi, særist ei af qvala-keimi, sál hans trú' eg sjálfur geymi, signaður Herra Jesús minn!

9. Hverr hann lifir í trúnni traustur, tídt í góðum verkum hraustur, hann mun byggja himna-klaustur, hjá þér sjálfum Jesú minn!

10. Sætleik ber af sykri ellu, þitt signad nafn á hvert vér kellum, eilífa vist í himna hellum, hefir útvegad Jesús minn!

11. Fyrirgéf þú mér lesiu leida, líka vil eg þig feginn beida, lífsins braut mér gjördú greida, Grædari blídur Jesú minn!

12. Þessu veit eg þú munt játa, og þad ei mér á móti láta, af því gjörir sig endmín káta, í þér sjálfum Jesú minn!

13. Allt er eins og eg þig sjái, einvalds Herrann-krapta hái, med trúar hend eg til þín nái, tignar dýrstur Jesú minn!

14 Þú géfur mér þitt sakleysi, þá eg skal frá veraldar hreysi, beint eg minn þá búst-d reisi, hjá bygdum þínum Jesú minn!

15. Þínu réttlæti þú mig klædir, þar med alla meinsemd grædir, dags mig efsti dómur ei hrædir, duga munt þá mér Jesú minn!

16. Huggunar styrk síns heilaga Anda, Herrann géfi mér lýds og landa, svo eg kunni strída og standa, stödugur jafnan Jesú minn!

17. Dýrd sé Gudi Drottni mínum, dýrstum Fedur á himnum sínum, med eingétnum Syni sínum, sem ert Herra Jesú minn!

18. Bænheyr þú mig blídur og sætur, bænheyr þú mig, Gud! ágætur, bænheyr

Þú þitt barn, sem grætur, bænheyr þú mig Jesú minn!

## Fjórdi Flockur

innihelldur

**Psálma um Dómsdag og kristi-lega burtför.**

### Um mannsins fallvalt líf og þann sídasta dag.

Lagid: Ødlíngar Júda annars dags.

Géf eg mig allann á Guts míns náð, geymi hann allt mitt efni' og ráð, hvad helzt sem kémur hendum að, í hverjum stað, hans miskun veri befalað.

2. Minná lífdaga stærð og stund, stendur í Guds míns Födurs hend, nær sem hañ vill þá vil eg strax, vera til taks, gladur bída þess góda dags.

3. Af því eg veit og-efláust finn, Endurlausnari lifir minn, það er mín trú: hans blessað blód, sé borgan gód, sem mig hreinsar af synda móð,

4. En þó ad lágt mitt lidna hold, liggi, súni og verdi' ad mold, samt finnur ecki sálin deyd, né sorgar leid, því hún er frí frá allri neyd.

5. Æ! hvad er þetta auma líf? ángist, harmqvæli, neyd og kíf, þá þad er best og blómgast glæst, er bolid nærst, brádlega kémur sorgin stærst.

6. Hvad er mann, nema mold og jørd, maktarlaus, dosin þurr og hørd? í heiminn fædist híngad ber, hverr helzt hann er, hefir eckért í burt med sér.

7. Hann kann ad vera' hraustur í dag, heill og vel fær med gledi ylag, en á morgun sjúkur og sár (svo til þad gár), máské líka framlidinn nár.

8. Allteins og blómstrid gult og grænt, glansandi stendur fagurt og vænt, á augabragdi er ordid þurrt, enga ber kurt, fellur, visnar og fýkur á burt.

9. Med þeim skilmála madur hverr, af módurlísi fæddur er: hann skal burtdeya hédan víst, þá varir sízt, sæll er sá, sem þar vel vid býst!

10. Því veldur Adams synda sekt, sídan þess allir guldu frekt, um álfur heims finnst

ecki neinn, já, aldrei einn, sem af henni kann segjast hreinn.

11. Þar stodar hverki góß né gjald, gefugt ætterni, hefd né vald; skjótt skal hverr einn med folanu krans, í daudans dans, dvelja má ei vid kallid hans.

12. Þá er líkaminn folur og sár, fegurdinoll í burtu gár, liggur svo í saurugum leir, hann sjest ei meir, sálin um eilífd aldrei deyr.

13. Hún skilst vid holdid hér til sanns, hreisid afleggur líkamans, ódaudleg Þángad allskjótt fer, sem ásett er; um Þad oss øllum Þenkja ber.

14. Hverr, sem Guds ord og Herrans nád, hefir um lífsins tíd forsmád, og svo deyr burt ydrunarlaust, fyrir utan traust, hans sál fær eilífa harma-raust.

15. Æ! vesæl er sú auma sál, útrekin strax í vitis bál, døpur Þar bída dómsins má, fordæmdum hjá; gódi Jesú! mig geym Þar frá!

16. Hverr, sem Guds ord elskadi nú, á Jesúm setur fulla trú, sálin hans engu qvída kann, qvittud vid bann, hún er innleidd í himna-rann.

17. Augliti Guds fær ætíd sjá, engin harmqvæli minnist á, bídur dóms • dags í dýrri vist, er aldrei tvist; þad géfi' oss Gud fyrir Jesúm Krist.

18. Vid básúnunnar hvellann hljom, heims þjód kémur strax fyrir dóm, ráds•mennsku sinnar reikníng þá, hverr halda á, svo allir megi þar uppá sjá.

19. Upp úr grefunum allir senn, íllir og gódir rísa menn, þar kémur víst hver sál til sanns, þess sama manns, lídur aptur til líkamans.

20. Svo sem einn hirdir saudi og kid, sundurgreinir á hverja hlid, ógudlegir, sem allir sjá, med eymd og þrá, til vinstri handar verda þá.

21. Rángláta stodar ei vél né vern, vitskan legkókra slægdargjörn, þá hefir eckért abl né makt, enginn fær sagt, eitt ord á mót' eda framlagt.

22. Omegulegt er ad flýa frá, frækleik•ur enginn gyldir þá, vitni sakanna saunar gleggt, á sérhvern snøggt; hvar mun þá standa hjartad kleckt?

23. Allar sképnur med einni raust, á•klaga sekann vægdarlaust, samvitskan sjálf

svarar til hradt (þad er þó satt), fyrir þúsund vitni hún gengur gladt.

24. Öll verkin þar med ógudlig, opinberlega sýna sig, hrópandi sjálf sér hefndar laun og heljar-raun, eilíft þad gyldir qvalanna kaun.

25. Atqvædi Dómarans aptur á mót, andsvörin gésur þessi fljót: víkid frá mér íllgjerda menn, allir í senn, eg kannast ei vid ydur enn.

26. Vér, sem ad vonum Jesúm á, verdum til hægri handar þá, reiknings þó skuldin skodist þar, ei skadar par, af því hún ádur útslétt var.

27. Þad sæta Jesú sídu blód, sem af hans helgu benjum stód, allann vorn reikníng af hefir mád, fyrir elsku og dád, þad hlutum vér fyrir Herrans nád.

28. Ránglega hef' eg hendlad margt holdsins fylgjandi vondri art, upp til dómsins mér ei er fært, enn sídur vært, nema fyrir Jesú nafnid skjært.

29. Þad er vor allra huggun hér, hjartad þá qvídinn synda skér, sá, sem dæmir hann dó á kross, gaf gjald fyrir oss, þad var hans blessadur benja foss.

30. O madur! madur! hygg ad hér, hugsa þig um medan tíminn er, nú er þér bodin nádin stærst, Guds elskan glæst, í þessu lífi líka sú næst.

31. Dyr lífs þér standa opnar enn, ad því skyldir þú gæta senn, út stendur breiddur fadmur fús, fridur Jesús, hann býdur þér í þetta hús.

32. Ef þú aktar meir aud og seim, adhyllist þenna vonda heim, og gégnir ecki Guds þíns raust, né géfur traust, útrekinn verdur efalaust.

33. Yfir Jerúsalem Jesús grét, jafnan áminníng' heyra lét; þeir vildu ecki ad því gá, fyrir illsku' og þrá', þúngar hefndir því hlutu' ad fá.

34. En ef þú hýdrast efalaust, á Jesúm setur von og traust, þá er hans nád þín vernd og hlíf, hjálp, heill og líf, svo aldrei kéunir qvalanna kíf.

35. Af augum þínum öll þín tár, ástrík hans þerrar hendin klár, hjartans fögnud heilögum hjá, himninum á, endalaust muntú ega' ad fá.

36. Gledjumst hér vid öll Guds börn trú, gód og fullvífs er huggan sú, heim-

von er sæt, þó hér sé kaldt, í hriggdum allt, eilíft er líf oss ófallvalt.

37. Gud unni oss ad ydrast hér, á medan nádar-tíminn er, Drottinn! géf hæga dauda tíd, frid, fyrr og síd, eilíft líf med útvøldum lýd.

## Bæn um kristilega burtfør.

Lagid: O Fadir minn! eg þrællinn þinn.

O! nádar nægd, nægst heill og frægd, nægst elskan Jesú Kristi, nægst nádar lind, nægst bót vid synd, nægsti huggarinn besti, nægst hann líf er, nægstann krapt ber, nægsta hjálp vill oss senda, Jesú Guds Son! gjerdú þá bón: géf mér farsælann enda!

2. Eg veit ad mér, sem ødrum hér, er áqverdud stund ad deya, eg bid, Gud! þig, ó Gud! lát mig, gott strid hér kunna heya, vel skiljast vid, og fara' í frid, fá svo í dýrd ad lenda; Jesú Guds Son! gjørdú þá bón: géf mér farsælann enda!

3. Veikleika minn og óstyrkinn, af kann Jesús ad taka, øll brot og brest, bøl holdsins mest, bætir og grædir líka; en mér, þá dey, þad efa' eg ei, eilíft vill frelsi senda.

Jesú Guds Son! gjerdú þá bón: géf mér farsælann enda!

4. Sála mín kjær! kross hvern, sem fær, krapt þinn lát ecki buga, sú kémur tíd, þolinmód þýz, þú fær vel gladann huga, þó hér í heim med þýngslum þeim, þér vilji Drottinn benda. Jesú Guds Son! gjerdú þá bón: géf mér farsælann enda!

5. Sárbeitinn blídt med tárum tídt, trúfasti Gud hinn sanni! andlátid sætt med gledi gædt, géf þú mér veikum manni, láttú mig þá leidast vel frá, ljótt eckért kunna' ad henda. Jesú Guds Son! gjerdú þá bón; géf mér farsælann enda!

6. Þú, mildi Gud! þrenníng blessud, þad lísid, sem eg unni, sé þér lof, dýrd, Drottinn minn! skírd, djúpum af hjartans grunni. Á dauda-stund, í dýrdar hönd Drottins fel eg minn anda. Jesú Guds Son! gjerdú þá bón: géf mér farsælañ enda!

## Umþenkíng Daudans.

Med sinu lagi.

Oh! oh! hverr vill mig verja, valdi daudans fyrer, þá hann á líf vill herja, hverr vill lidsinna mér? Eg finn, opt sinn,

veikleika mikinn minn, holdið við hélju qvídir, hræðist þær sorgar tíðir, ómildann óvin þann, ecki þó fordast kann.

2. Hverja stund honum móti, hleypur þó lífið manns, búin með bana spjóti, bítur því grimdin hans, nær ser, næmt þér nú og hvað meira er, heimili hjá þér hefir, hvert vakir eða sefur, umsitur ávalt þig, ei lætur merkja sig.

3. Frá því að fyrst þú fæðist, fylgir hann jafnan þér, og um í leyndum læðist, lend og sjó hvar þú fer; hans er, alsnör, umsitur líf og fjær, á sterkum boga stendur, strengur til hæfis bendur, óvart afgenginn finnst, opt þegar varir minnst.

4. Jafn-grimmur eins við alla, er hann á hverri tíð, bern, gamla, konur og karla, Kónga og aumann lýð, hvern þann, helzt kann, hédan burt hriffar hann, bæði lærda og leika, líka hrausta, sem veika, enginn umflúið fær, ellum þeim niðurslær.

5. Fjærlægt þó flýa vildir, fær ecki hjálpað það, hann kémur hvað sem gyldir, hittir þig í þeim stað; allt traust, er laust, inn um hvern múr hann brautst, góð orð og gjef ei hyrdir, gull og silfur minnst vyrdir, ein liggur ellum leið, í gégnum sárann deyð.

6. Allaun fríðleik afmindar, úr dregur blóðið rauðt, augnanna sjón og blindar, yfirbragð gjerir snauðt; heyrn skír, frá stýr, feaurð í selnun snýr, end burt úr brjósti slítur, bæði mál og vit þrýtur, er lík fyrir utan tef, útborið kaldt í gref.

7. Eg veit það víst um síðir, vitja mun dauðinn mín, lífið frekt fyrirqvíðir, fær þar af sorg og pín, hug-deigt, hold veikt, heimsins til mjøg er hneigt. Þvert á mót vorum vilja, við hljótum þó að skilja, grefin ofbýður oss, ei er það léttur kross.

8. Þótt allann heim eg ætti, auð og makt sérhvers lands, hjálpa það mér ei mætti, móti valdi dauðans; hvað má holds þá, harmur og qvíði ná? hví skal af því að þreytast, sem þó kann ei umbreytast? það er eitt sinn ásett, svo mun þó standa rétt.

9. Fyrst eckért finnst á jerðu, frelsi né hjálpar-ráð, mót qvíða og héli horðu, himneska bið eg náð, um lið og frið, eg þá skal skiljast við, dauðans ótta burtdrífi, dásamlega mér hlífi, ásýnd hans ógnarlig, aldrei svo skélfi mig.

10. Jesús sá Herra heitir, hel-pín féck yfir makt, hann sigur sínum veitir, sem trú þar hefir á vakt, hans hér Andi er, asläusn

daglega tér, í hans fegnud' og fridi, sáum með Engla lidi, holdlegri hérvist frá, himneſku lífi ná.

11. J Gudi því gladur deya, og gladur lifa vil, þolinmódlega þreja, þeirrar heimferdar til, hér gá heim frá, Herrans samvistum ná; því daudann Jesús deyddi, daudans beiſkleik' og eyddi, er svo daudans adfer, eilífs lífs réttu kjør.

12. Eg flý af hriggum huga, Herra Jesú! til þín, óttinn vill yfirbuga, auma samviſku mín, vanmátt þañ brádt þú veiſt og holdsins hátt, audann lausn ljúfa girnir, líkaminn móti spyrnir, þad er eitt þúnglegt stríd, þinnar eg hjálpar bíd.

13. Af módurlífi mig leiddir, lifandi, Jesú minn! gódann veg sídan greiddir, Guds barna' í selſkapinn, og mér æ hér, í øllu hjúkrader, lát þér nú ecki leidast, líf mitt og sál tilreida, heimi og holdi frá, himneſkri vist ad ná.

14. Mig dirfir móti dauda, daudi þinn, Jesú kjær! grimd hans þú gjerdir snauda, gledi mér svoddan sær, vald trauſt hels hrauſt, heftir og sundurbrautst, øll sjøtur óvinanna, efs veittir frelsun sanna, þar af fengum vér frid, feginn því ſkilst eg vid.

15. Mitt hjarta' í hjarta þínu, hvílast lát, Drottinn minn! eins þitt svo aptur mínu, innsigla sérhvert sinn; Son þinn sé minn, sálar vísdómurinn, en hræríng heilagur Andi, huggun og stjórn eblandi, til alls góðs medan er, einkum þá deya fer.

16. Gudi sé lof! sem greidir, gotu og veginn minn, um dyr mig daudans leidir, í dýrdar ríkid inn; lát heim, hans seim og höld med bádum þeim, hafa sinn hátt og læti, Herrann minn Jesús sæti, mér stendur milldur hjá, mest þegar liggur á.

## Annar Psálmur sömu meiníngar,

Lagid: Dagur í austri öllum.

Allteins og blómstrid eina, uppvex á slétt-ri grund, fagurt med frjófgun hreina, fyrst um dags morgun-stund, á snöggu augabragdi, afskorid verdur fljótt, lit og blöd nidur lagdi, líf mannlegt endar skjótt.

2. Svo hleypur æskan únga, óvissa daudans leid, sem aldur og ellin þúnga, allt rennur sama skeid. Innsigli engir fengu, uppá lífs-stunda bid, en þann kost undir-gengu, allir ad skiljast vid.

3. Dauðinn má svo með sanni, samlíkjast þykir mér, slíngum þeim sláttumanni, er slær allt hvað fyrir er, grösin og jurtir grænar, glóandi blómstrið frídt; reir, sler, sem rósir vænar, reiknar hann jafn fánýtt.

4. Lífið manns hratt framhleypur, hefir það enga bið, í dauðans grimmar greipur, gröfin tekur þar við; allrar veraldar vegur, víkur að sama púnkt, fetar það fús sem tregur, hvert fellur létt eða þúngt.

5. Hverki fyrir hefð né valdi, hopar dauðinn eitt strik, fast síst með fögru gjaldi, frestur um augnablik, allt hann að einu gyldir, hvert ílla líki' eður vel, bón ei né bræði mildir, hans beiska heiptar-þel.

6. Menn vaða' í villu' og svíma, veit enginn neitt um það, hvernin, á hverjum tíma, eða hvar hann kémur að. Einn vegur öllum greiðir, inngáng í heimsins rann, margbreyttar lítst mér leiðir, liggi þó út þaðan.

7. Abl dauðans eins nam kreinkja, alla í veröld hér; skal eg þá þurfa' að þenkja, hann þyrmi einum mér? Adams er eðli runnið, í mitt náttúrlegt hold, eg hef' og þar til unnið, aptur að verða' að mold.

8. Hverki með hefð né ráni, hér þetta líf eg fann; sálin er, svo sem að láni, samtengð við líkamann; í Herrans hendum stendur, að heimta sitt af mér. Dauðinn má segjast sendur, að sækja hvað Skaparans er.

9. Nú vel! í Herrans nafni, fyrst nauðsyn ber til slík; jeg er ei þeirra jafni, sem jerðin geymir nú lík; hvenær sem kallið kémur, kaupir sig enginn frí; þar læt eg nótt, sem nemur, neitt skal ei qvíða því.

10. Eg veit minn ljúfur lifir, Lausnarinn himnum á, hann ræður ellu yfir, einn heitir Jesús sá, sigrarinn dauðans sanni, sjálfur á krossi dó, og mér svo aumum manni, eilíft líf víst tilbjó.

11. Með sínum dauða' hann deyddi, dauðann og sigur vann, makt hans og afli eyddi, ekkért mig skaða kann; þó leggist lík í jerðu, lifir mín sála frí, hún mætir aldrei herðu, himneskri sælu í.

12. Jesús er mér í minni, mig á hans vald eg géf, hvert eg er úti' eða inni, eins þá eg vaki' og sef, hann er mín hjálp og hreysti, hann er mitt rétta líf, honum af hjarta' eg treysti, hann mýkir dauðans kíf.

13. Eg lifi' í Jesú nafni, í Jesú nafni' eg dey, þó heilsa' og líf mér hafni, hrædist eg daudann ei; daudi! eg óttast eigi, abl þitt né valdid gyldt, í Kristí krapti' eg segi: kom þú sæll! þegar þú vilt.

## Um kristilega burtför.

Lagid: Kom Andi heilagi.

Svu ber eg andar qvein, upp til Guds hæda, hann kann mín margföld mein, mjúkast ad græda.

2. Aadvarp mitt ecki hann, út frá sér rekur, hug gledur harmfullann, hendum vid tekur.

3 Mit: daglegt yndi er, á hann ad qvaka, eins á nótt sál mín sjer, sætleik hans vaka.

4. Er hún svo yfrid lyst, eptir þeim Herra, sem vereld vekva þyrst, vid sumar-þerra.

5. Rík girnd sú rennir opt, rétt ósedjandi, huganum hátt í lopt, hér þó eg standi.

6. J munninn falla fljótt, fossarnir tára, innvortis er samt hljódt, andvarpid sára.

7. Kinnbeinin þar med þvæ, þau neckud svída, Gud sjer hvad sárt eg fæ, sorgir vid strída.

8. Nær skalsú sálar girnd, sedd fullkomlega, að aldeilis út sé fyrnd, erin míns trega.

9. Að sál og líka líf, líta þann nái, sem endar allt mitt k'f, eptir eg þrái.

10. Nú vill það hardla heitt, huga minn beygja, eg á það eptir eitt, enn nú að deya.

11. Uagur sá ángrar mig, eg hlýt að styggja, Drottinn! svo þráfaldt þig, þenna heim byggja.

12 Vær í afstaðið str'd. stillist sú hræðsla, fullkomin bættist blíð, bærsklérans græðsla.

13. Jesú minn! leggðu lið, láttú mig trúa, þér, heitt eg þess nú bið, þar frá ei snúa.

14. Holds-veikin þrýtur þá, þinn sætleik geymi, útfer vil feginn sá, frá þessum heimi.

15 Þín orð mitt lífga líf, líka þó deyi, þar við óbilugt blíf, bregðast þau eigi.

16. Því verður þelið hraust, þó dauðinn komi, luckast mér lofað traust, líka í Guðs dómi.

17. Eg veit að Jesús minn, upp kañ mig vekja, með holdi mín beinin, mun aptur þekja.

18. Með sama sjónar hvarm, sem hér nú væri, sje eg hann sviptur harm, í sigurs-kjæri.

19. Af er þá ángistar, ell raun og mæða, hrekst eg ei hrumur þar, í hrernun klæða.

20. Mína eg fundið fæ, fagnaðar glaða, sem blómgað sumar-fræ, sætra lauf-blaða.

21. Djøfull og dólgar hans, dýrð þá ei fella, sem hér í sorgar-dans, sífellt mig hrella.

22. Því vil eg friðar-fús, frá hrigðar-djúpi, afleggja holdsins hús, svo hyljist hjúpi.

23. Lamb Guðs, sem líf mér fann, láttú mig vera, sáttann við sérhvern mann, samt þig, minn Herra!

24. Séf þú mér góða menn, gref mína taka, og meðan anda enn, yfir mér vaka.

25. Guð! lát mig engin orð, af munni leiða, sem búa sálu morð, sælu mig sneiða.

26. Yfir allt añað hitt, uñ mér að hreppa hold og blóð helgast þitt, huggun ei sleppa.

27. Jesú Guðs sañi Son! send mér til handa, þá hærstu heilla von, heilagann Anda.

28. Fyrir stríð strángast þitt, sterkasti Drottinn! andlátið mjúkt géf mitt, mér sé bær sóttin.

29. Engann lát ótta' af mér, afgéi gnum standa, svæf þú mig sætt í þér, sjálfum til handa.

30. Meðtak þú mína ønd, minn Jesú Kristi! í þiñi heilla hønd, hún sé og gisti.

31. Láttú, Guð! þekkañ þiñ, þjón einhvern vera, foríngja frómañ miñ, fagrañ saung géra.

32. Sem lidid lík og gref, ljúft sé ad blessa, og láti' á enga tof, ord Guds ud messa.

33. Launa þú sjálfur svo, saung þann og lestur, Drottinn! um tíma tvo, trúr hvörs bestur.

34. Hér med þig blídann bid, brunnur alls góda! send þú þeim sífellt lid, sem þar til stoda.

35. Ydlist þeir eilíft gagn, audgist á foldu, sem bera sveita magn, ad sópa' á mig moldu.

36 Sofnadur sídan þá, sæll mun uppreistur, erfidi öllu frá, af Gudi leystur.

37. Allt hvad minn gódi Gud, gaf mér í heimi, einn taki aptur vid, annist og geymi.

38. Hann veri fadir fús, fodurleysíngja, nistkun og matar-hús, minna veslínga.

39. Lýsi þeim lífs á braut, línkind á breidi, og svo úr allri þraut, um sídir leidi.

40. Ei læt þeim eptir mig, aud, gull né silfur, heldur, Gud! helzt bid þig, hjálpa þeim sjálfur.

41. O minn Gud! mín er þad, mjúk bæn og vonin, þann hépinn þér tak ad, þinn fyrir Soninn.

42. Eins medan erum vær, ell hér á lífi, þín blessuð náð sé nær, við nauðum hlífi.

43. Vort sátækt hafðu hús, í hendi þinni, Drottinn Guð friðar-fús, frjófga það inni.

44. Þín orð þá bestu bjerg, brauð, hús og klæði, géfi þín gæðskan merg, Guð! þú líknmæði.

45 Einn sértú, sanni Guð! sem með o's vendi, að sækja allann auð, í þitt haglendi.

46 Drottinn minn hardla heitt, helzt þar um beiði, hætt svo ei saki neitt, sál héðan leiði.

47 Herra! mig heimann bú, í hendur þínar, leið mig í lífsins trú, um lífstíð mína.

48. Ei láttú synda síð, saurga mitt hjarta, svó megi sætt með frið, samvitskan skarta.

49. Hátt og djúpt heitum foss, hjartans útrenni, barn Guðs, sem bar sinn kross, í brjósti um mig kénni.

50. Mjög hætt er marga stund, minn hrellist hugur, géf náð af góðri lund, Guð almáttugur!

51. Eg trúi á þig fast, almáttug Vera, þann skjeld fyri skeytið hvast, skal eg frambera.

52. Drottinn! eg þecki þig, þér því befala, eldúngis allann mig, án hjartans kala.

53. Særdú og grættú géd, Gud! sem þér lyndir, audmjúk han mín er med, minnst ei á syndir.

54. Eg á mig ecki hér, í veroldinni, Drottinn! eg eign þín er, af miskun þinni.

55. Því veit eg, sjerd þinn sauð, sjálfs, þó hér arki, þinn þeckir allann aud, af egin marki.

56. Ulfsins sedst ecki qverk, af sálu minni, þín hendin hardla sterk, hlífir hjerd sinni.

57. Hér beygi' eg hjartans kné, hjálpar sárbæni, rétt sem ein ambátt sé, upp til Guds mæni.

58. Yfirgef ecki mig, í þinni brædi, géf fundid géti' eg þig, Gud! mitt hjálpræði.

59. Frá einni eiktar stund, allt fram til hinnar, bíd eg med ljúfri lund, lífs komu þinnar.

60. Gjerdú nú, Gud minn! snart, ad gráti mínum, berdum reir bend ei hardt, blód-kroptum þínum.

61. Hofud mitt seka sé, sem kjøltu módur, lagt í þitt líknar kné, Lausnarinn gódur!

62. Burt mér ei bljúgum hrind, boduls í hendur, fætur þín fadmi bind, Frelsarinn kénndur.

63. Ondin mín sýngr svo, sár þinna rísta, eins og brjóst-brunna tvo, bærnid er-þyrsta.

64. Mér gengur mergjar til, miskun útdregin, mitt ángur mýkja vil, mjeg hjartans feginn.

65. Þadan um eilíf ár, aldrei burtvenda; Drottinn! þinn heidur hár, haldist án enda.

66. Eja! þér, gódi Gud! gøfgun sé fram-en, um eilífd ár og síd, Amen! já, Amen!

## Andláts Psálmur,

sem Skálbid qvad á sóttar-sænginni.

Lagid: Sá frjáls vid løgmál fæddur er.

Herra Jesú! eg hrópa á þig, hjartans því kraptar dvína, bænheyr þú Drottinn mildur mig, fyrir miskunsemina þína.

2. Bænheyr mig fyrir þín blódug sár og benja-fossinn rauda, bænheyr mig nádar Kóngur klár, og kénndu til minna nauda.

3. Bænheyr mig fyrir þinn trega og tár, og titrandi qvalanna pínu, bænheyr mig fyrir þitt sídu-sár, og svaladu hjarta mínu.

4. Ljúfur Jesú! eg leita þín, lát mér ad hvarfi verda, ángrád er neckud endin mín, ad vilja þrautir herda.

5. Láttú mig finna líkn hjá þér, ljúfustum edla-bródur, húss-krossi litlum hægdu' á mér; heyrdú þad, Gud minn gódur!

6. Þó vil eg bikar þenna af, med þakklátu hjarta drecka, súrt þó mér finnist súta-kaf, svalodu mínum ecka.

7. Herra! géf mér í hjartans géd, heilaga þolinmædi, umburdarlyndi einninn med, og eilíf sálar-gædi.

8. Kjærleikans eld þú qveik í mér, kref eg þess Gud af hjarta, í andlegum hjúskap æ med þér, ønd mín svo nái' ad skarta.

9. Drottinn þú veitst mína þánka' og þel, og þorfina alla mína, þína í hend eg þad allt fel, þyrstur í miskun þína.

10. Aldur minn þegar úti er, eymdum trúi' eg þá linni, fyrir blód þitt, Jesú! bjarga mér, á banasænginni minni!

11. Hressi mig þá þitt blessad blód, beint svo ad trúar stafni, heim eg þá réttu hjálpar slód, haldi í Jesú nafni.

12. Bænheyr mig himneskt blídan væn, og blessadur edla-bródir, gleym þú ei minni gjordri bæn, gádu' hennar Jesú gódi.

13. Andláts þá stundu yfir mig slær, allt mál og megn vill dvína, heim til þín Fadir hjarta-kjær, hafdú sálina mína.

14. Hæganu gef dauða og héðan-fer, hvild þar með holdi mínu, í upprisunni þau eðla kjer, í augliti að gleðjast þínu.

15. Láttú mitt hjarta segja með sér, og svoddan trú í því standa: Hei ra Jesú miskuna mér, meðtak þú svo minn anda!

16. Falli svo til eg missi mál, minn fyrir afgángs tíma, í mitt hjarta, sinni og sál, svoddan orð vyrðstu' að líma.

17. Þá er eg hólpinn, það er mín trú, þessa bón vyrðst mér veita, auðliti þínu að mér snú, eins sem eg þess nú leita.

18. Feginn vil eg, sem fljótast nú, frelsast úr dauðans skorðum, augliti þínu að mér snú, eins og til Péturs forðum.

19. Sæti Jesú mig svipta pín, Psálminn gjöri' eg svo enda, hrelldu sálu og hjarta mín, huggun vyrðstú mér senda.

## Annar Andláts Psálmur,

sem Skáldið orkti síðast á sóttar-sænginni.

Lagið: Skaparinn stjarna Herra hreinn.

Guð komi sjálfur nú með náð, nú sjái Guð mitt efni og ráð, nú er mér, Jesú! þerf á þér, þér hefi' eg treyst í heimi hér.

2. Eg hefi' aldrei í nockri nauð, nauðstaddur beðið utan Guð, Guð hefir sjálfur ségnt mér þá; Guð veri mér nú líka hjá!

3. Aqværdud mín og mæld er stund, mitt líf stendur í þinni hønd, andlátið kémur eitt sinn að, einn veitstú, Guð! nær skédur það.

4. Nú hefi' eg þar á nockurn grun, nálægjast þessi stundin mun, holdið mitt er af harmi þreytt, hafa kraptarnir sér umbreytt.

5. Finn eg að augum ferlast sýn, falla tekur nú heyrnin mín, hendurnar hafa mist sitt magn, minn fétur vinnur eckért gagn.

6. Líkaminn allur farður sótt, svitnar og dregur af mér þrótt, einnig þreyngist um andardrátt, eg vænti minnar hvíldar brádt.

7. Dofna varir og túngan treg, tala því ecki orka eg, hjartað svo margskyns mæda lýr, mannleg hjálp öll sér frá mér snýr.

8. Sárbeidi' eg Guð af góðri lund: géf þú mér hæga dauðastund, ofbjóða lát ei andláts kend, aumka þig yfir mína neyd!

9. Vitnisburð þann frá eilífð átt, að þú hjá'pir á bestan hátt, þá endast megn og mannleg stoð, miskuna þú mér, Drottinn Guð!

10. Láttu nú sannast liðið þitt, líttú á qvein og andvarp mitt, eg sár-grátbæni Son Guðs! þig, syndirnar skyldu nú við mig.

11. Utslegið bið eg allt það sé, er eg þig Drottinn! móðgaðe, óverðugum til góða gjer, Guð! sem optar, og hjálpa mér.

12. Fyrst! þú hefir svo híngað til, hast stóra náð og kjærleiks il, í frammi við mig fallinn mann, frelsaðú mig nú nauðstaddañ.

13. Þú hefir fyrri fyrir mig stríðt, fengið mér sigur-merkið nýtt; Jesú minn! nú þín frægðin fríð, fyrir mig vinni dauðans stríð.

14. Géf þú mér eina trausta trú, til þín minn hjartans Herra! nú, í gégnum dauðans grimma hlið, Guð láti komast mig með frið.

15. Saktú minn Guð! hvað sjálfs þíns er, sálina þá, sem gafstú mér, skildu hana nú hægt við hold, hvílast lát það í jarðar mold.

16. Hún verður fegin hvíldar fund, hast hefir marga mæðu stund, vosbúðar-nótt og nauða flug, nærsta barist með veikann dug.

17. En það hún hefir afborið, er skéð fyrir hins hærsta lið, hann hefir sinn hinn sanna krapt, svo í þeim breiska ríkann haft.

18. Opt hefir sálinn anda nært, erfiði hjartans stilling fært, úrræði ec eg engin sá, í sinu skauti bar mig þá.

19. Legg þú mig nú á náðar-brjóst, nafnfrægi Guð! sem heitir ljóst, hjúkrun, aðstoð og hjálpar-lið; hjartanu géf nú sannann frið.

20. Af þreyngslum minnar móður lífs, mig leiddir þú án dauðans kífs, leys nú af þreyngslum líkamans, lifandi sál til himna ranns.

21. Strax, sem mín augna uppkom rós, eg fékk að líta heimsins ljós, fyrr enn eg allur fæddur var, fékkstú mér þá hið nægsta svar.

22. Svo láttú mína sálu nú, sjá þig í einni réttri trú, vertú sjálfur ljós-móðir mín, mín sál fæðist í hendur þín.

23. Í skírninni mér skénktir þig, skal eg þér Jesú aptur mig, grandvarlega með góðri lund, géfa á minni dauða-stund.

24. Obediun tókst mig að þér fyrst, enn nú, sárbið eg, Jesú Krist! með trúar-hendi þér haldi eg fast, Herra! lát mig ei vanmegnast!

25. Strax, sem mér leystist túnga og tenn, til mín barst lífsins fæða senn, af eldum kálfi sál mín saug, Sonar Guðs blóð, þá dýrstu laug.

26. Heilagur Andi hærstur þinn, hann er sá trygða-hríngurinn, sem Sonur Guðs

mér gaf á hønd, giptast þá vildi' hann minni ønd.

27. Skínandi fot mér skenktir þá, ad skyldir mig í þeim aptur sjá, bædi á dægri dauda míns, Drottinn! og ríki Födur þíns.

28. Eg kém hér framm med eckért mitt, elskhúgi minn í brúdkaup þitt, sjá þú mig nú í sjálfum þér, saurugt er allt hvad med mér er.

29. Eg hef svo marga mædu stund, mænt eptir þínum dýrdar fund, finndu mig nú, þó lliggi' eg lágt, lát mig ei ætíd ega bágt.

30. Sje eg þig gégnum svart eitt ský, sitjandi himnaríki í, eg á nú til þín ecki lángt, en mér finnst bædi hardt og strángt.

31. Eg styd mig nú vid ordid þitt, erfidi léttú, Drottinn! mitt, sálin mín er af þúnga þjád, þyrst og sár-húngrud eptir nád.

32. Deyf þú nú alla daudans raun, Drottinn! gjald mér ei verdug laun, eptir nád þinni minnstú mín, minníngin lifir í mér þín.

33. Á nád legg eg nú Lausnarans, lífid mitt er í valdi hans, gædi kan þín hefir grát minn stillt, Gud! far þú med mig sem þú vilt.

34. Honum einum eg hef mig geymt, hans nád hefir mér ecki gleymt; raungódur, sem mér sjest nú hjá, sálu minni mest lliggur á.

35. Líssins vaxtinn mér lagdir þann, lifaudi Anda heilagann, signetid það med sanri list, setur á hjartad Jesúm Krist.

36. En hvar Jesús í brjósti býr, býr þar hans náð og elskan dýr, synda qvittan og miskun manns, mitt líf það er í valdi hans.

37. Eg treysti Gudi uppá ell, ord hans og held þau minn grundvell, jörd og himnar forgánga greidt, en Guds ord skeikar ecki neitt.

38. Eg vil í Drottni sofna sætt, sam vitsku strítid allt er bætt, dauda-haldi eg Drottinn Krist, týrstur géf þú mér eilíft líf.

39. Qved eg í Gudi gódaun lýd, gledilegar þeim nætur býd, þackandi ellum þeirra styrk, þjónustu, hjálp og kjærleiks verk.

40. Ástkjæra þá eg eptir skil, ofhendá sjálfum Gudi vil; andvarpid sjer hann sárt og heitt, segja þarf honum ecki neitt.

41. Unni hann ydur kjærleiks koss, qvitt á hann einn ad skilja oss, géf þú það, Jesú Kristi kjær! kátir hjá þér ad finnumst vær.

42. Hlýdni alla og þolid þýdt, það vilti Gud mér hardla blídt, géfi mig qvittañ Gud og menn, grátbæni eg þess af hjarta einn.

43. Lúinn anda eg legg nú af, lífinu rádi sá, sem gaf, í sárum Jesú mig sætt innvef, sálu mína eg Gudi géf.

44. Láttu mig, Drottinn! lofa þig, með lofi þínu hvíla mig, ljósið í þínu ljósi sjá, lofa þig strax, sem vakna má.

45. Láttu mig færa fram þau hljóð, fyrst og seinast, minn Drottinn Guð! að lofa þig í heiðri hár, haldist þín dýrð um eilíf ár!

## Um sælu Himnaríkis.

Lagið: Mikilli farsæld mætir sá.

Upp, upp mín sál! og ferðumst fús, friðarins borg að ná, þar unúnarsamleg eru hús, æskileg Guði hjá, þar sáluhjálp án enda er, án dauða líf eilíft, án hrigðar gleðin aldrei þver, ángri þar verður svipt, án mirkra ljósið aldrei dvín, eilífur gleðidagur skín, veikleiki, ótti, vÿl né þrá, verður ei nockur þar, harmurinn enginn mæða má, mein eckért snertir par, géfi' oss að ödlast gleði þá, Guð Drottiñ allsherjar.

2. Maður enginn hér mæla slíkt, meta né skynja kann, hvað fagnaðar-líf er farsælligt, friðum í himna-rann; Herrann vor Kristur sú er sól, sem að oss forklárar, ljómum þar fyrir lambsins stól, líka sem stjörnurnar; augnanna sífelldt er þar lyst, álíta Herrann Jesúm Krist, eyrun vor

heyra ætíd fá, ylmandi raddirnar, sætur hljodfæra-saungur sá, sífelldlega hljómar, gladir æ sýngjum gefgun há, Gudi til eilífdar.

3. Þar er prísud í þeirri borg, þrenníngin guddóms há, hennar um gjørvell heyrist torg, hljód-fegur Musicá, þar er án elli æskan hrein, án veiki heilsan klár, þar snertir ei hid minnsta mein, mann neinn um eilíf ár, allri Drottins med Englahird, útvaldir búa í þeirri dýrd, hverrar gledinnar yndid er, augliti Guds ad sjá, ódaudlegleika íklædder, og eilífri birtu há, kórónur þeirra hefir hverr, hefdum gullegar á.

4. O! hvad farsæl ad er sú tíd, þá erum komnir þar, og eptir lidna heimsins hríd, heitum Guds borgarar, frá allri mædu eymd og þrá, erum þá loksins frí, heidur, dýrd, gledi hljómar þá, himnesku landi í; æ hvad fagnadar vegsemd vor, vera mun háleitlega stór, þá Endurlausnarinn afhendir, ástkjærum Fødur oss; fadminn á móti blídt breidir, býdur framm ástar-koss, hrigd og mæda þá horfin er, hørmúng og tára-foss.

5. Heilagann selskap hefum þar, himneskum Gudi med, forfedur, Spámenn full-

gloggt vær, fáum þar alla sjeð, æskilegustu umgengni, einnig þeim hefum hjá; sífellda elsku og samþyckí, sýna hverr ødrum má, ásamt ókénndum ellum gloggt, ástmenn vora vér fáum þeckt, frændur og vinir sinnast þá, fagnaði meður þar, blómleg og svo með blíðu sjá, børnin sín foreldrar, fagnaðar verður fundur sá, fremur enn mann skynjar.

6. Þessi að eðlast gæðin góð, géf þú mér, Drottinn minn! fyrir þíns Sonar blessað blóð, bænheyrðu þrælinn þinn; þegar heiminum frá eg fer, frels mig af andarpín, skrýð mína sál í himna her, Herra! með blóði þín, að eg útvøldum ellum með, eilífar þackir fái téð, andlit þitt blíða unn þú mér, alvaldur Guð! að sjá, einnig að búa um alder, eilífar sjálfum hjá, svo eg án enda sýngi þér, Sanctus og Gloriá.

# Þridji Parturinn

inniheldur

## ýmislega Qvedlinga

til

Gudræknis ydkunar og sidbóta.

## Fyrsti Flockur

i hverjum finnast

nockrir andríkir og gudrækilegir

Qvedlingar.

### Sumar=vísa,

qvedin árid 1657.

Lagid: Lofid Gud, lofid hann hverr sem kann.

Vetrar tíd, víst er umlidin nú, farsæl, blíd, blessunarfull var sú; Drottinn veitti lýdum lid, umládid og grædi, heilsu, frelsi, fædu, frid, flest nádar gædi; menn og hjörd máttu ei neina, af lopti og jörd, landplágu reyna; þackargjörd, því skulum greina,

ástar lystilegum hug: lofadur hafi gefid ofs Gud, gáfurnar sínar! lofadur hafi gefid ofs Gud, gáfurnar sínar!

2. Vedur mjúk, von manna framar þó, engin sjúk, allsjaldan frost eda snjó, reyndi kindin raunar nein, rétt má svo inna, hverki hørku mun né mein, máttum því finna, þarfleg nægd, því var á fódri, skjól og hægd, skepnunni módri, þessa vægd, þøckum vér gódri, miskun ferskri Drottins dátt, hafi nú lof og heidur Gud, á himni og jerdu, hafi nú lof og heidur Gud, á himni og jerdu.

3. Sjónum af, abla og fiski-plóg, Herrann gaf, hverjum, svo dugdi nóg, vodinn brádur vinds og unns, vard engum skjædur, stýrdi ferd til sands og sunds, sá ellu rædur; um vora sveit, sóttin allfærsta, þad eg veit, þjád hefir nærsta, mjúk og heit, miskunin stærsta, Drottins, veitti ofs værd og vörd; helgum, prísum, heidrum Gud, med hjarta og sálu, helgum, prísum, heidrum Gud, med hjarta og sálu.

4. Hverr fær tjád, talid og reiknad greidt, svoddan nád, sem ofs féck Drottinn veitt, stundleg, andleg gædin gód, gáfurnar flestar, af Fødur blídum þádi þjód, þær

allra bestar; kynníng hans, klárt ordid sanna, fridinn lands, farsældir manna, andskotans, ákéfd réd banna, engin þvingan lúdi lýd; lofadur sé vor ljúfi Gud, fyrir lánid sitt góda! lofadur sé vor ljúfi Gud, fyrir lánid sitt góda!

## Mismunur Vetars og Súmars.

Lagid: O Jesú! edla blómi.

Kominn er veturinn kaldi, kastar ad margri hríd, af Drottins vísdóms valdi, veslast sú ársins tíd; sæl geymir sól ljóma, svolþrumir kul-hami, jel-remum sjol-sima syrna ernin stríd.

2. Grund frýs, en grasid dosnar, gripina vantar skjól, bersnöggir standa stosnar, styrdnar lim, skóginn kól; smár fuglinn þreyr þegli, þver hygli, dýr ragla, ber segl frá byr-trýglum, blandid rinda-hjól.

3. Skerp frostin skémta eigi, sképnan hver ber sig lítt, snjór hylur vída vegi, villist því margur tídt; klædlausir fredfrusu, frid-hreisi naud kjósa; ad húsum séd flasar, sælist kulid strídt.

4. En þegar vorar aptur, uppgengur sólin skjær, ollu nýr eblist kraptur, annad

bragð loptið fær; føld hýrnar fold forna, fylld' kjarna mold styrðnuð, sýld meyrna fjalðernuð, svellin fjellum nær.

5. Fuglar úr fylsnum hreifast, féð drífur húsum frá, dýrin um skóga dreifast, dag saman fjelga þá; menn hýrást, en ærin enn heyrist, grannfærum, hlunn-jórum, hrenn báru, hrindir sundið á.

6. Döggina drífa lætur, Drottinn á kaldann snjó, verkar svo mildi-mætur, moldin þurr verður frjó; glis skógar, gras haga, glas-fögur rós þæga, rís, þegar rásdrjúga, raka þokan bjó.

7. Frostið þó fargi gróða, frjófgast samt uppá ný. fræfornsins sjá menn sjóða, sín geyma blómstrin fái; krapt fróni ljúst lénar, lopt skinið drift hreina, gæft duna, svipt sjónum, sjetnuð vatna ský.

8. Sumarsins blómina sæli, sýnir oss Drottins mátt, vetur þó kaldur kjæli, korn, jerð, gras, fræið smátt; árstíðin úr sæði, ør gæði hýr leiðir; frjór lýður fær Guði, friðann heiður þrátt.

Ungmenna Morgun-bæn.

Í Þínu nafni uppvaknaður,
Er eg, Jesú Guð og maður!

Lof sé þér fyrir líf og gæði,
Líkamans heilsu föt og fæði,
Og allt það þín óþreytt mildi,
Aumum mér til-leggja vildi;
Bið eg þig, minn blíði Herra!
Blessun þína ei lát þverra,
Hegdun minni á hverjum degi,
Haldtu' á sennúm dygða vegi,
Lát mig njóta úngdóms ára,
Er þú barst í manndóm klára;
Géf uppfræði æsku mína,
Andi þinn fyrir verkun sína,
Svo í ótta og elsku þinni,
Avöxt góðaun færa kynni.
Hlýðni, trygð og trúna bjarta,
Tendra og nær í mínu hjarta,
Að mér svo með aldri hrennum,
Aukist náð hjá Guði og mönnum.
Heims og Satans hreckja snerum,
Hrind frá mér, svo ei óverum,
Mig ógjætinn í sér festi,
Eður dragi' í synd og lesti.
Vernda mig frá voða öllum,
Vondum dauða og slísa-föllum;
Englar þínir að mér gæti,
Engum svo eg meiðslum mæti.
Mitt verklag og miskun þína,

Mér lát vera unun mína;
Auk mér skilníng orda þinna,
Eru þau lampi fóta minna.
Séf mér jafnan gott ad læra,
Gódlyndum vid alla vera,
Varfærum í velgengninni,
Vongódum þó raunir finni.
Ljúsi Jesú! med lífi og öndu,
Legg eg mig í þínar hendur;
Þar vil eg fús ad lyktum lenda,
Lofadur sértú utan enda!

Ungmenna Qvöld-bæn

Nú vil eg enn í nafni þínu,
Nádugi Gud! sem léttir pínu,
Mér ad minni hvíln halla,
Og heidra þig fyrir gædsku alla,
Þáda af þér á þessum degi,
Því er skyldt eg gleymi eigi;
En þad má eg aumur játa,
Angri vafinn sýta og gráta:
Módgad hef eg margfaldlega
Mildi þína guddómlega.
Utslétt mínar syndir svartar,
Sundurkramid lækna hjarta,
Afþvegid í ædsta skódi,

Endurlausnarans Jesú blóði,
Svo eg qvittur sofi' í friði,
Sál og líf af Engla liði
Umkríngð, Satans íllsku hrecki,
Ogn og slægðir finni ecki.
Blessa hús og hvílu mína,
Hjástoð lát mig merkja þína,
Þá mun aðsókn íllra anda,
Ei hið minnsta kunna' að granda.
Lát mig þenkja' á þessu qvøðí.
Það: eg lifi' í veiku holdi;
Brothætt gler og bélan þunna,
Brotna snart og hjaðna kunna.
Þú, einn Guð! skalt þar um ráða,
Þínar knýj eg á dýr náðar,
Af míns hjartans innsta grunni,
Andvarpa og bið með munni:
Þegar eg skal seinast sofna,
Sál viðskilur, fjer mitt dofnar,
Hjartans Faðir! í hendur þínar,
Hverfa lát þá endu mína;
Hold í jerðu hægt lát blunda,
Helgra þar svo bíði funda,
Og upprisinn að eg víki,
Inn með þér í himnaríki.
Þar mun eg þúsund þackir færa.
Þér sé lofgjerð, prís og æra!

## Hugbót,

á húsin brúnnu í Saurbæ 1662.

Lagid: O Fadir minn! eg þrællinn þinn.

Gud er minn Gud, þó geysi naud, og gángi þanninn yfir, sorgja skal spart, þó mista' eg margt, máttugur Herrann lifir; af hjarta nú, og hreinnri trú, til hans skal eg mér venda; nafn Drottinn sætt, fær bølid bætt, blessad sé þad án enda.

2. Gaf mér hans náð, gott lucku ráð, ad gledinnar eldðist kraptur, frjálst á hann þá, og fullvel má, frá mér taka þad aptur, hans hjálpin blíd, á hverri tíd, huggun vyrdist mér senda; nafn Drottins sætt, fær bølid bætt, blessad sé þad án enda.

3. Tók ei djøfull, né tefra-full tilviljun burt eign mína; sá, sem þad gaf, svipti því af, sorgin skal øll því dvína, mitt bætir ráð, med mildi og náð, hans miskun þúsund-kénnda; nafn Drottins sætt, fær bølid bætt, blessad sé þad án enda.

4. Gud elskar þann, sem hirtir hann, hesi' eg þá trúna vissa, vil eg med hind, vesæl barnkind, á vend Fedursins kyssa, heilsu, lán, fæd og heidur med, hans náð

vil eg afhenda; nafn Drottins sætt fær belið bætt, blessað sé það án enda.

5. Af mér þó féð og auðlegð með, óðum svo gánga megi, grátbæni eg nú, góði Jesú! gleymdu mér þó aldreji! lát mig hjá þér, þá héðan fer, í himna sælu lenda; nafn Drottins sætt fær belið bætt, blessað sé það án enda.

## Iðrunar-vísur.

Með sinu lagi.

Guð á himnum hjálpi mér, og huggi sálu mína, særðanu huga sorgin sker, syndir hjartað pína, þúngan qvíða brjóstið ber, berst við þánka sína, mæðist hold en lengist líf, lángvesælt er harma kíf, ei vill ángur dvína.

2. Laungum gjera mér lángsamt géð, liðnar æfi-tíðir, helzt ur seint eg hefi það sjeð, hefndum sálin qvíðir, dauðans ógn og ótti með, opt á holdið stríðir, hugraun sú er hardla sár, himna Faðirinn dýrðar klár, bæti bolið um síðir.

3. Gétinn var eg í sekt og synd, svo mig móðirin færði, eptir fornri Adams mynd, eins og Davíð ræddi; því er sálin sjúk og

blind, sorgin hjartad mæddi, holds náttúran heimsk og villt, herfilega med ellu spillt, í vondsku áfram æddi.

4. Snemma hefir bernskan bleckt, barndóms hug og sinni, ádur fyrri' en fékk þad þeckt, frá því skíra kynni, ad styggja Gud en sasna sekt, sálu' ad glata minni, var hid fyrsta verkid mitt; voldugt, Jesú! nafnid þitt, bót á bölinu vinni.

5. Lengi hefir þó leitast vid, líknar Fadirinn mildi, ad leida mig frá lasta sid, svo lífid odlast skyldi, med þolinmædi' og blídri bid, bjarga mér hann vildi; en eg sló því ellu' í vind, elskan holds og dárleg synd, heimsku hjartad fylldi.

6. Illa hefir mig holdid ginnt, og heimsins lystin bráda; Satan sló mér svika-mynt, sjest nú fátt til ráda, því er hjartad bleckt og blindt, þad bid eg Gud ad náda; þreji' eg vid þann hrigdar hag, harmar bædi nótt og dag, sálin þrautum þjáda.

7. Gud minn hefi' eg raunar reitt, til reidi' og heiptar brædi, hans milda nád og þolgéd þreytt, med þrjótsku' og synda ædi, grimma'yfir mig glœtun leidt, gamall og úngur bædi, samvitskan því særd er mín, sæti Jesú! gædskan þín, hana huggi' og grædi.

8. Um síðir þó eg setji mér, synda girnd að deyða, holds náttúran þrjótsk og þver, þángað vill mig leiða, sem tíðast áður tamdi' hún sér, á tepunar veginn breida; viljinn ecki fær sig frí, fjötrum dauðans vessst eg í, sárlega mig þó meiða.

9. Hverki ber eg til hug né dáð, hjálp mér sjálfum veita, einkis nýt eru ell mín ráð, þó ætti' eg þeirra' að neyta; Jesús miñ hefir nóga náð, nú vil eg þángað leita, hann mun aumur á mér sjá, efllaust fæ eg huggun þá, sem bölinu kann að breyta.

10. Þó stærri vyrdist misgjörð mín, enn má eg sjálfur greina, mér er, Jesú! miskun þín, mildust, gæðsku hreina, hjá þér aldrei hjálpin dvín, helzt mun eg þá reyna, hér við hresfist hjartað mitt, heilagasta blóðið þitt, lækníng minna meina.

11. Þó gengið hafi' eg glæpa stig, gálaus mörgu sinni, elskað hold en hatað þig, af heimsku' og ofdyrfð minni, góði Jesú! minnst' á mig, í miskunsemi þinni; særð og lemstrað sálin er, sýndu vægð og linkind mér, svo hjartað huggun finni.

12. Mig hefir djöfull sárum sært, og svikið af lífsins vegi, kránka sál úr klæðum fært,

hún kann sér bjarga eigi, öllum krapti tapad og tært, tjón þad mest eg segi; ó þú sæti Samaritan! sjádu' aumur á þeirri smán, svo eg ei útaf deyi.

13. Góðsi því eg þrádi þrátt, af þinni gædsku hendi, íllsku girndin eyddi brádt, aptur drafid sendi, hef' eg lengi húngra mátt, heim nú loksins vendi, taktú vid mér útlegd' úr, eins og fadirinn hjarta-trúr, í brjósti' um barn sitt kénndi.

14 Lakna fyri þinn dýrann deyd, Drottinn! sálu mína; sárleg synda sjúturin greid, svo finni' eg huggun þína, viltann saud á veginn leid, varginn lát ei pína, opna hug og hjartad mitt, svo heilagt nádar ljósid þitt, skært megi þar skína.

15. Hjá Fødur þínum legg mér lid, Lausnarinn Jesú gódi! svo eg finni sátt og frid, sviptur þúngum módi, audmjúklega eg um þad bid, af ást og tára-flódi, segdú: eg sé ordinn einn, af øllum syndum klár og hreinn, þvegin í þínu blódi.

16. Framdar syndir forlát mér, Fadirinn dýrdar sæli! fyrir dýrstann Jesú dreira hér, af deprum hug' eg mæli: kastadú ei frá augum þér, ómaklegum þræli! eldú

líf með ást og dáð, svo aldrei mig frá þinni náð, freisting nockur fæli.

17 A fyrirheitin heileg þín, af hjartans grunni' eg treysti, frá djøfli, synd og sárri pín, Son þinn kjær mig leysti, með beiskri qvøl og blóði sín, barn sitt fallið reisti, Herra Guð! mér hjálpa þú, svo haldist eg við rétta trú, þó frekt mín Satan freisti.

18 Heilags Anda hjálpin þýð, hug og sinni geymi, svo aldrei héðanaf íllsku stríð, yfir mig syndin sveimi, þá dapur nálgast dauðans tíð, Drottinn sálu geymi; veiti mér þín líknin lið, leið í eilífann dýrðar frið, héðan úr þessum heimi.

19. Allar skepnur alla tíð, af øllum hug' og rómi, sýngi þér lof, sem verold er víð, voldugur Drottinn frómi, Jesú Kristi þeckin þýð, þar með fegur hljómi, heilegum Anda' á himni' og láð, fyri huggun, styrk og líknar ráð, aukist æra' og sómi!

### Vísa drótt=qveðin.

Hverr græðir hjartans qvída?
Hverr kjætti menn grætta?
Hverr sótt hindrar hætta?

Hverr ſnaudann vann dauda?
Jeſús huggar, hrigd lógar.
Hann grædди ſorgmædda.
Hann líſi heilſu géfur.
Hann ſnaudann vann dauda.

## Annar Flockur

innihelдur

Heilrædi og Uppvakníngar

til

kriſtilegs framferдis,

ſýnir einnig hverſu fallvalt og litilsverдt ſé

Heimſins ágæti og yfirlæti.

### Heilrædi.

Ungum er þad allra beſt, ad óttaſt Gud ſinn Herra, þeim mun vitſkan veitaſt meſt, og vyrдíng ecki þverra.

2. Hafдú hverki hád né ſpott, hugſa' um rædu mína, elſka Gud og gjørдú gott, geym vel æru þína.

3. Foreldrum þínum þéna af dygð, það má gæfu veita, varast þeim að veita styggð, viljir þú gott barn heita.

4. Hugsa um það helzt og fremst, sem heiðurinn má næra, aldrei sá til æru kémst, sem eckért gott vill læra.

5. Lærdur er í lyndi glaður, lof ber hann hjá þjóðum, hinn er ei nema hálfur maður, sem hafnar siðum góðum.

6. Opt er sá í orðum nýtur, sem ydkar mentun kjæra; en þussinn heimskur þegja hlýtur, sem þrjótskast við að læra.

7. Vertú dyggur, trúr og tryggur, túngu geymdú þína, við engann styggur, né í orðum hriggur; athuga ræðu mína.

8. Lítillátur, ljúfur, kátur, leik þér ei úr máta; varastú spjátur, hæðni, hlátur, heimskir menn svo láta.

9. Víst ávalt þeim vana haldt, vinna lesa, yðja; umfram allt þú ætíð skalt, elska Guð og biðja.

## Vísur um Lúthers Fræði.

Klár Lútherí Fræðin fróðir,
Finna kunna menn hér sett á íslenzkt mál,
Lesið, prísið lýðir góðir,

Lærid, heyrid, gjörid rétt og sedjid sál;
Ljúfra gjafa njótid, neytid,
Nádar tídir kanniſt vid,
Drottins lítillátir leitid,
Lotníng veitid,
Bidjid Gud um gódann frid.

2. Bædi medur munni' og penna,
Meſt á ſídſta aldar keldum tíma' og ſtad,
Menn vel ſviunir kunna' ad kénna,
Koma heimi ſkyldug gjöld, ef forſmá'r' þad;
Ordid dýrdar dádum prýdum,
Dyggar leggjum þackir mét,
Þeim, er ſóma ſædum frídum,
Sádu tídum,
Sprettur gott af gódri rót.

## Kriſtins manns athæfi.

Sérhvad hefir ſína tíd, ſvo er ad hlæa og gráta,
hóf er beſt ad hafa' á öllum máta.

Finn eg þad í frædi hreinu, frródir menn ſem töludu' um, ecki ſkédur allt í einu, ýms-um ſkiptir tímunum, á ſtedugu' ecki ſtend-ur neinu, ſtundleg ſorg og luckan blíd. Sérhvad hefir ſína tíd. Eins fyrir mann' og menja reinu, margt kann á ad

bjáta. Hóf er best að hafa' á øllum máta.

2. Þess áttú með greind að gæta, gángi þér vel með settann hag, þú kunnt eðru máské mæta, á morgun, heldur enn var í dag, tvennt hefir til að gledja' og græta, guddóms maktar hendin þýð. S. h. s. t. Tjáir engum þess að þræta, það er auð-ráðin gáta. H. e. b. a. h. á. ø. m.

3. Tregast ei þá ersiðt veitir, einhvern tíma sorgin dvín, svo náttúran sjálf því breytir, sólin eptir regnið skín. Guð þeim øllum huggun heitir, hér sem líða forløg stríð. S. h. s. t. Til ervæntíngar þig ei þreytir, þó þú megir gráta. H. e. b. a. h. á. ø. m.

4. Vertú' hógrær þá vel þér gengur, svo veraldin þig blecki sízt, á augabragði allt forgengur, auðnu lán, þá hjólið snýst, velgengninnar steckur strengur, stundum minnst þá varir lýð. S. h. s. t. Hind-ra jafnan horskur drengur, holdið sig að státa. H. e. b. a. h. á. ø. m.

5. Guði' er best að trúa, treysta og taka því vel að hendum ber, vér skulum ecki freckt á freista, að fylgja því, sem holdið lér, guðhræðslunnar nærir neista, náðin

Drottins gædsku þýð. Sérhvað hefir sína tíð. Sá oss hefir af lestum leysta, hann leidi hriggva og káta. Hóf er best að hafa' á øllum máta.

## V a r h y g ð.

Auðtrúa þú aldrei sért,
Aldrei tala' um hug þinn þvert;
Það má kalla hyggins hátt,
Að heyra margt, en skrafa fátt.
Tak þitt æ í tíma ráð,
Tókst, þó ei sé lundin bráð;
Vin þinn skaltú velja þér,
Sem vitur og þar með tryggur er.

## O f o g v a n.

Sitt er við oft hætt, ef augun líta gullbaug,
Ef hendin og hugarlund, horfa uppá sitt vald.
Hittist varla hóf rétt, þá hlaupið er í
gum=kaup,
Séldur þess galið hold, að glisi verður
opt slis.

2. Hitt er van opt hætt, að una ei við
lítinn mun,
Egna til sín ógagn, og eyr gulli vyrða meir;

Slisinn þykir lánlaus, þá líður hann sitt
egið stríð;
Ríkum opt í raun rak, ræktarleysið fátækt.

## Gott og Illt.

Gott er að geyma sitt, og géta prófað rétt hóf, vera or og vel spar, og veita engum rángsleit, dælt þykir egið allt, ondvegis í sjálfs hönd, djarfur hver af skiptum skérf, skjóta finnur hugbót.

2. Illt er að sjá sult, á sínum, þá braud dvín, letin víst ef út át, áður gésið forráð, líka þykir ljótt ok, að láta út fyrir dryckju-stát, endilega er leið lund, þá lángar einn á húsgáng.

3. Gott er að greina satt, og géfa þjáðum heil ráð, skamta niður skémt það, er skéður ecki spott með, hollustu hönd full, hærstri gengur dygð nærst, unna þeim sem á mann, eina prísa' eg þá grein.

4. Illt er á óheilt, að eggja þann, eg ráðlegg, lastanna er lygð verst, þó lýðir vyrði gaman-smíð: kjæsir gleði kránkt líf, kastar heillum bak-last. Dreissið með sér dregur hlass, af dygðalausri ótrygð.

5. Gott er ad geyma sátt, í Gudi hafa fognud, þola bædi og þreja vel, þeckja sinn eginn fleck, heilsa og hend frjáls, heitir besta þad eg veit, lítillæti lund kát, líka er haldin dygd rík.

6. Illt er hatur óstillt, óttaleg mun hugar sótt, þúngt eg held ad þola rángt, þjáníng gjörir forsmán; vonda kalla eg vél synd, vamm kémur spott framm, plága mun og písl nóg, ad pínast fyrir verk sín.

## Tvø Vers *).

Lagid: Ølbúngar Súda annars dags.

Gud nádi nú hvad gengur tregt, geysar rángl ætid heldur frekt, á vøltu hjóll heimurinn er, hnignandi fer, til falls med øllu flýtir sér.

2. Øll manna hugsan, hjarta' og géd, hnígur til þess ad girnast féd, ýmisleg hegdan ørg og ljót, en ei finnst bót, hefud mun því koma hørd á mót.

*) Fyrra versid finnst í einu Exemplari þad 29da, en hid sídara þad 34da í Psálminum: Géf eg mig allann á Guds míns nád: en ønnur sex Exemplør útiláta þau.

### V í s a.

Fyrnist heimur, fáheyrt fædur,
Frelsarinn Jesús geymi' oss vel!
Hans híngadkoma Guds børn gledur,
Þó græti þar til sorgar-el,
En þá verda' úti ell óvedur,
Í hendur Guds eg kristna fel.

### Hexametrum.

Holdid ofkátt veit fyrifram fátt hvad
falla mun þægra,
Reidir sig þrátt á megn sitt og mátt eda
mannordid frægra;
Ostyrilátt, þad ætlar sér hátt ad endíngu
dægra;
Sá er vid gátt, þó sjáist ei brádt, sem
setur þad lægra.

### Hexametrum.

Ord ódum spillist, uggleysinu dárlega fyllist,
Glæpa vegur gyllist, girnd holdsins marg-
ur adhyllist.

## Um misjafnt hamíngju lán.

Lagid: Opt vindar eik þjá.

Barna lund blind fædd, vid brjóstin móður kúra, æsku- stund ómædd, fyrir engu kann ad stúra, en þad mund algædd, er mannsins náttúra, skammt mun til skúra.

2. Einn ef kémst hér hátt, og hyggur sér til kjæti, á þá skémst addrátt, eitthvad þad menn græti, hjartad kremst, hvarf brádt, helzt er þókti mæti, allt eptirlæti.

3. Glíann reis grá hardt, gnap þá stormur hrylltí, öldu geys grimmt margt, glæstum reida spillti, þessi eys, en snart, önnur rúmid fyllti, og bátnum bilti.

4. Skér, ad ljær, skín sól, skírt ad morgun kosti, um adra grær, eikt ból, yrju daggar rosti, sídan slær, heims hjól, hvestur gustar losti, med feikna frosti.

5. Því er allt í heimi, ef svo mætti greina, nærsta valt, þad heim, þykir víst, er reyna, á hlidum hallt hálft tveim, hjólid lukku teina, fer braut ei beina.

## Veraldar Kláttskapur.

Sama lag.

Svo sem gler, sýnist mér, sælan hál, veraldar, hvikul hér, hvad lítst þér? hvítt ad

ofan faldar, undir ber, ef þú sjer, íllsku brúnir kaldar, og táli tjaldar.

2. Margann hátt, hún þrátt, hóf í yfirlæti, luckan kátt, lék dátt, litla stund med kjæti, sjód vid gátt, sljód slátt, felldi þann úr sæti, frá mestu mæti.

3. Alits fríd, fræg blíd, fyrst hún mergum reyniſt, heimskum lýd, hæg þýd, hitt þó undir meiniſt, slúngin stríd, slæg-smíd, slóttug rétt svo greiniſt, brádt burtu leyniſt.

4. Luckan hál, heims prjál, hold og blódid káta, flædar-bál, frekt brjál, framm úr réttum máta, þad er tál, svíkur sál, um sídir kann ad láta, sárt suma gráta.

5. Vid leigu-ból, láns-stól, líkist heimsins sæla, ókyrrt hjól, ragl, ról, reykjar dupt og svæla, glislegt hól, gabb-tól, ginnir Mammons þræla: hverr má því hæla?

6. Daudleg mind, mannkind, moldar leirinn veikur, beina-grind, blásin vind, bóla vatns og reykur, hladin synd, lauslynd, sem logi skrá-þurr qveikur, á þrædi líf leikur.

7. Holdid bjart, ber skart, bædi gull og klædi, en þú vart, óþarst, ádur rotid sædi, verdur snart, veik art, vesælt madka fædi, sem ell endar gædi.

8. Volsid hér, valt er, ef viltu rétt ad grunda, lísid þver, fljótt fer, fræktin oll til hunda, kistu hrer, kropp ber, kaldan út med skunda, opt innan stundar.

9. Illum sid sjá vid, sannra leita dáda; hógvært lid fær frid, sem flýr til Drottins náda, stunda grid, Gud bid, ad geyma sálu þjáda; gjæt gódra ráda.

### Heims ósómi.

Sama lag.

Hverfa happs tímar, hofud sundlar qvilla, glossa gnaps brímar, gét eg sjónir villa, svipan straffs stímar, stjarnan spá mun fylla, og athæfid ílla.

2. O! ad tár ákef, af augum jafnan rinni, eda nár í gref, indi, ad hvílu sinni, synda sár upphef, sálu ógna minni, ef kannast vid kynni.

3. Agirnd grá æddi, yfir fjellin háu, ótrú flá flæddi, á fróns hálsana smáu, þrjótskan þrá þræddi, þad nær blindir sáu, þar lægdir lágu.

4. Vitsku vakt sofnar, veraldar bjallan klíngir, drottna makt dofnar, dala klukkan hríngir, stóra prakt stofnar, sá stimpla málminn pýngir, því margt ad þýngir.

5. Orð Herrans aktast, í allt of litlu gyldi, hverúð manns maktast, meir enn vera skyldi, synda sans fraktast, frón og hérud fylldi, tráts=viljinn tryldi.

6. Von er því, von er, verdi Gud að hefna, hætta ný nú hér, nærri vill oss stefna, frá eg sný, fjær ser, framar meir að nefna, rek rauna efna.

Veröldinni tildruckið.

Vond ertú, veröld! með véla=brögdin margföld, þeir fá sjaldan góð gjöld, sem géfa sig á þín höld; þú ristir einum spott=spjöld, og spéar hann uppí hávöld; múta, flærð og mein köld, markað er á þinn skjöld.

2. Þeim, sem þú ert bráð blíð, býr þar undir hel=stríð, hvergi muntú heil=smíð, þó haldin værir dáfríð; vondsku þinnar ver hríð, vestnandi fer ætíð, sá þitt varast sárt níð, sælann tel eg þann lýð.

Hversu fánýt sé fordildin.

Folnar fold, fyrnist allt og mæðist, hold er mold, hverju sem það klæðist.

Sú er raun það sannast víða, svikul og velt er heimsins blíða, í spakmálum lærðra

lýda, lengi þar um rædist. Hold er mold, hverju, sem það klædist.

2. Hugsa' eg opt í hyggju brunni, af hverju menn sig stæra kunni, þó er það næsta' í náttúrunni, ad nakinn sérhverr fædist. H. e m. h. s. þ. k.

3. Fordild öll hún flýr úr huga, þá feigdin mann vill yfirbuga, lítid stackar dockn duga, þá daudinn inn ad lædist. H. e. m. h. s. þ. k.

4. Hvad gyldir þó ríkur rambi, regist vid og standi á þambi, engin er svo dygur í drambi, ad daudinn nockurn hrædist. H. e. m. h. s. þ. k.

5. Þó á þér skíni' útlendsk draktin, yfirlætis og vitsku praktin; trú þú mér ad minkar maktin, af mødkunum þá snædist. H. e. m. h. s. þ. k.

6. Adur enn (kannské) úti'er nóttin, af þeim tekur ad draga þróttinn, kémur þá bædi qveisa' og sóttin, qvillinn fár ei grædist. H. e. m. h. s. þ. k.

7. Þó stundum gángi þeir stockum búnir, á stigvélum séu sporar snúnir, út vid grafar backans brúnir, bein leid øllum þrædist. H. e. m. h. s. þ. k.

8. Silfur-pör og dýrir dúkar, danskur fjöll og treyur mjúkar, að sálunni lítið seinna hjúkar, þá sorgar-hitinn græðist. H. e. m. h. s. þ. k.

9. Þó hygginn sért og hæg-lundaður, hafðú ráð mín, kristinn maður! hér er svo valtur heimsins staður, hinn fær gott er mæðist. Jörð er mold, hverju, sem það klæðist.

## Um ágirnd og aura safn.

Mig ángrar margt hvað manns athæfið, hvernig heimi' er háttað, hef' eg vel sjeð.

Öldin ódum spillist, ósið margur hyllist, af réttum vegi villist, von þó hjartað qvillist, heimur af hreckjum fyllist, hægt mun ecki að dylja það. Mig ángrar margt hvað. Synd og gótzið gyllist, svo géti' menn eignast sjeð. Hversu heimi' er háttað, það hef' eg vel sjeð.

2. Upphaf allra klækja, er ágirnd fast að rækja, aura safnið sækja, sitt frá hverjum krækja, leg með limsku flækja, lagsmenn sína mest hún bað. M. á. m. h. Djund og ofstækja, af því vaxa réð. H. h. e. h. þ. h. e. v. s.

3. Hvar sem ad húsrúm tekur, heimsku og blindleik vekur, blessun í burtu rekur, búinn er skadinn frekur, trygd og hógværd hrekur, heimtist fals í þeirra stad. M. á. m. h. Illu sá mun sekur, sem slíku umgengst med. H. h. e. h. Þ. h. e. v. s.

4. Hún lét hrecki drjúga, híngad í landid fljúga, volada kann ad kúga, krapt úr beinum sjúga; fagra Mammons múga, margur sína blessun qvad. M. á. m. h. Seims er sefnud hrúga, sálin legd í ved. H. h. e. h. Þ. h. e. v. s.

5. Aumt er yfir ad klaga, er þad hvers manns saga, setníng lands og laga, láta peníng naga; mútur málin draga, meinlaus fellur opt fyri þad. M. á. m. h. Víst um vora daga, veit eg ad þvílíkt hefir skéd. H. h. e. h. Þ. h. e. v. s.

6. Fleirstar dygdir falla, finnst kjærleikur varla, sannleik hygg eg halla, hrørnar manndád snjalla; trú er farin til fjalla, fær nú ecki' í bygdum stad. M. á. m. h. Ágirnd nærsta alla, á annad fellir knéd. H. h. e. h. Þ. h. e. v. s.

7. Mammon magtar snaudur, mjeg er hjálpar traudur, burt er brjálid og

audur, þá búkurinn liggur daudur, leirinn rótast raudur, ríkis-kroppnum utan ad. M. á. m. h. Fæst fyri fremd og haudur, fánýtt moldar bed. H. h. e. h. Þ. h. e. v. s.

8. Viti virdar og qvendi, von er ad heimurinn endi, sjá til ad sálin lendi, um sídir í Drottins hendi; opt þad efnid kénndi, einn sá þessa vísu qvad. Mig ángrar margt hvad. Þaunkum þángad renndi, því ber sturlad géd. Hversu heimi' er háttad, þad hef' eg vel sied.

## Ofl á t ú n g a l ý s í n g.

Heims af keim, hygg eg nockud inna, hvad margur heldur mikid af sér, misjafnt þó ad reynist hér, þad er madur þó hann láti minna.

Margt býr stundum mér í sinni, menn tegar ad stollta sje, og volsa mikid í veröldinni, enn vita hverki A né B, sídur þó í samvitskunni sjálfa skynjar þad þeim ber; þó margur haldi mikid af sér, flesta ad einum ber þá brunni, er brjálid uppá finna. Þad er madur þó hann láti minna.

2. Margur blessast maður á láði, af miskun Guðs og veraldar auð, hina aðra þrautin þjáði, sem þverra náði daglegt brauð, þriðji hópur þá forsmáði, þenkti hverki á deyð né féð. M. h. m. a. s. Að því seinna ecki gáði, að æfin mundi linna. Þ. e. m. þ. h. l. m.

3. Þegar þeir fara öls með æður—yfirmenn stundum þetta skér—skrum að tala og skémmdar-ræður, skémtan þeirra þvílík er, um eldsins þenkja ecki glæður, sem óguðlegum hefndir lér. M. h. m. a. s. Gætum að því, góðir bræður! Guð mun' vitja sinna. Þ. e. m. þ. h. l. m.

4. Kunni þér að mæta maður, mjeg velbúinn sjer þú hann, heiðurlega handtéraður, hvergi sástu þvílíkann, hans er allur gjarða-glaður, glóandi með orma-skér. M. h. m. a. s. Einnig sjálfur alreimaður, upp með böndum tvinna. Þ. e. m. þ. h. l. m.

5. Ber á hendum breytta handska, buxur sernar klæddur á, með knappa', treyu og kjólinn franska, klæðin trúi' eg hylji sá, sjest um hálsinn silkið danska, svarðar Heimdals lagður der. M. h. m. a. s. Með stígvél bæði' og spora spanska, spennir út kálfa stinna. Þ. e. m. þ. h. l. m.

6. Rú-kragann med rembi-læti, reira þeir um sinn dygra háls, máské sumir menn þess gæti, hann mundi ecki betur enn frjáls, á þeim eru haldin mestu mæti, sem misjafnt qvísa þar og hér. M. h. m. a. s. Dremb-inn rambar í sínu sæti, ad sonnu kann ei hlynna. Þ. e m. Þ. h. l. m.

7. Hárid ofan á herdar bustar, hér med kampa' og skéggid sídt, sis af fot-um dregur og dustar, med dávænt belti og handgull nýtt, þenna landsins þenk-ir Fursta, þjódin hver, sem nálæg er. M. h. m. a. s. Slíkann skyldi' eg reikna rusta, ef reyndi hann nockur hinna. Þ. e. m. Þ. h. l. m.

8. Heldur enn eigi hnacka-kértur, hond-um stíngur mjadmir á, nockud líka nasa-spertur, naud má þykja slíkt ad sjá; sá mún þykja ad skyni skérdtur, skrumar um fróm-ann hjersa-grér. M. h. m. a. s. Af ó-trúleika undirsergtur, eda bregdum hvinna. Þ. e. m. Þ. h. l. m.

9. J bádum vesum glymur gjaldid, gyllt-ir húsar og tóbaks dós, þeir ætla sér muni vera' í valdi, verøldin øll og hennar ljós; sitja í hvítu silki-tjaldi, sorg þeim engin nærri ser. M. h. m. a. s. Fyrir dyr-

unum stendur daudinu kaldi, drengínn hyggst
ad finna. Þ. e. m. Þ. h. l. m.

10. Eg á nóga upp til sveita, aura, seg-
ir hann, þar og þar, smjerin, krof og katla
ueyta, í kistum silfur hér og hvar, uxa,
saudi' og fáka feita, sái húskinn þá af mér.
M. h. m. a. s. Eg þarf ei eptir láni' ad
leita hjá lokum búdar. stinna. Þ. e. m.
Þ. h. l. m.

11. Ef erfátækur ad honum kémur, aud-
ar-lundur vitsku-dýr, sem ætíd sína túngu
temur, á tignar-hót og málin skír, og miklu
fleiri mentir fremur, mann-vits gódur
náms um skér. M. h. m. a. s. Hinn
þá hvergi nidri nemur, ef nockurt svar
skal inna. Þ. e. m. Þ. h. l. m.

12. Ef spyr þú hann ad einu ordi, upp
ad hressa gédid þitt, sé þad nockur sálar
fordi, samvitskunni ad auka fridt, þá er líkt
sem skolliun skordi, skilníng hans og minnis-
kér, M. h. m. a. s. Hann leitadi síst
ad líffins bordi, um leugd lífdaga finna.
Þ. e. m. Þ. h. l. m.

13. Adur enn (kannské) úti er nóttin,
innan lítils tíma þá, dauda kémnr sorgleg
sóttin, sorgar-elid þá vid brá, samvitskunn-
ar þvíngar þróttinn, þreyngir, særir, nagar,

skér. M. h. m. a. s. Ecki er hægur undan⸗flóttinn, ef orku bilar stinna. Þ. e. m. Þ. h. l. m.

14, Þá er horfid stollts og státid, sturl⸗ast sinni' og hjarta⸗géd, sjodar ei þó géti grátid, Guds ef ecki er andinn med; þá vill keira í þrauta máiid, þjófurinn gamli Lucifer. M. h. m. a. s. Vildi' hann hafa' af lestum látid, um lengd daganna sinna. Þ. e. m. Þ. h. l. m.

15 Reidi Guds ad ofan' ædir, ósted⸗vanleg (gjætum þess), Satan klagar, synd⸗in hrædir, samvitskan er mjøg óhreſs; ára fjeldinn eldinn glædir, og uppsperrir sjónar⸗gler. M. h. m. a. s. Hvert skal flýa? hvad þá grædir? hverr kann bót á vinna? Þ. e. m. Þ. h. l. m.

16. Aptur vil eg mér ansa sjálfur: hinn ounni hvergi flýa kann, þó heimsins leiti' um allar álfur, engann finnur hjálpar mañ, sé hann þá, sem kusi' eda kálfur, ad kalla á þann, sem bjargir lér. M. h. m. a. s. Ecki er þetta orda gjálfur, þad athugi þjód⸗in svinna. Þad fer betur, þó þeir létu minna.

17. Eg er sekur í ellu þessu, og edru fleiru þúsúndfaldt, en er þó samt med hjarta

hreſsu, því Herrann Jeſús grœddi það allt. Hann keypti mig frá qvalanna preſsu, og koſtadi þar til ſjálfum ſér, ſvo hald' eg minna' af ſjálfum mér. Set eg upp mína ſigur=meſsu, er Satan kannei h'ynna. Það fer betur þó þeir láti minna.

18. Vertú mér til hægri handar, hjart=kjæraſti Jeſú minn! ad burtdríſiſt íllir and=ar, ofan í neðſta búſtad ſinn; ſvik, er djöfull ſamanblandar, ſetjiſt hans í qverka kér. M. h. m. a. ſ. Engin mér þá eymdin grandar, ef eg þig má ſinna. Þ. f. b. þ. þ. l. m.

19. Sú lítillætis rótin rétta, af rekum gódum komin er, hjá Matthæó vér meg=um frétta, málsgrein þá, ſem ſtendur hér, í ellefta er tjád þetta, einka rád þau nýt=um vér. M. h. m. a. ſ. Angri þúngu af vill létta, ef þeim gjerum ſinna. Þ. f. b. þ. þ. l. m.

20. J Guds naſni allirſaman, ad oſs gætum fyrr og ſíd, hér er ecki' á gángi gam=an, góda miſsum ecki tíd, en hefum Jeſúm fyri framan, freiſtíng þá ad hendum ber. M. h. m. a. ſ. Sig venji hverr á tryggd=ir tamann, tállauſt honum ſinna. Þ. f. b. þ. þ. l. m.

21. Eg frátek alla fróma sveina, fólkid gott og heidurs menn, sem óttast Gud og elska' hans hreina, ordid, trú og sannleikann, veri' hann þeirra verndin eina, og voldugt skjól í rauna hver. Þeir mundu halda minna af sér. Til hinna annara manna' eg meina, sem misjafnlega sig kynna. Þad fer betur þó þeir láti minna.

22. Bid eg gjæda þýdar þjódir, þyckjast ecki qvædid vid, heldur vildi heidurs bródir, hlýda fródum ráda sid, vitsku horskir, gladir, gódir, gleymi slæmu; tíminn þver! Margur heldur mikid af sér. Færum dýrar fridar slódir, enn fordumst gjerdir hinna, sem lærdu offeint ad láta nockud minna.

Ur Látínu útlagt *).

Minnstú ad gá ef hefd þín er há, ad haldir hid rétta,

*) *Vir videas, quid tu jubeas, dum magnus haberis.*

Vel þó um sjá, hvern viltú fersi[illegible], eda
ryr:íngu fletta.
Luckan mjög dá, kann lædast þér frá, þad
lát þig ei pretta,
Þykistú slá, svo þenk þar uppá ad þú meg-
ir detta.

### Enn úr Lát[illegible] útlagt.

Stund er sú seinasta, ill og óhreinasta,
oss ber ad vaka.
Reiknast, sem ókominn, réttláti dómarinn,
reikníng ad taka.
Ókominn! ókominn! ad afmá rángindin,
en jesúnd krýna:
Umbúna réttindin, reka burt ill-syndin,
ríkid sitt léna.

---

*Prospicius, quem despicias, quem læ-*
*dere quæris.*
*Dat varias fortuna vias, nil ergo*
*mireris,*
*Sed metuas, ne forte ruas, dum stare*
*videris.*

## Um mannsins fallvalta líf.

Lagid: Uppá fjallid Jesús vendi.

Mannsins stuttur er, eg inni, andardráttur í nesuuum, snegglega trú' eg lífid linni, sem laufid fellur af gresunum, lítid sálu líknar þinni. Þó liggi féd í kesunum.

2. Eins og hevid fellt í flecki, feluar upp í múgunum, dofuar hold þá dettur af becki, í dep:um andar kúgunum, daudinn géfur gaum ad ecki, þó gullid liggi í hrúgunum.

3. Augabragdi einu skédur, umbreytíng á vistunum, fyrir mjúka sæng fæst moldar bedur, minnstum gjer af listunum, lítid sálu grætta gledur, þó gullid liggi í kistunum.

4. Vér skulum ecki vereld freista, ad voga allt, sem djarflegast, íllra girnda alinn neista, útsleckum sem snarlegast, á sannann Jesúm Son Guds treysta, sálunni er þarflegast.

## Flærdar Senna.

Lagid: Ad ydka gott med æru.

Annars erindi rekur, úlfur og laungum sannast þad, lætst margur lofords frekur,

lítt verður úr þá herdt er að; meðan slær orð við eyra, er þér kjær vinur að heyra, sértú fjær, svo er það ekki meira.

2. Slíkt er hyggindi haldin, hofdíngs-skapur og mentin prúð, veraldin falsi faldin, fóðrar sinn kjól með skolla-húð; lærð er á limsku beglur, leynt sér hjá, fann þær reglur, sem kettur sá, er kreppir að hvass-ar neglur.

3. Opt er fagurt í eyra, alþýðu lof af hræsni veitt, hinum, er á það heyra, heims-ur þykir, sem kálfskinn eitt; í augun greið hlæa' og hlacka, hrósa' um leið, bitja' og þacka, búin er sneið, þá snúa þeir við þér hnacka.

4. Heimskur er sá, sem heldur, hvers manns loforð, sem fullgjert sé, einfaldur opt þess géldur, alvöru meinar það hinum er spé: trygða gjøld táls með korni, tempr-ast køld, nema við sporni, vinur í qvøld, en vélar þig strax að morgni.

5. Heimurinn hreckjafulli, handverk þetta mest brúkar nú, að fóðra eyr með gulli, útgengur honum myntin sú; orða-glens ei þarf kaupa, allir léns með það hlaupa, kossa-flens, kalsa, ljúga' og raupa.

6. Sá hefir best úr býtum, sem báð gêtur að sínu einn, frjáls af limskunnar lýtum, lifir og deyr svo hjartahreinn; tryggðum víst vél nú farga, veröld snýst; hverr vill bjarga? ráð er fízt, að reida sig uppá marga.

## Aldarhátturr.

með stuttum Skýríngum.

Aður á tíðum var tíðska hjá lýðum (svo tryggordir kénndu), frá barndómi blíðum, með fremdar-hag fríðum, að frægðum sér vendu; af streng-boga stríðum, í hárs eldar hríðum 1), þeir herskeytin sendu, eða á mar víðum, skérvallar skíðum 2), til skémtunar rendu.

1) Hár, Odinn; hans eldur, sverð; þess eldar hríðir, bardagar. 2) Skérvollur, sjór; þess vallar skíð, skip.

2. Manndómur mundi, þar sveinar á sundi, sóktust af afli; einn sat í lundi hjá litfegrir sprundi og lék sér að tafli, hinn þar við undi, sem hátt knettur hrundi eða handsaxa kasti 1); lof þeim að dundi, sem frægð bar af fundi, með sann-deigus-kasti 2).

1) Kasli, þar um var haldið hendinni. 2) Deig-ull eða dígull, er eld-panna; dígulsins eða deiglunnar sannskasl, er gullið.

3. Verfákum 1) vendum, með bifrokn-um brendum 2), þeir bægðu frá láði; byr saung í bendum, á brimvallar grendum 3), þá beittu við gráði; geir rumdi í rendum, þar rík þjóð í lendum, ríta-jel 4) háði; gnótt var í hendum, gékk li- af strendum, með gló-kraka sáði.

1) Ver, veiðislaða; item: sjór; hans Fákar, skip. 2) Bif, vatn eða sjór; bifroknir brandar, árar. 3) Brimvállar grandar, bylgjur, sjór. 4) Rítar, skildir; ríta-jel, bardagar.

4. Ý 1) bendum skutu, en álmdrésir 2) þutu, í andfari þunnu; burstengur brutu, en hátt skildir hrutu, þar herfákar runnu; benfossar flutu, en lágt hinir lutu, sem lítt verjast kunnu; sæmdar ráð hlutu, og síns afla nutu, þeir sigurinn unnu.

1) Ý, boga. Álmur, bogi; hans drósir, örvar.

5. Armi hverttveggjum á lids-handar-leggjum þeir ljós mundar 1) hreifa; gladt skein á seggjum, með geimfoldar negg-

jum 2), svo gramis-runnar 3) leyfa; dígulfarms dreggjum á val-borgar veggjum 4) vildu menn dreifa, í ángantýrs hreggjum 5) undateins eggjum ótrándir veifa.

1) Mund, hönd; hennar ljós, fingur-gull. 2) Negg, hjarta; Foldar-negg, steinn, Gem-negg foldar, er gimsteinn. 3) Grams-runni eda runi, hirdmadur. 4) Valborg, er hönd; hennar veggir, fíngurnir, á hverjar menn vildu dreifa Dígulfarms dreggjum eda gullinu. 5) Angantýr, Odins heiti, vegna mjúklátrar þjónustu er hann veitti konu sinni Friggs; hans hregg, bardagar.

6 Ósæmdir bidu, þeir ofríki lidu og ecki sín hefndu; djarfir fram ridu í dyn skoglar hvidu 1) og drengskapinn efndu; troll-marir 2) fridu ad unda-sílgs 3) idu, þá odda-þíng stefndu; lítt fyri gidu né sár þó þeim svidu til sorgmála nefndu.

1) Dyn, dunur; Skaugul, valkyrja; hennar hvida, bardagi. 2) Troll-marir, vargar; Mar, hestur. 3) Unda-silgur; blód. Skáldid segir: ad vargarnir hafi sókt í blód-fossa iduna, hvar bardaginn var áttur.

7. Spakvitrir spádu, þeir gjerla margs gádu og gleggskygnir váru, kjænt nidurkljádu, þá kíf-þrætur hádu, úr kapp-nálum skáru; trygga sig tjádu, en tálid forsmádu, því trútt hjarta báru; meir gáfu' enn þádu og því vída nádu, þjódræmi kláru.

8. Ísland má sanna, þad átti vel manna þá allt stód í blóma; g'æ sóktu hranna 1) til ríkra Kóngs ranna, vel reyndir ad sóma; ýmus-leiks anna 2) þeir ým 3) þordu kanna, sem yrki 4) forn róma, ilþorns 5) og tanna, óx ædi vargauna, þar einn beitti skjóma.

1) Glær hrannar, sjór. 2) Anna, bardagi. 3) Ým, hljód, gný, þad er: þeir gomlu menn þorðu ad kanna edur heyra vopnabrak, sem skédi i bardagans ammriki. — 4) Yrki, eru qvædi. 5) Il-þorn, klær. Skáldid segir: þegar einn beitti skjóma (sverdi) i bardaganum, óx ædi klónna og tanna varganna, sem væntu sér brádar.

9. Þeir báru hjálma og mjeg drifna málma mardallar gráti 1); brjóst fleinar 2) fálma, í sár-elda 3) sálma fram sóktu med gáti; spor mistar skálma 4) og spjor-

flugur tálma, spreytínga státi; valjardir
jálma 5), vid uppdregna álma, svo allt
var á bjáti.

1) Mardaull, kallast Freyas; hennar grát-
ur, gull. 2) Fleinar, allskonar skotvopn.
3) Sár-eldar, sverd; þess sálmur, bar-
daginn. 4) Mist, Valkyrja; hennar
skálma spor, sárin, hvered ásamt Spjor-
flugunum, skotvopnum, vóru nœm og vid-
qvœm spreytínga státi. 5) Val-jardir, hönd-
urnar, á hverjum valurinn sat; jálma, þ.
e. hrištust med nockurskonar þyti.

10 Land legum verdu, þeir viktug ráb
gjørdu, svo vandrædin bættu; fyrr frelsi
fjørdu, enn sofnis skrid-jørdu 1), þó flest
kostar ættu; gédi þá hørdu var hótad
einørdu, med hugprýdi mættu; manndád
ei spør'du vid nýta seims njørdu, ef nærri
lá hættu.

1) Sofnis skrid-jord, gull.

11. Nú er old snúin, á adra leid búin,
þar yfir má klaga; frækleikur lúinn af landi
burtflúinn, því lída menn baga; reksemd-
in rúin, sjest rír vina trúin og rekin úr
haga; ágirnd framknúin, en grær lasta-
grúinn, flest gengur aflaga.

12. Ungdómsins ædi, þó ádur fyrr stædi til afreka hárra, losti, sjálfrædi, leti, svefn bædi, þad lítst þeim nú skárra; vits kulnar sædi, á vinds hirjar svædi 1), því veldur géd þrárra; ad lesa góð frædi og læra sidgædi, er lunderni fárra.

1) Þad er: í huganum.

13. Dug lægir beima 1), sem faldbúin feima 2), vid fletin sér halda; beiti-lúng geima 3), er bannad ad sveyma um bláröstu 4) kalda; menn má nú dreyma, til sørva blik-seima 5), en sjálfir þó valda; hugprúdir heima, þeir hardsengi gleyma vid hlackar rof-tjalda 6).

1) Beimur, karlmadur. 2) Feima, óframfærin qvennmadur. 5) Lúngur, er hestur; Geimur, sjór; Beiti-lúngur geima, skip, hverju beitt verdur til og frá um sjóinn. 4) Bláröst, sjór. 5). Sørvar, þýdir hér: fjølda; Blik-seimur, glansandi audæfi. 6) Hlöck, Valkyrja; hennar Tjalda-rof, strid, í hverju brynjur slitna.

14. Nockrir ef þræda um fáks rákir flæda til fremdar hags-bóta: frest-skuldir fæda, því fé lítid græda má fordildin ljóta; raup-yrdin ræda, þó rír sé ástæda, því

reynslan vill þrjóta; ný breytni klæda, en kléna sidgjæda, þeir kynníngu hljóta.

15. Svo þverra listir, því mjeg eru mistir þeir mentirnar auki; menn sitja twistir og bragdhnígnir bistir í búsorgar hnauki; allt eins og gvistir af hretvidri hristir á hrá- vidar lauki; margur því gistir, þær veraldar vistir þó výlmódur þrauki.

16. Kostir sjást farnir, þar fólknár- úngarnir 1) þeim framandi hlýda; túks- brædur svarnir og glismála gjarnir, svo gjerast nú vída; Fenju drag- qvarnir 2), í fémútu sparnir, um farveginn stríða; innlendir barnir, þó engar fá varnir, þeir ofríki lída.

1) Fólknárúngar, það eru hofdíngjar, sem ega ad næra og fóstra fólkid og hina undirgéfnu; þeir — segir Skáldid — ordnir séu

2) Fenju drag-qvarnir; það er ágjarnir, dragandi saman hvad sémætt er: eins og qvernin Grotti, er þær systur Fenja og Menja drógu.

17. Afburdir þrjóta til hraustlyndis hóta í huzmódi sveina; skút-yrdum skjóta og rógs- málum róta, það rokfemdir meina; hrak- spárnar hrjóta, þeir hvert ødrum blóta,

en hinn grípur steina; fjörlausnar fóta, þá fýsir að njóta, ef framar skal reyna.

18. Rauparinn telur þær vígs allar vélur, sem veit hann sér granda; á orðum hrafn elur, sem gráð-soltinn gélur við gný þrumu randa; hræðslan þá qvelur, ef kocks hnífa-grélur þeim koma til handa; í nærstu hljóp selur, sem nót flýi selur og niðri héldt anda.

19. Mannkosta lægðir, en lastanna nægðir í landinu spretta; út gengu frægðir þar inn komu slægðir og athafnir pretta; náskyldir, mægðir, með róg eru rægðir, svo reynst hefir þetta; litlar fást hægðir, en það væri þægðir, ef því vildi létta.

20. Horfist til baga, þar yfirmenn aga, þeim óhlýðnu spara; múturnar draga sér liðsinni laga, þó leynt egi fara; ágirndin raga, kann allteins að klaga og einnig forsvara; til og frá slaga, tálbregðum haga, því taktú þér vara.

21. Hverr vildi greina, það allt efni meina, sem áfalla náði? hljóðt margir qveina, en hjá sér þó leyna, sem hugboðið tjáði. Innbúa steina 1), skal braut snúa beina að byr-hvedru-gráði, sundferjan seina, þó átti grér eina, að óðstedvar láði.

1) Innbúa steina, dverganna; Sundsarjan, skáldskapurinn, skal snúa beina braut í byr=grádi Hvedrn, trollkonu hugànum, ad ládi ódstodvar; þvi ódurinn skal nema stadar ad Þagnar ládi.

22. Margt mætti henda, sá vill hug' til venda og vidkannast nædi, efni bágenda, sem oss gjörir benda og ablar nú mædi. Aldarhátt kénnda í sýn margra senda, má segja vandrædi. Fleirst tekur enda, eg læt þar vid lenda og lykta svo qvædi.

## Vísa.

Mundu þig, madur! í Mundo,
 Mundus svik býr undir,
Mundu ad sjá vid Mundo,
 Því Mundus prettar stundum.
Mundu þig fyrir Mundo,
 Mundus er hreckja=lundur.
Mundu ad komast frá Mundo,
 Mundus á Drottins fundi.

---

# Pridji Flockur

innihelldur

Luckuóskir, Utfararminningar,

og annad smávegis.

## Luckuósk og Heilrædi

til

*Hra.* Sigurdar Jónssonar,

nýordins Lögmanns sunnan og austan á Islandi.

Lagid: Uppá fjallid Jesús vendi.

Almáttugur Gud þín gæti og gési þér heilags Anda nád, í Dómara svo þú sitjir sæti, med sæmd og æru, prís og dád, um fyrir öllum ávalt bæti, úrlausn þín og heilnæm rád.

2. Þeir undanfornu allir benda, eptir þeim, sem lifa nú; menn kann alla mannlegt henda, med því vís er reglan sú; vid daudans púnkt mun loksins lenda, líka hinn, sem eg og þú.

3. O minn bródir! ad því gættu, ótta Drottins halldt þér vid, djarflega aldrei á

heiminn hættu, heldur hann sínum gamla sid, víst þad allir vita mættu, hann veltist stjótt á ýmsa hlid.

4. Hafdu Gud í huga' og minni, hafdu Gud fyrir augum þér, hugsadu' um Gud í hverju sinni, heyrir Gud og til þín sjer; vyrdtú Gud í valdstjórn þinni, vittu' ad hann þinn Herra er.

5. Hærstum Fødur og Syninum sæla, samt heiløgum Anda med, lof þeim allir lýdir mæla, ljúft af øllum túngum ted, tign hans allir helgir hæla, hann fáum vér sídar sjed.

## Nýárs-ósk

til

## Orms Vigfússonar

og konu hans

## Gudrídar Arnadóttur.

Lagid: I þinni ógnar brædi.

Sælir í sønnum Gudi! sælir í Guds føgnudi! sælir í sannri trú! sælir og sviptir vanda! sælir í heiløgum Anda! sælir í sjálfum Jesú!

2. Sæll, vinur! sæmdar frómi, sæll í þeim aldurdómi, sem Gud gaf sælann þér!

sæll bædi úti og inni, á lífi og sálu þinni, ætíd í heimi hér!

3. Sæl sé þín kjæra qvinna, komin til ára finna, húsprýdi heidurleg! þid blessun bædi hljótid, bestu farsældar njótid, ætíd á allann veg!

4. Sjáid þá sælu hreiná, sem eg kann best ad greina, ydur afhendist vel; Jesús, þad barnid blída, burttekur sorg og qvída, hann er Immanúel.

5. Þennann elskid og unnid, allra best, sem kunnid, bædi þid, heidurs hjón! honum af hjarta fagnid, hagqvæma lofgjørd magnid, sem Anna' og Símeon.

6. Jeg bid: ad Jesú fridur, jafnan stadfestist ydur, eptirkomandi ár, med allskyns æru, séma, ástar Guds Fedurs ljóma, svo tendrist trúin klár.

7. Ønd, lífid, sál og sinni, sumt lán, heilsa og inni, forsjá Guds falid sé; einnig þín ekta-qvinna, med ástvina flocki hinna, og allt ykkar afqvæme.

8. Sæl lifid, sæl hér þreyid, sæl hédan lokfins deyid, sæl verdi sálin þá! sæl í þeim sælu blóma, sæl í himneskum ljóma, sæl ætíd, Amen! já!

---

Hýr sé blaðinn ærur,
Horskur lundur lífs um stundir,
Sem haninn fidri sinn,
Frægð, nægð, auðar hægðum.
Kristur með kjærleik bestum,
Klár á nýu árí,
Sendi' ydur sannleiks anda,
Sá skartar best í hjarta.

## Erfi=Ljóð

sem Skáldið qvað eptir únga Dóttur sína

*STEINUNNI.*

Lagið: Koníng David, sem kénndi.

Sælar þær sálir eru, sem hér nú skiljast við, frá holdsins hrigdar veru, og heimsins geldum sið, hvílast í himna frið, þar, sem með sætum hljóðum, sýngur lof Drottni góðum, lofsamlegt Engla lið.

2. Tign, æru, sæmd og sóma, sálir Guðs barna fá, sem ljósar stjernur ljóma, lambsins stóli hjá, ávalt Guðs auglit sjá, með hvítum skrúða skrýddar, skarti réttlætis prýddar, sorg allri svíptar frá.

3. Englanna hirdin hreina, heidrar Guð nótt sem dag, sálirnar sýngja og

greina, Sanctus med fegursta lag, í lystugum lífsins hag, holtid sig medan hvílir, hondin Drottins því skýlir, sjer enganu sorgar plag.

4. I þenna flockinn fróma, flutt varstú, barn-kind mín, himneskum hafin sóma, hvlist nú sálin þín, ljómar þar skært og skín, í fadmi Jesú frídum, fagnandi ellum tídum, dý.din sú aldrei dvín.

5. Nú er þér aptur goldid, ánarid, sem barstú mest, þegar þitt hrjádist holdid, hátt þú stundir og grést, gésin er gledin best, hafin úr hrigd og módi, hreinsud med Jesú blódi, synd engin á þér sjest.

6. Unun var augum mínum, ávalt ad líta á þig, med úngdóms ástum þínum, ætíd þú gladdir mig, rétt yndis elskulig, audsve'p, af hjarta hlýdug, í hardri sótt vel lídug, sem jafnan sýndi sig.

7. Næm, skynsöm ljúf í lyndi, lífs medan varstú hér, eptir'æti og yndi, æ:íd hafdi' eg af þér, í minni muntú mér; þ.í mun eg þig med tárum, þreja af huga sárum, heim til þess hédann fer.

8. Mín gledi er sú eina, andlát þitt hugsa' eg á, þú hafdir málid hreina, hér med vit alls ad gá, skammt til þess líf

leid frá, breiddir út hendur báðar, baudst þig til Jesú náðar, qvadst vilja koma þá.

9. Litla stund stód í hæsi, stundadi fegnudinn, hálft fjérda' ár var æfi, eigi þó fullkomin, skjótt sá eg skilnad þinn; geymir sál þína fætur, signadur Drottinn mætur, fyrir Jesúm Soninn sinn.

10. Hvílist nú holdid únga, af harmi og sorgum mædt, svipt öllum sóttar þúnga, svo er þér nú óhætt, Dóttir mín! bel er bætt, frjáls vid synd, fár og dauda, fyrir Jesú blódid rauda, sefur í Drottni sætt.

Lagid: Dagur í austri öllum.

Nú ertú leidd, mín ljúfa! lysti-gard Drottins í, þar áttú hvíld ad hafa, hermúnga' og rauna frí; vid Gud þú mátt nú mæla, miklu fegri enn sól, unan og eilíf sæla, er þín hjá lambsins stól.

2. Jeg ann þér svoddan sælu, ad sjá þitt gledi-vín, hédan úr eymda pælu, eg kém þar senn til þín; ó hvad sætir samfundir, sedja þá ockar géd, um eilífar æfistundir, ad lifa Drottni med!

3. Dóttir í dýrdar hendi, Drottins mín! sofdu vært, hann, sem þér huggun

sendi, hann elskar þig svo kjært, þú lifdir gódum Gudi, í Gudi sofnadir þú; í eilífum andar friti, ætíd sæl lifdu nú!

## Utfarar Minníng

sáluga Lögmannsins

## Arna Oddssonar,

sem deydi ad Leirá í Borgarfirdi, þann 10da Marts 1665.

Lagid: Dagur í austri öllum.

Ó! hvad aumleg úrrædi, er þetta veika líf! fallvalt og fánýtt bædi, fullt med sorg, eymd og kíf, í vþli, voki' og qvída, veiklast hér mannlegt hold, æfin svo loks má lída, líkaminn verdur ad mold.

2. Daudinn er dapurlegur, sem Davíd og Jósúa tér, allur eins veraldar vegur, víst því ad æfin hver, hann gánga Herrar, sveinar, hefdíngjar, almúgenn, qvinnur, sem meyar klénar, Kóngar og undirmenn.

3. Því verdi þann veginn þraunga, víkja Guds bornin trú, þau hradast hættu enga, huggun þeirra er sú: heljar brodd braut og eydti, beiskleik öllum daudans, Jesús og lýd sinn leiddi, til lífsins úr valdi hans.

4. Hverki þarf hel né dauða, hræðast rétt• trúuð önd, kénnir ei qvala né nauða, komin í Drottins hend; sæng er góð greidt til búin, grefin með jorðu skyld, líkaminn þreyttur og lúinn, leggst þar í mjúka hvíld.

5. Þess vegna í Gudi gladur, géck til síns hvíldar ranns, Arni Oddsson Lögmadur, austann og sunnann lands; hold hans sætlega sefur, í sællrar upprísu von, frelsud sál fegnud hefir, í frid hjá lambs• ins trón.

6. Sælann má hann því sanna, í sæl• unnar reynslu þar, á landi lifandi manna, í lysting Guds ásýndar. Í Abrahams skauti skjæru, skínandi fegurdar glans, í himneskum heidri og æru, í hend mildri Skaparans.

7. Hann hefur rennt og runnid, rétt vel med allri dád, himnaríki áunnid, eflaust fyrir Jesú nád, yfir því fagna eigum, af ást og trú til sanns, samt þó hér sakna megum, sællrar umgengni hans.

8. Heims af erfidi mæddur, aldurdóms þúnga med, heilags Anda gjef gjæddur, Guds ríki stunda réd; ár þrjú og sjötíu innum, æfin hans var því nær (mælti líkt mörgum sinuum, við Mósen Drottinn kjær).

9. Ljúfur í Lögmanns dæmi, lifdi hér dygda klár, med heidri og hefda næmi, heil tvo og þrjátíu' ár; sjálfur sig þar frá sagdi, í sínum aldurdóm, ærlega' svo af þad lagdi, ad allra lands-manna róm.

10. Hafi nockurr mátt heita, hefdíngl um þetta land, ef vildum ad því leita, eptir Herra Gudbrand, ad hógværd og hjarta trygdum, honum ei fremri sjest, hugprýdi, dád og dygdum, Drottins ótta þó mest.

11. Þegar frá æsku árum, ord Drottins stunda vann, med sæmd og sóma klárum, sýndi ávext gódann, bóklegar listir lærdi (lofsverd sú mentin er), med ydni þær allvel nærdi, utanlands bædi' og hér.

12. Med gégnd og gódri stilli, géck þad fremdar upphaf, hálærdra manna hylli, honum því Drottinn gaf, allt fram til elli-tídar. álit bar hefdínglegt, hér um land og vísi vídar, vard kunn hans æra' og spekt.

13. Sannleikans gjarnan gádi, med Guddrækni's hreinum sid, stedugur standa nádi, stadfast réttdæmi vid, hól, mútur, hræsni, smjadur, hvecki þádi né gaf, Herra hefdíngs lundadur, helzt bar því mørgum af.

14 Hann var heimilis mönnum, hógvær og stilltur mest, góðgjarn nærsta nágrönnum, nauðstöddum reyndist best, ættrækinn, ölmusasamur, aumum, sem þurftu við, gestrisinn, fremda framur, fátækum sýndi lið.

15 Höfðíngleg úti' og inni, athöfn og stjórn hans var, með lyst og ljúfu sinni; lángt þó af öllum bar, góðhrein Guðhræðslan sanna, greina þar sátt um má, hvað álit mátti manna, merkja, reyna og sjá.

16. Frjádag hvern fasta náði, Föstunnar alla tíð, líkamann þar með þjáði, það var hans venja fríð: með bæn og grátnu geði, Guðs Sonar pínu' og deyð, um þenkja' og yðka réði, allt um þess dagsins skeið.

17 Fimta frjádag eg nefni, Föstunnar svo til bar, sam t hans yðkunar efni, og áður fyrri var, í kirkju' að vanda vænum, veik um dags verðar stund, með blessun, lofgjörð og bænum, af blíðri ástar lund.

18. Ljúfur að liðnum degi, til laugar gánga réð, að gjörðri bæn, sem eg segi, salli umþenkíng með, hvar hann svo stundu síðar, sofnaður í Guði fannst, hérvistar termín tíðar, talið ei lengur vannst.

19. Sett hafdi sínar hendur, sér fyrir andlit þá; grunlaus því gáta stendur, gjerla það skilja má: ad með bænagjerd blídri, burt er sofnadur sætt, daudans ángurs ógn strídri, engri því hefir mætt.

20. Laugadur lambsins blódi, laug helgrar skírnar í, af synd, sorg, sút og módi, sannlega klár og frí; í varmri vatnslaug einni, vard úr heims tára-dal, snjóhvítur leiddur hreinni, í himneskann dýrdar sal.

21. Mikid — það má eg segja — misti vor nálæg sveit, margir þess vegna þreja, þennann um bygdar reit, flestir hins sama sakna, sunnan- (það veit eg) lands, kinnur, brár, regni rakna, rædt þá verdur til hans.

22. Huggi hans heidurs qvinnu, heilagur Andi best, og börnin sæmdar svinnu, sorgandi eptir mest; Drottinn böl allra bæti, bid eg líka um þad: í Guds ótta sérhverr gæti, gjörníngum Herrans ad.

23. Island! þér ætlar ad hnigna, eru þar merki til, manndygd og dugur vill digna, dofna því laganna skil; Gud gæfi' ad þú nú þeckir — þad ósk er hjarta míns — fyrr enn hefnd stærri hneckir, hvad heyrir til fridar þíns!

24. Oss géf, Guð! af að þreja, allar hörmúngar nú, síðan sofna og deya, sætlega' í réttri trú, svo hverr fagnandi finni, frændur og vini'ígjen, hjá hægri hendi þinni, Herra Jesús! Amen!

## Utfarar minníng.

Lögréttumannsins

### Arna Gíslasonar,

sem deiði að Ytrahólmi á Akranesi, hann 4ða Októbr. 1654.

Lagið: Koníng David, sem kénndi.

Auvej! þær ángurs tíðir, aukast á margann hátt, guðhræddir landsins lýðir, lofsverðir fækka þrátt, nú bjóða góða nátt; þar um má eg ei þegja, það mér leyfist að segja, af veikum viljans mátt.

2. Herrann þá hærstur vildi, hefnast Gyðíngum á, sagðist hann sjálfur skyldi, svipta þeim burtu frá — sem hér vel merkja má — hefðíngjum heiðurs gjörnum, hygnum, vel máli förnum, en heimskum lands forráð fá.

3. Mig uggir hjá oss heima, hótan sú egi nær, hverr þar vill gloggt að geyma,

gjørla þad ſkynjad fær, dæmin ei finnaſt fjær, eitt árid eptir annad, er ſlíkt med reynſlu ſannad, fróma menn feigdin ſlær.

4. Naudſyn er ei eg uefni, nÿ burtu-farna menn, því ſvoddan ſorgar-efni, ſann-lega munu enn, mørgum í minni ſenn; Drottinn þad bolid bæti, bygd vora aptur kjæti, þó þorſiſt á þormúng tvenn.

5. Eitt má ei undan líða, ſem eykur gledi tjón, nafnkunnur veit eg vída, var hér um Íslands frón, ſæll Arni Gíſlaſon, hédan frá heim kalladur, hvílíſt í Drottni gladur, vid holds uppriſu von.

6. Hann þó nú hédan leiddiſt, hverr viſſ þar ſturlaſt vid? heimſins armæda eyddiſt, aptur tók himna frid og eilíf andar grid, hróſandi ſigri ſætum, ſýngur med rómi mæt-um, vid Lauſnarans hægri hlid.

7. En uppá þad vér ſøknum, allmargir bygda hans, hér med í hjarta klecknum, hugſandi rétt til ſanns, um ſtand vors auma lands, af því ei kunnum láta, andvarpa þúngt og gráta, dauda þeſs Drottins manns.

8. Hvad hann var hugvits ríkur, hverr er ſá, þad ei veit? hverr hittiſt honum lík-ur, hér nú um vora ſveit, þó gjord ſé á lengri leit? hollrádur, hreinlundadur, hóg-

vær, mannljúfur, glaður, athefn sú øll er neyt.

9. Hneprýði hafði rétta, hefðings sinni' og géð, einneginn umfram þetta, nunt var honum og léð, það hef' eg heyrt og sjeð, orða Drottins aðgætsla, alvarleg, senn guðhræðsla og margar dygdir með.

10. Aldrei fyrir veltum auði, áhyggju þúnga bar, mergum þó býtti brauði, blessan þess meiri var, yfir hans øllum þar, umdæmi øðrum herri, sem ábatann gáfu stærri, aktaði ekki par.

11. Naumtstaddra nauðsyn bætti, nær svo að hendum bar, eckjum, sem ángrið grætti, opt var í feðurs stað, sannprófað segi' eg það, ófreyttur gott þeim gérði, þó gætu' ei launað með verði; eg má meðkénna það.

12. Kinstórann einn má kalla, qveð eg það rétt til sanns, þó hér nú þurfi varla, þann telja ættar krans, hefðíngjar vóru hans, Afi og einnig Faðir, æruverðugir báðir, Løgmenn tveir sunnanlands.

13. Í ótta Guðs uppfræddur, einninn bóklegri ment, mál', vitsku' og minni gæddur, sem mest er til lærdóms hendt, túngumál tvisvar tvennt, skírlega kunni' að skil-

ja, skal eg þess ecki dylja, af Gudi var gjøf sú ljent *).

15. Oflofad mætti meinast, mørgum, sem heyra kann, ef skyldi allt þad greinast, sem eg þó skynja vann, um þennann elsku-mann, eflaust má svoddan sanna-sveitin Akraness manna og þeir, sem þecktu hann.

16. Hvad marga hrjáda og hruma, hann nærdi optsinnes, fyri Guds nád grædi suma, géta verdur og þess, veitti þeim sæng og sess; þeir, sem vid vilja vakna, verda þrí-líks ad sakna, úr Hreppnum Akraness.

17. Ein gáfan er sú mesta, ætti ad dyljast sízt, barna-lán lángt yfir flesta, lénti honum Drottinn víst, eitt þad og ellum lítst, sem fræid á fegrum qvistum, til frjéfgunar sætum lystum, dygda blóm þeirra útbrýst.

---

*) Hér á inn hid 14da vers: „Spar-vin-ur hverjum heldur, hygginn, mál-snotur, skír, ellu því mest fjær-felldur — — — — rétt-læti ljóst, sem hlýddi, Løgréttu-sess-inn prýddi, dæmi slík reiknast dýr.“ En—þar þetta vers hefir ecki fengist fullkomid, setst þad hér ad nedan.

18. Láng-þjáðann síðsta sinni, sá eg og ræddi við, eru mér ell í minni, erð hans og máltækið, með sonnum guðhræðslu sið, þúngt qvað sér þykja' að líða, þó vildi gjarnan bíða, Herrans heimsóknar bið.

19. Hann fyri skömmu hafði, hold og blóð Drottins þá, sem nauðsyn sálar krafði, í sannri trú gjört að fá, héðan bjóst heimi frá, gaf sig til Herrans handa, honum befól sinn anda; hug vorn slíkt hugga má.

20 Átta vikur víslega, veikleika þúngann leið, í þessum þrauta trega, þolinmóður svo beið, síðan fékk sælann deyð, hafði þó mól og minni, með góðri rænu og sinni, fram allt á andláts skeið.

21. Guð hafði' hann burtu héðan, í himna fögnuð þann er aldrei fékk auga sjeðan, né eyrað heyra vann, þar gleðst með helgum hann, hug þeirra Herrann kjæti, harm og mein gjörvalt bæti, sem gráta sinn ástmann.

22. Syrgir þig, bróðir sæti! sorgandi lundin mín, ástúðlegt eptirlæti, umgengnin dygða sín, hvarf mér frá heyrn og sýn, að stoð varst opt mér þjáðum, í útlátum, gjefum, ráðum, sem víst var venja þín.

23. Syrgja þig sætir vinir, segir það hugur minn, líka svo harma hinir, heyrandi afgáng þinn, sem geyma guðhræddt sinn, náskyldir, nánir, tengdir, naudstaddir, fátækt þreyngdir, og allur almúginn.

24. Syrgir nú sorgfull qvinna, sem vonlegt þykja má, gódur, sá gætir sinna, Gud Fadir himnum á, ætíd sé henni hjá; hugraun og harma bæti, huggunar audinn mæti, svo megi segnud fá.

25. Syrgjandi synir og dætur, sýta med hjartad tvíst, sérhvert harmandi grætur, horfin er gledi og lyst, fedur vorn vér hefum misst, en það skal oss til gledi, af Guds vilja það skédi, hann géck í himna vist.

26. Ur brjósti hrlndum hrigtum, hvert skal svo edru tjó, syngjum hans hefdings dygdum, hér medan jordu á, lífid útendast má; sídan mun án alls efa, oss Drottinn sjálfur géfa, í fridi' hann aptur sjá.

27. Akranes ætti ad skilja, ádur hvad gott var lént, þig skal og þess ei dylja, þér hefir Drottinn bendt, og sorg til handa sendt, hefdíngjar heidurs gjarnir, hédan þrír eru' nýfarnir, lær þú af þessu þrennt.

28. Fengid gott, Gudi sennum, grátandi þacka nú, fráfellnum frómleiks menn-

um, fylgi von, dygd og trú, þar ad auk þenk-
ir þú, vid ílla æ þig varir, ydrun og bæn
ei sparir; kjær sé þér kénníng sú.

29. Enginn skal ofmjøg þreja, annann;
því hugsa ber, allir egum ad deya, æfin lík-
amans þver, upprísan eptir ser, Gud láti'
oss lísa tilbúna, í Lausnarans náð fyrir
trúna, Amen! þess óskum vér.

### Utfarar Minníng
Bartskéra
## Jóns Sigurdarsonar,
sem deydi ad Káranesi í Kjós,
þann 9da. Júlii 1670.

Lagid: Guds Son kallar: komid til mín.

Opt hressir mína hrelldu sál', huggunar-
samlegt Jesú mál, segjandi ljóst vid sína:
réttlátir munu svo sem sól, sú ed uppljómar
veraldar hjól, skjært í Guds ríki skína.

2. Réttlátir eru efalaust, allir sem set-
ja von og traust, á Jesúm Krist alleina, því
hans úthellta blessad blód, burthreinsar
þeirra synda mód, ord Guds, sem gløggt
um greina.

3. Hvílir Guds barna allra ønd, eptir
líf þetta' í Drottins hønd, engu þar ángri

mæta, fávísir halda harda neyd, harmqvæli og pínu þeirra deyd, en þær hvíld hafa sæta.

4. Dýrdarlegt auglit Drottins sjá, dásemdir allar minnast á, sem af hans miskun mætri, daglega þádu hér í heim, hrósa fagnandi gáfum þeim, med saung og lofgjørd sætri.

5. Holdid á medan hefir ró, hvílist af allri mædu þó, í svefn-herbergi sínu, til þess upprisu dagurinn dýr, af Drottni ljómar fagur og hýr, og mætir engri pínu.

6. Sídan skal hold og sálin þá, samtengd æ vera Gudi hjá, í sælu eilífflegri, hærstiu vegsemd því hlýtur þad, himneskri prýdi forklárad, sólar ljójs ljóma fegri.

7. Í svoddan trú og edla von, er Jón Bartskéri Sigurdsson, sætt í fridi sofnadur, sá hér ágætann ordstýr bar, af øllum med sanni haldinn var, frómur, gégn, gódur madur.

8. Frá æsku-tíd, til elli-dags, ástundan hans var samaslags, vel reynt vér svoddan sønnum, ad þócknast bædi og þéna best, þad hann formátti allra mest, Gudi og gódum mønnum.

9. Mótkast kom eitt þad allra fyrst, úngur sinn Fødur hafdi mist, Gud því til gó:s umvendti, sinni ástkjæru Módur med, mjøg góda forsjón edlast réd, af Drottins hjálpar hendi.

10. Oddur Prestur — med allann sann — á Reinivøllum byggja vann, hálærdur heidurs madur, ellesta aldurs ári á, ad sér tók þau og vard hann þá, med æru' og sæmd uppfóstradur.

11. Prj i um tvítugt þá hafdi hér, hjúskap med æru valdi sér, sjálf reynslan satt þad segir; Anna Jørundardóttir únga,, depur af sorg, nú eptir hrigg, i Drottni þolgód þreyir.

12. Samvist þeirra vard blessud, blíd, børn gátu sin á milli fríd, tíu alls mátti telja, sex eru enn hjá oss af þeim, en fjøgur burt úr þessum heim, vildi Gud til sín velja.

13. Svo sem Guds børnum almennt er, ei máttu krosslaust lifa hér, ýmsar opt hrigdir hrelldu; fróm ekta-qvinnan, elsku klár, og hann um sjø og þrjátíu' ár, hjúskap med heidri héldu.

14. Bartskéra dæmis mjúkleg ment, mergum framar var honum lént, Guds er

sú gáfan greina; alúd því lagdi á það víst, ómak og kostnad spardi síst, svo má þar satt um greina.

15. Komu því opt til Káraness, qvilladir menn og víst mun þess, minnst verda lengi vida, lækníuga gaf þeim ljúfleg rád, luckadist vel fyrir Drottins nád, margir síns mistu qvída.

16. Umgengni hans var øllum þeck, almennt því gódann lofstýr fék (satt eitt eg þar um segi), gudhrædbur reyndist, hógvær, hýr, hreinlyndur, frómur, dygda-skír; oflofad er það eigi.

17. Það má eg segja svo til sanns, saknad verdur þess fróma manns, øld medan vor mun vara, ávinníng lítils akta vann, ei lét því nockurn fátækann, sinjandi frá sér fara.

18. Holdsins kjáning og þvíngun leid, þolgódur Drottins hjálpar beid, fram trúi eg líf svo lidi, sextugasta síns aldurs á, ári, þrjá daga sjúkur lá, og sofnadi sætt í fridi.

19. Grædarinn Jesús gledji' hans ønd, geymd er hún vel í Drottins hønd, holdid í hvíldum sofi, mætast eptir hans mannord

er, minníng réttlátra aldrei þver; gáfur Guds lýdir losi.

20. Eptir lifandi ekkjan dygg, er nú sorgandi mjeg og hrigg; Drottinn vor hana hressi, Guds heilags Anda ást og náð, annist og styrki hennar ráð, ytra og innra blessi.

21. Eins bið eg þeirra børnin blíð, blessi Drottinn Guð alla tíð, einkum eg þau áminni: að veiti umsjón, elsku, trygð, alla tíma með hreinni dygð, sorgandi móður sinni.

22. Gæti vor Guð og geymi' oss nú, gési oss frið og rétta trú, heims hér í hrigðarvistum, svo eignumst eptir endað líf, eilífa sælu og himneskt líf. Amen! fyrir Jesúm Kristum.

---

Málið slétt hefir menta skort og minnið veika,
Þó er rétt af elsku ort í einfaldleika.

Móðir hrigg og børnin blíð til besta haldi;
Lifi dygg og dáða þýð í Drottins valdi!

## Utfarar Minning
## Björns Gíslasonar,
qvedin 1656.

Gíslason er Bjørn burt, beint það hef' eg sannspurt; hann var hug-gladur,

heidurlegur madur, eptirstendur einn hans, audur samastadur.

2. Sakna þar menn manns, er marga þecktu dygd hans, gudhrædslu hýra, hreinlyndid skíra, lítillæti, ljúft géd, losi má þad stýra.

3. Í dóms þegar sat sess, sérlegast eg gét þess, réttvísin vildi, vidgángast skyldi, frid, sátt og sannleik, setti'í hærsta gyldi.

4. Gud gæfi mann-margt—mæli' eg nú ei óþarft—hér líkust honum, af heims aldar sonum, gengi þá gagn vort, ad gódum óska vonum.

5. Gudhræddra vin var, vitra manna prís bar, í samfunda sæti, sýndi mest ágæti, hugljúfur, hógvær, med heidurlegri kjæti.

6. Segi eg samt þad: saknar manns úr hans stad, opt í hug hirdi, hjá mér sjálfum vyrdi, hverr var honum heldri? hverr í Borgarfirdi?

7. Sefur hann sæll nú, sálin er hjá Jesú, kjær börn og qvinna, kross eptir finna; gledji þau Guds nád, svo gráti megi linna.

8. O! hvad mín önd þrejr, þá einn gudhræddur burt deyr, feginn med færi, ef frelsis tíminn væri. Leys mig þá þér líkar, ljúfi Jesú kjæri!

### Eptir sama mann.

| | |
|---|---|
| Afgenginn lids ljúsi, | Afsrægur heil-hugi, |
| Lundhægur nafnfrægur, | Hýr, gladur, skír madur, |
| Gèstrisinn, hughraustur, | Væng Drottins fáng- |
| Heilrádur, gjarn dáda. | fluttur, |
| Mannvalid, sídsvinnur, | Fridsælu Guds hælir. |
| Sæmd hladinn, jafn- | Hér minníng kjær kénnist, |
| gladur, | Kurt varir burtfarins, |
| Gudrækinn, þelþýdur, | Nafn lifir, stofn stefja, |
| Polgódur, um ljódast. | Stad þessa ad hresir. |

### I Samsæti qvedid:

Lagid: O Drottinn allsvaldandi!

Verum í Gudi gladir, gefgum þann, sem veitir oss, eins og ástþugull fadir, eptir-lætis fullmargt huoss, bernin sín blídur í lyndi, hel og pín burt vill hrindi, en víst og vín, verdi oss ad yndi.

2. Líkamans lyst hann sedur, lídum vér ei húngurs naud, sálina Gud vor gledur, géfandi bædi,vín og braud, slíka náð, þrátt vér þyggjum, því er ráð,ad oss hyggjum, drýgjum dád, Drottinn aldrei styggjum.

3 Hófleg sé holdsins kjæti, hugsum til, ad fallvalt er, allt heimsins eptirlæti, erum og sjálfir daudlegir, heppinn þann helzt má

játa, hitta kann, réttann máta, audnu-bann ei þarf sídar gráta.

4. Medtökum med þacklæti, mildar gáfur veitarans, sælum ei frá samsæti, frídum burt og Engla krans, sitjum hér, svo sem brædur, Satan er drjúgum skjædur, hefum vér, heileg verk og rædur.

5. Enginn skal annann kjæla, og auka þar med Parlament, brædurnar ad bakmæla, bannad er oss þetta tvennt; skémtun nóg er hér önnur, en íllum róg, núa um tennur, hollra plóg held eg ad hefja konnur.

6. Ydkun andlegra qvæda, er samdrycksju skémtan best, enginn skal annann hæda, enn þó sjáum nockurn brest: fíflsins Chám', vid födur sinn Nóa, fúslegt nám skyldi oss óa, késkni og klám, kann víst heillum sóa.

## P s á l m u r,

sem sýngjast má ad skilnadi eptir samsæti.

Ladid: O Jesú! þér, æ viljum vér.

Til alls er tíd, sem ljóst er lýd, letrin þad heilög sanna, um eina stund, vér fáum fund, frænda og ást-vinanna; en önn-

að veif, slær oss á dreif, aptur hljótum að skilja; göngi oss það í þessum stað, þægum Guðs eptir vilja.

2. Fyrir loflegt mót og ljúflegt hót, sem lýða fór á milli, Guð hafi lof; það góð er gjef, að gagnast vor bræðra hylli; æra sé þeim, sem oss bauð heim, allt veitti af góðum vilja; Guð láti sá, sem gott allt má, gott aldrei við hann skilja.

3. Allt hvað oss brást, og yfirsást, á þessum gledi-degum, að gjera sem bar, og glæplegt var, Guðs móti náðar legum, biðjum nú vér, af hjarta hér, hans náð og miskun dylja; er það vort traust, efunarlaust, uppá hans náðar vilja.

4. Hafi og mátt vor hylli og sátt, af hrasandi drykkju-pørum sturlast nú hér, það brotlegum ber, af-biðja ljúfum svörum; eptir skilnað, skal enginn það, oðrum til mótfalls þylja, því, ástin frek, bræðranna brek, byrgir með góðum vilja.

5. Hvað gott, sem sá og heyrði á, hverr einn skal með sér flytja, sæmilegt er, það siðsamt fer, sér til fróðleiks að nytja; með heilnæmt þel, að vyrða vel, og víti annara hylja, sómi er hár, og siðsemd klár, samsætis menn þá skilja.

6. Aðskilnað vorn, og ástmann hvern, er eg felandi Drottni; að ástum hér, skulum ei skilder, er Guð siálfur þess vitni; vér sam-mæltumst með sætri gunst, að sjón einúngis skilja, með æru hót, vort mæla mót, megi það svo til vilja.

7. Þó sundrumst nú, samt er vor trú, síðar munum með gleði, hjá Drottni sjást, með yndi' og ást, allir með hýru geði, með andlit bjart, og skrautlegt skart, skínandi fegur enn lilja; sú ósk a spá, verði Amen! já! eptir Guðs náðar vilja.

## Öl-erindi,

### að skilnaði qveðin.

Nú er eg glaður á góðri stund, sem á mér sjer, Guði sé lof fyrir þennann fund, og vel sé þeim, sem veitti mér.

2. Vitjað hef eg á vina mót, sem nú á sér, reynt af mergum hýrleg hót, vel sé þeim, sem veitti mér.

3. Þó munngáts orð séu mørg og smá, sem opt við ber, til lasta ecki leggja má, því veldur sá, sem veitti mér.

4. Yndi er að sitja els við pel og gamna sér, en fallegt er að fara vel, þó er sé sá, sem áskenker.

5. Gott er ad hafa góðann sið, sem betur fer, aldrei skattar óhófið, og er sá sæll, sem gáir ad sér.

6. Gott er ad hætta hverjum leik, þá hæst framfer; nú skal hafa sig á kreik; vel sé þeim, sem veitti mér!

Leirkarls Vísur.

Skyldir erum við skégg-karl tveir, skamt mun ætt ad velja, ockar beggja er efni leir, ei þarf lengra telja.

2. Við hefum það af ockar ætt, efnið slíkt eg þecki, báðum er við broti hætt, biltur þolum ecki.

3. Það er annað ættar mót, ad ockar hætti réttum, við hefum báðir valtann fót, veit ei nær við dettum.

4. Ílát vínsins athuga vend, erum við þess á milli, og þurfum báðir hentuga hönd, svo hverugur sínu spilli.

5. Einn eg mismun ockar fann, ef áfell nockur skérda, eg á von, en aldrei hann, aptur heill ad verda. *)

---

*) *Paraphrasis Metrica*
Biskupsins *Mag.* J. Þorkélssonar Vídalíns.
*Non est in vasti tota farragine mundi.*

# Barna Spurníngar,

## um Kirkju=sidi og *Ceremoniur.*

Ungdómi og einfeldum til fródleiks.

---

### Formálinn.

Margt er ónumid mønnum í úngdómi,
Því eru skólar settir, að skérpa næmi.
Gagns mun ófródum, Gud tillagdi þenna,
Þeir eldri ega ýnglingum ydn=þróttir kénna
Sá lærdi á var=gjørt lánar=drottni sínum,
Sem lét hann komast ad visdómi vænum.
Sá úngi á næmi ferskr vid Gud ad vyrda,
Og í fjársjód þeim flest gott hirta.
Ad sinni skyldu sérhverr á ad gjæta,
Og ei áqvedid verk ógjørt láta.
Því er þad fródum fordild og æra,

---

*Res mihi tam similis qvam meus urceolus,*
*De luto terrae finxit mihi membra creator,*
*Materiemque meo terra dat urceolo*
*Communem loquitur gentem constantia, nam pes*
*Alterutri neuter certior esse solet:*
*Nos finxit vino lecythos natura caducos*
*Auxiliatricem poscit uterque manum.*
*Dividimur tamen hoc; vitium si traximus ambo,*
*Ipse mihi, nunquam redditur ille sibi.*

Sem flesta láta af sér fræðast og læra.
Ungum hoifir helzt til heidurs og sóma,
Ydkun og aukning náms ecki forsóma.
Sá, sem góðs leitar, góðs fær ad njóta,
Margt kann óráðþæginn af sér ad brjóta.
Hér skal Kirkju-vit koma til greina,
Ungra og einfaldra úrlausnir reyna.
Þeir þurfa ad kunna sig, sem koma til hofgarda,
Mér þykir um Guds hús meira varda.
Illa tilreiddur, í kirkju koma,
Mun kristinum vyrdast til mikils ósóma.
Heimska' er ad horfa á helg verk-sýgi,
En hvar, til þau þéna, vita þó eigi.
Ad heyra á heilagt mál á helgum degi,
Til vansa verdur þeim, sem vitkast eigi.
Ad horfa á helg tilsaung húsins besta,
En deili hafa engin á, er dárlegt næsta.
Gjøri enginn spott ad spurnsmálum þessum.
Sem eg hér framset í samstædum versum.
Sá sem vel þyggur, vel bid eg njóti,
Fari' honum vit í voxt, en sáfrædi þrjóti.
Leidrétti, ef lita á, lærdir vitringar;
Þegi eru fyrir þá gjørdar þessar spurningar.
Hverr, sem vitkast vill vid visdóm auki:
Enginn verdur fullnuma fyrr enn í Guds ríki.
Lærandinn lærir hér svo lengi, sem lifir,
Gud géfi oss sinni gott ad hafa yfir!

---

**1. Hvad viltú, kristinn madur til kirkju þinnar?**

Ad sækja þángad gagn sálar minnar.

2. Hvad er sálar gagn, ſeg mér af þeſsu?
Að helga hvíldar-dag og hlýða meſsu.
3. Veitſtu hvað hvíldar-dagur hefir að þýða?
Viku ſjøund væna og vígð er til tíða.
Ellegar að ſegja ſvo í máli mjúku:
Það er helgur dagur í hverri viku.
4. Seg mér, við hverja hvíld hann er
kénndur?
Guðs ſjálfs — ſem í Geneſis bók ſtendur. —
Heila ſex daga Guð heiminn ſkapaði,
Þann ſjøunda hvíldiſt hann og í ſenn helgaði.
5. Hvert varð Guð þreyttur þá hann
heiminn gjørði?
Nei! því hann vann allt með almættis orði.
6. Hverninn hvíldiſt hann og þó án þreytu?
Hann lét af að ſkapa, þó lángtum meir gjæti.
7. Hvernig helgaði Guð hvíldar-dag fyrſta?
Hann ſetti hann til víðfrægðar verkinu beſta.
Hann var ſiptaður helzt mannſins vegna,
Sem vilja Guðs hefur vit á að gégna.
Á viku hverri ega menn verk Guðs að grunda,
Sex daga á holdið, en ſál þann ſjøunda.
Skal þá um leið hverr á Skaparann minnaſt,
Til heiðurs við hans verk í helgum ſtað finnaſt.
Því ber hann fagurt hvíldar-dags heiti.
Sjøundi á að afflétta ſex daga þreyti.

8. Héldst lengi sköpunar skickun sú góða?
Allt þar til Jesús uppreis af dauða.
Þann mikla hvíldar-dag mæddur af pínu,
Hvíldist hann í greftrunar herbergi sínu.
En þann næsta dag med upprisu sinni,
Helgadi Kristur, svo hafdur sé í minni.
Rann þá upp spónnýr Drottins dagur,
Mestann bata fékk mannkynsins hagur.
Og þá urdu daga-skipti til dýrrar sjøundar,
Til heilags helgi-halds, heilags samfundar.
Sídan hefur kollud verid Sunnudags helgi,
Henni trú' eg Endurlausnar æran fylgi.
Helgir Postular hann þar til voldu,
Med rádi heilags Anda, þá ritníngar skildu.
Vid sól er kénndur vegsemdar mestur,
Drottins dagur vor í daga tali fyrstur:
Á honum sköpst haudur og himin med ljósi,
Drottins margfaldri dýrd trúi' eg hann hrósi.
Á honum réttlætis sól rann upp í heidi,
Þá lísid fékk sigur, en daudinn deydi.
Því er hann og Drottins dagur kalladur.
Sá, sem hann heldur vel er heilagur madur.
Á sama vikudag sendist af hædum,
Heilagur Andi Guds med himneskum gædum.
9. Hvad kallast ad helga hvíldardaginn?
Ad gjøra sem kénna Guds kirkju løgin.
Helgar sá hvíldardag, sem hefir í minni,

Oll sköpunarverk med endurlausninni.
Og heilags Anda helgunar gædi,
Sem alla menn med ordi Guds endurfædir.
Sá sem med alúd ordi Guds hlýdir,
Af heyrn ødlast trúna og hjálprædi um sídir.
Sá lærir þrennann Gud ad þeckja og dýrka.
Hlid himins er honum heiløg kirkja.
Hverr sem ákallar í helgum søfnudi,
Nafn síns Drottins, nád fær hjá Gudi.
Hverr sem á helgum degi Herrann prísar,
Sannann Guds Lazarum sig bevísar.
Sá sem Guds Sakrament med sóma brúkar,
Sinni þurfandi sál sætlega hjúkrar.
10. Kynntu mér hvad kirkja þýdir?
Pad er heilagt hús, sem helgan Guds prýdir.
Kirkja heitir bæna-hús Krists dýrdlínga,
Eda vígt herbergi ad tala um Gud og sýngja.
*Kyrios* í grísku máli er Drottinn dýrdlegur,
Guds hús af Gudi sjálfum Glóserun dregur.
11 Hvad merkir kór, þar Krists er altari?
Í saungvígdum parti sýngjandi skari.
12. Hvad er altari med sínum sóma?
Pad er gøfug stó Guds helgidóma.
Á altari vóru offur løgd ádur til forna,
Og qveikt upp reikélsi qvøld og morgna.
En nú er þar andlegt bord andlegrar fædu,
Þar Kénnimenn tilreida Krists qvøld-snædu.

13. Því eru lífleg ljós sett á altari?

Svo helgidags prýðin sé því háleitari.
Sú Ceremonía er svipur Guðs dýrðar,
Og dýrt heilla merki Drottins hjarðar.
Sjálfur Guð býr í sínum helgidómi,
Eilíft ljós er hans andlitis sómi.
Ljómandi Guð nefnist ljóssins-faðir,
Ljóssins børn eru hans lýðir kallaðir.
Jesús er líf og ljós lifandi manna,
Sem uppraun og ofankom af hæðum himnanna.
Kérti er af tveim hlutum, qveik og tólki,
Par á logi ljós, sem lýsi fólki.
Pað klára kirkju ljós, Kristur blessaður,
Einn með tveimur náttúrum er Guð og maður.
Minnir oss messu ljós á mannúðáð skjæra.
Að vøndum verkin góð, sem vor er æra,
Kénnir oss kirkju ljós qveikt á altari,
Að lucka vor, líf og trú leikur á skari.

14. Hvað þýða klæði þau, høkull og serkur, sem um messu tíma íklæðist Klerkur?

Mark og einkénni er messunnar skrúði,
Sá honum klæðist er Krists sendiboði.
Eins og Guðs Engill sást á Páskadegi,
Hvítklæddur í stein: prónni hægramegin.
Einnig eru upptøk þess í eldra Testamenti,
Tignar: klæði bar sá í tjaldbúð þénti.

Í Aarons Prests skrúda var ærinn blómi,
Að Guðs skipun þá hann gekk í helgidómi.
15. Hvar fyrir er kluckum hríngt til messu?
Guð er frumqvøðull að skyki þessu.
Á Sínaí fjalli svo bar til fordum,
Áður enn himna Guð hreifði þar orðum.
Hvell básúnu hljóð hann lét þar klíngja,
Þar af er siður til saungs að hríngja:
Svo tiðt sem málmurinn fyrir messu gellur,
Teiknast oss dómsdags hljómurinn hvellur.
16. Seg mér hvað messan er í merkíng sinni?
Heiløg þjónusta í helguninni.
17. Hermdu mér, hverr er þar helzt að þénari?
Sá, sem er skrýddur fyrir skjæru altari.
18. Hvað gjørir sá þjón þegar hann messar?
Hann afleysir, prédikar, biður og blessar.
Í vatns-fonti skírir vitur saungvari,
Deilir út brauð og vín, við Drottins altari.
19. Er margt að gjøra í messu embættinu?
Sjø verk, sem nú vóru søgð øll í einu.
20. Er margt súngið í messu veglegri?
Helgir saungvar fimtán hverr øðrum fegri.
21. Hvað heita saungvar þeir, seg mér hið rétta, eg held vísdóms ment að vita þetta?
Upphaf messu er fyrst inngaungu psálmur,
Gengið er til kirkju og gellur þar málmur.

Þar næst er fridar bón framflutt í messu,
*Kyrie* er upphaf á kórstemmi þessu.
Þá kémur Engla saungur af Presti hafinn,
Og dýrd sé Gudi í upphædum géfin.
Þá er messu bæn í heyranda hljódi,
Eptir Gabríels ord sögd til söfnudi.
Þar næst Postula mál Pistill tónadur,
Og *Hallelujah* vers, sem himnana gledur.
Þar næst himna-saungs fylgjan fögur,
*Sequentian*, sem sætann seim dregur.
Þá er Gudspjalls gledilegur rómur.
Og *Credo*, sem játar krístinndómur.
Vers eptir prédikun med són sætum,
Helgunar edla ord undir sínum nótum.
Sakramentis psálmur óvandur,
Súngin medan útdeilíng yfirstendur.
Þá er þakklætis bón byrjud af Presti,
Sídan blessunar ord, sá Sermóninn besti.
Utgaungu psálmur endar helga messu;
Himnesk er skémtan ad hlýda þessu.
Allir í söfnudi ega þessa saungva,
Yfir hafa þar til úr kirkju gánga.
Þeir med vörum lágt, sem vantar saung-róma,
Svo kirkjan med kórnum samsýngi, Amen!

22. **Er nú þetta ætíd súngid hid sama?**
Nei! því ad sitt mál heyrir hverjum tíma.

Adventa, Jólin, að Kindilmessu,
Lángafasta og Páskar ljá oss þá vissu.
Uppstigníngar-dagur og Hvítasunna,
Þrenníngar-hátíð og þaðan til Adventunnar.
Tímar Kirkju-ársins með terminum þessum,
Svo sér skipta og líka saungvar í messum.
23. Flytjast margir Sermónar framm í Guðs húsi?
Eg vil telja þá upp, svo úr spurníng leysi:
Fyrsti á sæti þar, sem fólk við skiptast,
Þrír á prédikunar-stól, og þeir svo skiptast:
Áminníng til bænar er þeirra hinn fyrsti,
Guðspjalls útlegging annar sá næsti,
Almennileg bænagjörð er þriðja ræða,
Þá prédikun endast, sú fólkið á að fræða.
Fimti er áminníng fyrir Guðs altari,
Aður enn bergir innargaungu skari.
Sjötti við kirkjudyr þá konur inngánga,
Eptir sinn barnburð og útistöðu lánga.
Sjöundi við kórdyr, þá saman skal hjón vígja.
Áttundi þá afleyst er opinberlega.
Níundi við Fontinn, þá fögur vatns-skírnin,
Handtéruð er og helgud Guði börnin.
24. Að upphafi spyr eg ársins kirkjunnar?
Það er fyrsti Sunnudagur Jólafostunnar.
25. Hvað er þá í fyrstu framsett til menta?
Prefold Herrans heilög Adventa.

26. Hvað er á Jóladag helzt lagt í minni?
Maríu Sonar Fæðíng af Móður sinni.
Á Atta-dag af Drottins umskurnar sári,
Og nafninu Jesú með Nýa-ári.
Opinberunar hátíð heitir Þrettándi,
Þá komu Vitríngar úr austur-landi.
María á Kindil-messu kom í musteri,
Símeon fann Krist þar, svo sem hann á kjøri.
Á Føstugángs Sunnudag, svo hljóðar kénníng,
Við skírn Kristí var heiløg þrenníng.
Á Boðunar Hátíð Maríu birtir letur,
Um Kristí gétnað sá dagur gétur.
Á Skírdag er framsett sú kirkju ræða,
Hverninn menn hold og blóð Herrans snæða.
Á Lánga-Frjádag er lesin Passía,
Það er Herrans Píníngar heil Historía.
27. Hvað er á Páskadag prédikað lýðum?
Af sældar Kristi upprisu sigri friðum.
28. Hvað er á Uppstigníngardag haft
til kénníngar?
Dýrðar upphafníng Drottins Uppstigníngar.
29. Hverr er lærdómur á Hvítasunnu
kénndur?
Um helgann Anda, sem af hæðum var sendur.
30. En á Trinitatis Tignar-degi hreinum?
Þá er af Guði sagt þrennum og einum.

31. Hvert eru' á Jóns-messu framsett
fræði?
Um fæðíng Jóhannesar og Fødur hans
lofgræði.
32. En á Vitjunar-dag María Guds
Módur?
Hebrons Samkoma og hennar dýr ódur.
33. Hvílík er á Michaelis-messu Must-
eris ræda?
Um Englanna og úngbarna edlid góda.
34. En á Allra-heilagra-messu degi
mætum?
Segist þá af útvaldra sældar-hag sætum.
35. Hverninn er møgulegt ad minnast
Prests kénníng?
Ef eg prédikunar athuga þrenníng.
Fyrst læríng þá, sem lætur upp hid sanna,
Hvar á sig festir heiløg trú manna.
Annad er áminníng øllum til betrunar.
Sem varar vid íllu, svo verdi' ei til hindrunar.
Þridja er huggun sæt, í sorg hverskonar,
Sem glædir upp géd manns til gódrar vonar.
36. Attú margt ad gjøra þá til kirkju kémur?
Þad er innifalid í atvikum þremur.
Fyrst kém eg í bæna-hús ad bidja med ødrum,
Sáluhjálpar sjálfum mér, og sam-kristnum brædrum.
Þar næst ad hyggnast og hlýda kénníngunni,

Pridja lagi ad þacka Gudi med rødd og munni.
Hér ad auki á eg á tilsettum tímum,
Ad gjøra mig líkann Guds kirkju-limum.
Fyrir Gudi og Prestinum grátandi skriftast,
Svo eg megi hvervetna huggast og typtast.
Hér nærst ad vera í heiløgu samneyti,
Guds Sonar holds og blóds med gledi og þakklæti.
37. Ecki er enn ad øllu spurt, á vil eg hlýda;
Hvad mun skriptargánguinn hafa ad þýda?
Hann merkir játníng hjarta og munns þrenna,
I fyrstu þar sorgfullir syndir vidurkénna.
Og kémur sú hjarta-sorg af hørdu løgmáli,
Sem synda þeckíngar sannur er skóli.
Trúar játan þar nærst í skriptargángi skédur,
Því synd-kramda samvitsku Gudspjallid gledur.
Hlýdnis játan, þridja heitir í skriptargángi,
Þar gódri lifnadar bót Gudi lofar mengi.
38. Veitstú hvad gott þad er Gudi ad játa.
Dýrmætt og heilsusamt, djøfli afneita?
Þad má kalla trúlofun og trygda sáttmála,
Sem vid Gud sinn í skírn gjørdi hver sála.
39. Hvad er Guds stórmerki, sem hverr einn játar?
Øll skickan sú, sem hann vill vera láta.
Þad eru øll hans løg og himnesk réttindi,
Sem bjóda hvad rétt er, en banna rángindi.
Þad er líka Guds nád í Gudspjalls sannindum,

Sem neitar sig vilja nockurr deyi' í syndum.
Kallanár kristinndóms kóngleg regla,
Og Sakramentin bædi,. er svoddan innsigla.
40. Hvad kallar þú Satans verk og vilja?
Synd og glötun manns, svo er þad ad skilja.
41. Því óskar þú aflausnar af Presti,
Þar hann er líka brotlegur og hefir sína bresti?
Þad gjörir hans postullegt Prests-embætti,
Jesús þá fordum í sinn stad setti.
Þá Prestur afleysir med yfirleggíng handa,
Talar hann ei sín ord, heldur heilags Anda.
Í Jesú nafni vil eg vera af syndum leystur,
En ecki sjálfs þess, sem framflytur lestur.
42. Hverninn kann aflausn Prests á þér ad hrína?
Guds Andi gjörir þad fyrir góda trú mína.
Kraptur Kristi blóds kann mig ad hreinsa,
Og alla trúada, af öllum sálar vansa.
Ad gjensvörum þínum gédjast vel heyrn minni.
Verdi þér, vinur! eptir vænnri trú þinni!

## *EPILOGUS.*

Hér næst vil eg i skilnad skila erendi
Frelsarans, sem til þín med fridar bod mig sendi.
Ef Legáti Konúngs ad þér leita færi,
Og hans tignar nádugt bréf til þín bæri,
Og væri hans Majestatis Mandat þar inni,
Ad þú skyldir i harm slinga bréf-perlu sinni,

Og læra fyri utan letur, sem á stadi,
Og af trú blífa vid bréfud heilrædi;
Þá skyldi hann unna þér af ríki sínu,
Til æru þér og uppheldis ætterni þínu,
Mundir þú í breifsins innihaldi þig æfa,
Og Legátann einnig í heidri hafa.
Nú er Biblían bréf Kóngsins hærsta,
Hans rádar sendiboda haldtú þína Presta.
Muntú því, barn=korn! þá í Guds hús gengur,
Herrans ord er þér himneskur fengur.
Athuga þú prédikunar Prestsins uppqvædi.
Og vittu hvar þad samhljódar vid þín Barna=Frædi,
Ad Gudspjalls innihaldi gá, sem þú getur,
Og hvad marga púnkta Presturinn frammsetur.
Festu í minni þéru sögur heilrædi.
Líkingar sen þar, sem lifandi frædi.
Af huggunar ummælum haf sálar gledi.
Sit þú undir prédikun med gódu gédi.
Láttú góð dæmi til góds þig upphvetja,
En illra vond afdrif frá illu þig letja.
Vert' ecki gálaus þá Guds ordi hlýdir,
Né flýtur í burt, svo ei blessunar bídir.
Geym þú svo Prests ad, sem Guds munnur segdi,
Athuga hans rád gód, sem Engill Guds legdi.
Því öllum mönnum verdur eptir trú sinni;
Gott er ad gjöra vel og gott leggja í minni.
Kyntu þér utan=bókar kór-saungum væna,
Amen! segdú til allra kirkju=bæna.
Hátídir skaltú í hávyrðing hafa,
Gladur þá Gud þinn í Guds húsi lofa.
Gud mun þér kirkju=sókn svo gódu launa,
Endíng munt sæla fá allra þinna rauna.
Hrepa muntú vera í himnanna ríki,

Bina Guds útvaldra verdur þú likr,
Messu spurninga þulan sú þarna,
Qved eg megi heita: Kirkju=vit Barna.

## Bergmál.

| | |
|---|---|
| Mun Gud marga til dómsins kalla? | Alla. |
| Eru allir trúadir á þeim degi? | Eigi. |
| Er nockurr sjálfkrafa saklaus fenginn? | Enginn. |
| Hvernig gengur þeim er heiminn villa? | Illa. |
| Hvad er þad, sem Herrann þeim sendir? | Endir. |
| Hvad heyra þeir svo sárlega sýti? | *Ite.* |
| Hvar mun þeim reidast rúm ad qveldi? | Í eldi. |
| Nær komast þeir úr qvol margfaldri? | Aldrei. |
| Hvilikt heyrist hjá þeim hrópid? | Opid. |
| Gud láti þángad fara fáa menn! | Amen! |
| Hver eru laun, sem Gud vill frómum færa? | Væra. |
| Fara þeir nockud frá nád margfaldri? | Aldrei. |
| Er þeim þá búin eilíf *vita*? | *Ita.* |
| Hvad gèfa þeir þá í Herrans hendur? | Ondu. |
| Hvad munu þeir þá í fognudi segja? | Eja! |
| Halda þeir leingi þad sælu sætid? |Ætid. |
| Hverr verdur endir á því gengi? | Enginn. |
| Gud veit eg þeir lofa, þar þrásaldt;. | Avallt. |
| Gud gèfi oss ad vera þeim þó hjá! | Ojá! |
| Gud gèfi oss ad sjá þar þá menn! | Amen! |

# Viðbætir,

innihaldandi

## Nockur Ljóðmæli,

sem eignuð eru

Síra HALLGRIMI PETURSSYNI.

### Bænar Psálmur um líkamlega blessun.

Lagið: Nú bið eg, Guð! þú náðir mig.

Almáttugi og mildi Guð, miskunsamasti Skapari, hverr vanur ert að leggja lið, lýð þig biðjandi í neyðinni; þar fyrir von-ar hverskyns hold, Herra veitandi uppá þig, bæði yfir og undir fold, að þú, Drottinn! forsorgir sig.

2. Æ Drottinn! þessa dýra tíð, dag-lega hefum forskuldað, sem yfirgéngur land og lýð, lánleysi og húngur fylgjast að, hér

er framkomin hótan þín: hafna skal jerdin áverti, spnjandi brauds, sem bodord mín; brjóta med allskyns ránglæti.

3. Avi! misgjerdir þrykkja þétt, þær oss forláti Drottins náð, gjald oss ei eptir glæpum rétt, gjæðskunnar Fadir! ríkur af dáð, uppljúktu þinni hjálpar hønd, húngrud og naudstødd børnin sed, allar sképnur, sem eru med ønd, almáttug gjæðskan nær og gled.

4. Vitja vorslands, svo verdi þad, veitandi sinni frjófgun af, krýn þú vort ár, svo komi oss ad, kreptug blessan um jørd og haf; drjúpi þín fótspor fullri nægd, Fadir himneskur morgna og qvøld, géfandi braud, en veittú vægd, vér þó verdskuldum allskyns gjøld.

5. Søkum þess, mækt þín mikil er, miskunar stórt þú hefir vald, áveztud skýin útbreider, eins og himneskann klæda-fald, géfandi regn, svo grænkar jørd, greidandi fódur qvikfénad, úngum hrafnanna byr þú bord, bidur náttúran þig um þad.

6. Þú mettar bædi menn og fé, margann rennandi straums úr lind, stillir þú svo hann framfljóte, fyrir sérhverja þessa kind, vid þá fuglarnir sitja, en sætt, sýngja þér

lof á fegrum qvist, bláukar á landid vatni vætt, væna ersandi gledi-lyst.

7. Svo af süd-korni bakast braud, brjóstid gledur' hid sæta vín, oleum gjörir andlit raud, med edlis gódum krapti sín; vor Gud! hvad eru verk hín sett, vísdómslega í hollann skamt, ell hefir hú hau reglad rétt, ríkur ávallt, en géfur hó samt.

8. Ó-lætis Drottinn! upp nú lát, efri loptanna féjódi, útaus gródri, svo qvaki kát, korn-hurftug hjörd á jördunni! Herra Jesú! sem hefir mett, húngradann lýd á eydigrund, kom og gjör voru landi létt, lina hú vorri hrauta stund.

9. Afgángi hess blessada brauds, být hú nú út med húngrudum, sem annars fara' í sult til dauds, saudi há kénndu' í brjósti um; hín hefir ecki hendin styttst, himneska nafn hitt vona' heir á, sem bjargrædi sitt hafa misst, sígnadi Fadir! aumka há.

10. Nær hú géfur, svo neytum vær; en nemirdu hína blessun frá, undir eins kémur eymd frábær, engin sképna há lifa má: Andi hinn kann ad skapa skír, sképnum sínum hvad heilnæmt er, endurnýun hans edla hýr, allt forbetrar, sem jördin ber.

11. Géf vorri fædu kjarna og krapt, ad konri oss hennar næríng vel, svo sem þú lagdir salla og saft, sjálfur fordum í himna-mél, ecki lifum vér einúngis, af þessu braudi stundlegu, heldur af ordi hjálprædis, himneska Fodurs blessudu.

12. Blessun tak ei úr braudi því, sem bjarga voru lífi á, heldur velsigna art þar í, sem Elísæi braudin fá, húngrudum, Drottinn! hjálpa nú, hallæris þeirra mýk þú stund, og fyrst fuglana fædir þú, forsorga oss á alla lund.

13. Alla fátæka anníst Gud, sem eckjuna í Sareptá, svo efist ecki í eymd og naud, óþolinmædi' ei sigri þá; heldur afþreji' í helgri von, med hjartans ydrun, bæn og trú, mildasti Jesú María Son, miskuna oss og blessa þú!

14. Metta sál vora med þín ord, miklu sætari veri þau oss, enn húnáng þó þú berir á bord, blessa þá og vorn rauna kross, allt þángad til vid bord þitt blídt, barna Guds dýrdar ríki í, auglit þitt skoda fáum frídt, fullsælir vel af yndi því

'Qvædi um Krists kraptaverk.

Maktin Guds er mikil og há, mædda að endurnæra, það vil eg læra í ljóða smíð að færa.

Þá Lausnari heimsins holdi klæddist, heilagur og synda hreinn, af meyar-lísi fegru fæddist, fornum reifum vafdur sveinn, margur af hans forsogn fræddist, fram svo liðu stundir þá. Maktin Guds er mikil og há. Af laungum meinum lýdurinn græddist, lífs fyrir orðið skjæra. Það vil eg læra í ljóða smíð að færa.

2. Kóngs madur einn af Kapernaum, kom til hans í góðri von, bad hann (ljóst, sem letrad sjáum), að lækna þar sinn veika son. Ansadi Jésús orðum fáum, en við það þeim sjúka brá. M. G. e. m. o. h. Hann baud og einnig anda þráum, annann þar ei særa. Þ. v. e. l. í. l s. a. f.

3. Mág-kona Péturs qvalin af köldu, kanna mátti lánga þraut, Jesúm þángað virðar völdu, vægðar af honum sljóðið naut, fyrna margt af fólki' ótöldu, færdu

adrir til hans þá. M. G. e. m. o. h. Þeir sem líf í eymdum eldu, úr ángist gjørdi særa. Þ. v. e. l. í. l. s. a. f.

4. Til Lausnarans kom einn líkþrár madur og lækníngar bad þegi seinn, þad veitti Drottinn hjálpar hradur, honum sagdi:, vertú hreinn! Ikt⸗sjúkur í sæng églaður, segir til hans: hann taki þá. M. G. e. m. o. h. Hann gékk burtu heilbrigdadur, med huggun sálar skjæra. Þ. v. e. l. í. l. s. a. f.

5. Jóhannes lætur letur útgánga, lá þar einn af sóttum sár, þjáníng bar sá þrauta lánga, þrjátíu heil og átta ár, sífeld gjørdi hann sútin stánga, sat vid díkid Bethesdá. M. G. e. m. o. h. Heilsubót ad hann lét fánga, himna⸗ljósid skjæra. Þ. v. e. l. í. l. s. a. f.

6. Máttlaus hendin veikleik vafti, þelm veitti Drottinn heilsubót, margur hann þar hjálpar krafdi, hættri vasin písla⸗nót, sem dósa, íkt og djøful hafdi, deysu, blindni og líkþrá. M. G. e. m. o. h. Fódrid sálar ei fyrir tafdi, ad frida þá og næra, Þ. v. e. l. í. l. s. a. f.

7. Þá Frelsarinn ofan af fjalli vendi, og fagra rædu hafdi endt, Lærisveinum og lýdnum kéndi, lífsins orda ædstu ment; spitelskann áhrærdi hendi, hreinn vard strax ad bragdi sá. M. G. e. m. o. h. Þjón hefdíngjans heilsu sendi, hörmúng lét ei særa. Þ. v. e. l. í. l. s. a. s.

8. Um borg og kauptún bodadi Kristur, beinann veg til himna ranns; sem herbergi féck líknar lystur, leiddur þángad var til hans, einn, sá djefull bagadi bistur, bædi firrtur ad tala' og sjá. M. G. e. m. o. h. Dýrdar blómid Davíds qvistur, daprann gjördi næra. Þ. v. e. l. í. l. s. a. s.

9. Þá Jesús yfir eldu-geyma, almáttugur kominn var, tvo besetna sá hann heima, sér á móti hlaupa þar, í daudra grefum hefdu heima, hersudu sídan fjellin á. M. G. e. m. o. h. Djeflana lét í svínin sveima, svartir þeim fortæra. Þ. v. e. l. í. l. s. a. s.

10. Í tólf ár konu mjög réd mæda, mein þad fylgir qvennkyni, svo madur enginn mátti græda, þó miklu þar til

kostadi, sem faldinn snerti hún Kristi klæda, kénndist vera frí þar frá. M. G. e. m. o. h. Vid hana gjørdi Herrann ræda, hughraust vertú hin kjæra! P. v. e. l. í. l. s. a. f.

11. Þá Herrann Jesúm himins og landa, heyrdu gánga blindir tveir, hrópa lúdir hátt, þar standa, hjálpar af honum beidast þeir; þeim dymman framar gjørdi ei granda, grædði rótin Jesse þá; M. G. e. m. o. h. Hann baud og døckum djøfuls auda, af dumbum burt sig hræra. P. v. e. l. í. l. s. a. f.

12. Kananeíska qvinnu þreytti, qvøl, sú hennar dóttir skér, vid blídann Jesúm bænar neytti, beli því ad léita af sér; á afsverunum ei sig steytti, er hún tvísvar hlaut ad fá. M. G. e. m. o. h. Aumri sídan adstod veitti, Aarons blómstrid skjæra. P. v. e. l. í. l. s. a. f.

13. Daufann hvern þar mæddi enn meira, mállaus var hann vasin út, til Jesúm leiddi fólkid fleira, Frelsarinn þá hrækti út, fíngur í hans færdi eyra, fyrir þad sterka Hephatá. M. G. e.

m. o. h. Madurinn gjørdi' ad mæla' og heyra, magnast Herrans æra. P. v. e. l. í. l. f. a. f.

14. Í Bethsaida blindann líta, blessad vildi meyar sád, samt þó ecki voladann víta, en veita heldur læknis dád; í hans gjerdi augu spýta og yfir hann lagdi hendur þá. M. G. e. m. o. h. Hann þurfti' ei lengur sjónlaus sýta, svoddan dæmi' oss næra. P. v. e. l. í. l. f. a. f.

15. Púkinn einn þar hrakti' og hrelldi, er hrumur, dofinn var og sár, eymdir nístu, fródu felldi, fast hann þjádi andinn flár, vard honum þrátt af vatni' og eldi, vodi fýndur og daudans þrá. M. G. e. m. o. h. Aumann læknar ædsta veldi, í mind Fedursins kjæra. P. v. e. l. í l. f. a. f.

16. Efni því ei Lúkas leynir, Lausnarinn þá kominn var, í einhvern stad, sem gleggt ei greinir, til grædslu honum fengu þar, djøfulódann mann med meini, mállaus var sem leturinn tjá. M. G. e. m. o. h. Ut var rekinn hinn óhreini, fyrir Herrans dygd frábæra. P. v. e. l. í. l. f. a. f.

17. Þar hafdi ein kona kránkleiks anda, kreppt og bjúg í átján ár, fyrir ýfirleggíng Herrans handa, henni dvínar mædan sár, blessadur leysti líf úr vanda, vertu (sagdi' hann) laus þar frá. M. G. e. m. o. h. Hún dýrkadi Skapara lýds og landa, fyrir líknar náð svo skjæra, Þ. v. e. l. í. l. s. a. f.

18. Blindur, þó sé búinn vodi, borinn var einn í þeirri neyd; sagt er að Jesús saur tilhnodi og sídan á hans augu reid; Herrans eptir háu bodi, hitti díkio Silóá. M. G. e. m. o. h. Sem í vatni því sig þvodi, hann þádi sjón svo skjæra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

19. Vatnssjúkur á Sabbats degi, settur fram fyrir Herrann var. Lausnarinn spyr: hvert lækna megi? Lögspekíngar gèfa' ei svar; falskir þó vid þessu þegi, í þánka hugsa rádin slá. M. G. e. m. o. h. Jesús vill þann veika eigi, voladi skuli særa. Þ. v. e. l. í. l. s. a. f.

20. Tíu menn í líkþrár lúa, lángt frá stódu og kalla enn, á mildann Jesúm Meistarann trúa, miskunar bidja allir senn; en hann baud þeim burtu ad snúa, og birta skyldi Prestum frá,

M. G. e. m. o. h. Veikleikinn þá vard burtflúa, fyrir viljann Drottins kjæra. P. v. e. l. í. l. s. a. f.

21. Til Jerichó þá Jesús reisti, játudu tveir í einu þar, ad almátt hans þeir uppá treysti, og af honum beiddust lækníngar; bádum þeim var horfin hreysti hverugur kunni neitt ad sjá. M. G. e. m. o. h. Guds Son báda ljúfur leysti, þá linadist hrigdar snæra. P. v. e. l. í. l. s. a. f.

22. Þegar med svik og sára pretti, sekja Kristum Júdas réd, þá var Malchus þyckju metti, þar í ferd og rádi med; eyrad af honum Símon setti, sverdi þegar til varnar brá. M. G. e. m. o. h. Hondina út ad Herrann rétti, hann nam strax áhræra. P. v. e. l. í. l. s. a. f.

23. Svoddan vel, mín sála! mundu, sanna mildi Guds og Manns, allir líf og lækníng fundu, er leitudu á nádir hans, hvad þig hrellir heims á grundu, hann í trúnni vonadu á. Maktin Guds er mikil og há. Honum sé lof á hverri stundu, heidur, prís og æra. Þad vil eg læra í ljóda smíd ad færa.

## Um sköpun heimsins og Krists hingaðburð.

Herrann skapaði lopt og láð, lýði og blómstrið fríða, sá var hagur, sem það kunni smíða.

Í upphafi skapaði Faðirinn fyrst, fríða jörð með dáðum, skóga og holt með skjærri list, af skírum guðdóms ráðum, yfir það setti hann Adam víst, allvíða það stendur skráð. Herrann skapaði lopt og láð. Var þá hvergi veröld bíst, svo veröld þyrfti að kvíða. Sá var hagur, sem það kunni smíða.

2. Veröldin breið, með blóma stóð, blessuð gæðum öllum, hún var bæði græn og góð, glóðu lauf á völlum, fuglar súngu um fiska-slóð, fengu sinnar skyldu gáð. H. s. l. o. l. Lausnarinn af oss létti móð, hann lét sér undir svíða. S. v. h. s. þ. k. s.

3. Ljúfir skulum því lúta þér, Lausnarinn allra manna, af miskun komst í heiminn hér, hjálpar skjólið sanna, á herðum þínum heim oss ber, í himna

dýrd, þar nóg er náð. Herrann skap-adi lopt og láð. Svo vér megum sýngja þér, sífellt lofgjerð fríða. Sá var hagur, sem það kunni smíða.

Um Fædíngu Krists, Dóms-dag og eilíft líf.

Hljómar raustin barna best, blíð á þess-um degi, og lofgjerðin allra mest, oss var géfinn og fæddur, Lausnarinn gæðsku gæddur, af meyar qvið, qvið, qvið, af meyar qvið með líkn og lið, líkama vorum klæddur.

2. Austan Kóngar komu þrír, Krist vorn finna vildu, fylgdi þessum fórnin dýr, fréttu af barni skjæru, sem stjarnan óskar æru, gullið best, best, best, gullið best og myrra mest, með reykelsi skjæru.

3. Í þessum fæddist heimi hann, hul-inn slæmum klæðum, geymdur í stalli Guð og mann, hans gofug tign mun standa, Lausnarinn allra landa, herfáng tók, tók, tók, herfáng tók og þrigdir jók, hann þeim mirkra anda.

4 Med sætum sigri sá reis upp, Sen Guds frelðja' á degi, batt hann vonda Belzebúb, boðaði náð svo fríða, Lausnarinn allra lýða, til himna fór, fór, fór, til himna fór sú heillin stór, hann réð fyrir oss stríða.

5. Enn þó kémur aptur hann, á tilsettum tíma, þessi' hinn góði Guð og mann, gjørir þá dóm að halda, vondum verðkaup gjalda, en kristna þá, þá, þá, en kristna þá hann kallar á: komið í dýrð margfalda!

6. Hinna tala mun Herrann til, hefst þeim litill friður: á yður veit eg engin skil, engann yðar eg þecki, farið á Belíals becki, með lífi' og sál, sál, sál, með lífi' og sál í logandi bál, mig líta fáið ecki.

7 Þér hafið þjáð og þvíngun veitt, þýðum Herrans sauðum, mína dýrð og mildi sneidt, með svo vondu háði, yður því engin náði, heljar raun, raun, raun, heljar raun þér hafið í laun, með heitu neista sáði.

8. Herfilegar hefndir þá, hafa, þeir ílla gjerðu, skilja vill þá Skaparinn frá,

skjótlega sínum saudum, sem leyst hefir lífs frá naudum, ,:, hinir bel, bel, bel,,:, hinir bel og hrigdar qvel, hafa hjá djefli snaudum.

9. Hvera má þá harm og qvein, hátt med eymdar hljódum, sjá þeir þar sitt sonda mein, seint þó ad því gættu, þá Syni Guds ei sættu, :, í heimi glaum, glaum, glaum,,:, í heimi glaum þeir hef-u taum, hvarma tár ei vættu.

10. Fagrann munu þá fagnadar saung, fríðust Guds born halda, afin finnst þeim ecki laung, um eilífar aldir alda, gledinni Gud mun valda, ,:, ljóminn þá, þá, þá,,:, ljóminn þá er lýdum hjá, þá lidin er æfin kalda.

11. Haldtú mér vid hópinn þann, himna Fadirinn gódi! er leidir þú í lífsins rann, þar ljómar eilífur dagur, frábær, furdu fagur, ,:, þar sjest ei nótt, nótt, nótt,,:, þar sjest ei nótt, ei sorg né sótt, sæll er þá vor hagur.

12. Hverr, sem elskar herrann Kríst, hann fær gledi sanna; mín er þar til ljúfust lyst, lofajörd honum vanda, fyrir hjástod heilags Anda, ,:, og dikta saung, saung,

sarng, ,:, og dikta saung um dægur laung, Drottni mínum til handa.

13 Mér lítst nú kominn tími til, ad taka sig hédan búa, mínar syndir, minn Gud! hyl, mér ei vereld lætur, eg géf henni gódar nætur, ,:, heim til þín, þín, þín,,:, heim til þín frá hrigd og pín, hafdú mig, Jesús sætur!

14. Valt er þetta veraldar hjól, velt er heimsins blída, þú, réttlætis sanna sól, sálna hirdir mætur! géf þú ad mér gætur, ,:, heim til þín, þín, þín,,:, heim til þín frá hrigd og pín, hafdú mig Jesú sætur!

15. Mig lángar hédan, Lausnari minn! og lystir þar ad búa, sem eg hærstu huggunn finn, því heimurinn ílla lætur, um daga' og dymmar nætur; ,:, heim til þín, þín, þín,,:, heim til þín, frá hrigd og pín, hafdú mig Jesú sætur!

16. Þá er eg gladur Gud! í þér, gladur í himnaríki, þar gledi' um eilífd gladvær er, og gledi' útvaldra manna, þá sælu géf mér sanna, ,:, Amen til, til, til,,:, Amen til eg óska vil, enginn mun þad banna.

## Reisu-Psálmur.

Lagið: Gled Þig Guds Sonar brúd!

Jeg byrja reisu mín, Jesú! í nafni þín, hendin þín helg mig leiði, úr hættu allri greiði; Jesús mér fylgi í friði, med fögru Engla liði.

2. Módur-jørd minni frá, þín mildin gædsku há, leiði med lucku blída, og létti ellum qvída; J. m. f. í f. m. f. E. l.

3. Þín fødurleg nádin frí, framandi løndum í, forsorgati og fæddi, fullvel nærdi og klæddi; J. m. f. í f. m. f. E. l.

4. Frá fári, sorg og sótt, síd, árla, dag og nótt, vel mig jafnan verndadir, voldugi hjartans Fadir! J. m. f. í f. m. f. E. l.

5. Hér fyrir hverja stund, af hjartans innstu grund, því vil eg þackir skíra, þrenníng Guddómsins dýra! J. m. f. í f. m. f. E. l.

6. Vil eg nú víst til sanns, vitja míns føðurlands, í þinn nafni alleina, almættis tignin hreina! J. m. f. í f. m. f. E. l.

7. Flý eg nú því til þín, þú hjartans vonin mín! verndin þín vel mín gæti, svo voda engum mæti; J. m. f. í f. m. f. E. l.

8. Þó eg med íllsku ment, opt hafi straff forþént, samt mjúk þín miskun hlífi, mér

bædi' á sálu' og lífi; Jesús mér fylgi' í fridi med fegru Engla lidi.

9 Í voda, vanda' og þraut, vel eg þig ferunaut, ysir mér vyrdstú vaka, og vara á mér taka; J. m. f. í f. m. f. E. l.

10. Þá sjáfar-bylgjan blá, bo.dinu skéllur á, þín hægri hend os's haldi, og hjálpi med Guddóms valdi; J. m. f. í f. m. f. E. l.

11. Frá stormi' og sterkum vind' og stríðri sjáfar mind, frá ógudlegu' íllþýdi, allskyns voda og stridi; J. m. f. í f. m. f. E. l.

12 Þá vil eg þacka þér, nær þú hefir hjálpad mér, sem Jakob fadirinn fordum, med fegrum bænar ordum; J. m. f. í f. etc.

13. Þú skalt í allri naud, ætíd vera minn Gud, þér vil eg þjóna, trúa, og þackargjerd tilbúa; J m. f. í f. m. f. E l.

14. Mitt hjartans trúar traust, til þín er efalaust, ad mér med miskun skjærri, munir þú vera nærri; J. m. f. í f. m. f. E. l.

15. Ljóst þegar lifid dvín, leid þú mig heim til þín, í fødurlandid fríða, firrtaun vid allann qvída; J. m. f. í f. m. f. E. l.

16. Amen! ó Jesú minn! ad þér tak þræ'-inn þinn, til skips þá gánga géri, Guds Englar med mér veri; Jesús mér fylgi' í fridi, med fegru Engla lidi.

Aminning ad vera ánægdur med sitt.

Málsháttʼ hafdú í minni einn, minnis verdur hann stædur, tók eg penna, þó tregur og seinn, ad tempra vísna glædur, svo mun renna raddar teinn, rétt i ordsqvids máta: þetta mun Drottinn dýrstur einn, duga' ad sennu láta.

2. Ordtækid gamla ei skaltú, í orda rædu skérda, sérhverjum eptir sinni trú, sídar og fyrr mun verda, ef á stedugum stofni sú, stendur, því munt játa, þetta mun Drottinn dýrstur einn, duga' ad sennu láta.

3. Fuglarni hafa faung ei stór, þá fædu sinnar leita, ad morgni hverr fastandi fór, ad fá þeir skyldu neyta, á qvøldi aptur kémur hverr, qvídalausir ei gráta; þetta mun Drottinn dýrstur einn, duga' ad sennu láta.

4. En þó ei mestu efni hér, ó madur! hlotnast kunni, ervæntíngar aldrei þér, ord lát heyrast af munni, segdú heldur, sem þér ber, svo med hyggju kåta: þetta mun Drottinn dýrstur mér, duga' ad sennu láta.

## Q v æ d i.

Sat eg undir fjallinu fríða, heyrdi' eg fagrann fugla saung, um dægur laung, ekki reykadi hugur minn þá víða.

Fródur beida mig réd madur, mærd framleida sinnis gladur, fjelnis veida sengurinn hradur, ser þó tregur róms um gaung; heyrdi' eg fagrann fuglæ saung. Vid málid greida stend eg stadur, stökurnar mjúkt ad smída; ekki reykadi hugur minn þá vída.

2. Sá eg mörk af vildis verkum, vafin börk á skógi merkum, ein var bjerk med ylma sterkum, aldins fegurst veitti saung; h. e. f. f. s. Mektar ork á mynni og qverkum, midla smeckum bl'da; e. r. h. m. þ. v.

3. Fuglar sveima' í fögrum ljóma, fegnud geyma' og saungva róma, í gardi þeim má heyra hljóma, hljódin lystug, mikil og laung; h. e. f. f. s. Allskyns seima bestann blóma, ber sú mörkin fríða; e. r. h. m. þ. v.

4. Limid nýrt med laufum þéttum, leyptrar blídt á qvistum sléttum, blakar tídt med blóma settum, blaktir mjúkt á hverri staung; h. e. f. f. s. Glansar frídt med gylltum blettum, geislar fagrir bída; e. r. h. m. þ. v.

5. Eg nam standa og því undi, ellum vanda sirrtur mundi, allrahanda faguadar

fundi, fángin þóktist hyggjan raung; h. e. f. f. s. Sárum anda síðan stundi, sú nam gleðin líða; e. r. h. m. Þ. v.

6. Vindar furðu hastir hrærdust, hræ-svelgs burðum allir nærdust, blómstur í þurðu flestell færdust, féllu lauf af eikar spaung; h. e. f. f. s. Fölar urðu, fölnaðar særdust, sérhver þellin hlíða; e. r. h. m. Þ. v.

7. Fuglar súngu lystugt lengi, ljúfri túngu sælu gengi, harma sprúngu frá eg fengi, ferðin gjerðist mikil og laung; h. e. f. f. s. Í frosti þúngu fannst þá enginn, fegnir í hylmíng skríða; e. r. h. m. Þ. v.

8. Allur skógur er fallinn fagur, fölnaður plógur, en sorgar-slagur, eflaust nógur, hrörnar hagur, horfin gjervell lysta faung; h. e. f. f. s. Vaknar rógur, dvínar dag-ur, dýr og fuglar qvíða; e. r. h. m. Þ. v.

9. Veraldar prýði og glisleg gæði, gét eg líði' og fölni bæði, glaumurinn friði' og feg-urðar æði, flýr í svip um leyni-gaung; h. e. f. f. s. Líf með stríði' á lausum þræði, leikur og ell þess blíða; e. r. h. m. Þ. v.

10. Siglu karfi hleiðólfs hverfi, hafði' hinn djarfi minnst atgérfi, féck í starfi af fryggjar erfi, farar-spéll með hverri raung;

heyrdi' eg fagrann fugla saung. Gyllíngs arfinn skenkti' ad skérsi, skirnis dryckinn þýda; ecki reykadi hugur minn þá vída.

Um Veraldarinnar háttu.

Heims hrørna gædi, hnignar allt og þver, leikur líf á þrædi, en luckan vølt er.

Brøgnum skal nú bjóda, bragarins lítinn gróda, Gud eda virda góda, gjarnan vil eg ei hnjóda, um hætta hegdun þjóda, hér þó margt eg rædi; heims hrørna gædi. Sízt, ef satt skal ljóda, sjálfum haga' eg mér; leikur líf á þrædi; en luckan vølt er.

2. Villast menn úr máta, má þad sannleik játa, minnst sér móti láta, mun þad engin gáta; margir stoltsa og státa, med skærilætis ædi; h. h. g. Má sá mæddur gráta, sem meira okid ber; l. l. á. þ. e. l. v. e.

3. Verøld margann villir, vitrum mønnum spillir, holdid háskann hyllir, húgmód brjóstid fyllir; ágirnd audinn gyllir, svo yfirvøldum nædi; h. h. g. Margur á tá sér tyllir, tæpt þó standi hér; l. l. á. þ. e. l. v. e.

4. Maktin magnar kala, meir enn eg um tala, margir metord fala, mergd fyrir ríkisdala, búk af bjørnum ala og bera vegleg

klædi; h. h. g. Huganum hér með svala
hvað sem á eptir fer; l. l. á. þ. e. l. v. e.

5. Margir hugarhrestir, hátt eru stund-
um festir, fá ár ríkja flestir, fjörið dauðinn
lestir, enginn fót svo festir, að fyri því
bragði stædi; h. h. g. Allir erum vér gést-
ir, eitt ersum, sem ber; l. l. á. þ. e. l. v. e.

6. Veraldar vestnar hagur, velkist blóm-
inn fagur, gleði dvínar dagur, dauðinn er
ekki ragur, í burt dó margur magur, þó
Mammon nógann grædi; h. h. g. Ekki
er unninn slagur, auð þó hreppum vér;
l. l. á. þ. e. l. v. e.

7. Ungur orku réttur, opt á stól er sett-
ur, voluðum voða þéttur, varla þykist mett-
ur; degi síðar dettur og dreifist kraka-sæði;
h. h. g. Valdi og vyrðing slettur, vík-
ur frá því ber; l. l. á. þ. e. l. v. e.

8. Stundleg stjórn vill brotna, stoltari
hefðar gotna, engir um eilífð drottna, eikur
háar brotna, sem tréð það lága og lotna,
lík verða þau bæði; h. h. g. Ríkir í jörðu
rotna, ráð er að gæta' að sér; l. l. á. þ. e.
l. v. e.

9. Líf með hógværð laga, og láta' ei yfir
klaga, það er sæmdar saga, að sýna' ei nein-
um baga, um alla æfi daga, er sá sæll því

nædi; h. h. g. Undir Drottins aga, ellum lúta ber; l. l. á. þ. e. l. v. e.

10. Hug vid heiminn festa, hætta er hin mesta, stundlegt blóm vill bresta, búin er sorgin mesta; synda særíng versta, sannur Drottinn grædi; h. h. g. Sídast sjer þad besta, senn þegar æfin þver; l. l. á. þ. e. l. v. e.

11. Gud frá grandi nauda, geymi ríka' og snauda, hópnum Herrans sauda, hjálpi hans blódid rauda, svo glæpa girndin trauda, gjöri' oss ei vandrædi: heims hrørna gædi. Líka' í lísi' og dauda, líkni Drottinn mér; leikur líf á þrædi, en luckan vølt er.

Undir eins brestur burdi og hug, blánkadur fuglinn missir flug, þá vængur verdur dár, framan af honum fjadrir þrjár, fengid hafa allar sár.

2. Einn hefir fellt og aptur reist, einn gat bundid og líka leyst, gaf sár og grædді hag, sorgir veitti' og gledi gaf, gaf hann fyrst og tók sídan af.

3. Lánid því ecki lengur er, en lént hefir sá, sem rádin ber, sitt taka madur má, hvad miklu framar sá allt gott á, og allra best kann fyrir ad sjá.

# Register.

